# Sañleiki Gudhrædsluñ

AN

J Einfalldri og stuttri, eñ þo
ánægiatañlegri

## UTSKYRINGU,

Yfir þann

## Litla Barna Lærdoom

edur

## CATECHISMUM

Hins Sæla

## Doct. MART. LUTHERI,

Jñihalldande allt þad, sem sa þarf ad
vita og giora, er vill verda Sæluhoolpiñn.

Samañskrifadur
Eftir Konunglegri Allranaadugustu Skipan
Til Almennilegrar Brwkunar.

Selst Jnnbundinn 10. Fiskum.

Þryktur a Hoolum i Hialltadal,
Anno 1773.

## Þeir sem Kieña ödrum þessi Christileg Frædi, Athuge:

1. Ad Spurningar, forir framañ hverjar þetta Teikn † r sett, eiga ecki ad læraſt utañ ad af þeim sem eru tornæmir, edur hafa litla Tijd til slijkra Jdkana; Helldur eiga þær ad leſaſt vel og yfirvegaſt af þeim; Eñ þau Ungmeñi, sem hafa betra Næmi og Tijd, eiga ad læra þær, og ecke rt i þessum Frædum undañ ad fella.

2. Þad er adgiætande, ad þau Ord i Greinum Ritningariñar er biria med tveimur Upphafs-Stöfum, eru Atridis Ord, sem bevijsa Andsvar næſt fyrirfarandi Spurningar.

Hid Litli Lutheri

# CATECHISMUS.

## Þetta eru Tiju Laga Booord GUDS.

### FYRSTA BODORD.

Eg er DROTTinn Gud þinn, þu skallt ecki hafa Aññarlega Gude fyrer mier.

Hvad er þad? Þad er:

Vier eigum yfir alla Hluti fram, Gud ad Ottast, hann ad elska, og aa hann einn ad triwa.

### ANNAD BODORD.

Þu skallt ecke leggia Nafn DRottens Guds þijns vid Hiegooma, þvi Drottenn mun eige hallda þann saklausann, sem brwkar hans Nafn Hiegoomlega.

Hvad er þad? Þad er:

Vier eigum ad Ottast og elska Gud. Engvum eigum vier Ills ad bidia i hans Nafni, eigi sveria vid þad, nie Fiølkijngi fremia, eigi ljwga nie svijkia, helldur eigum vier Guds Nafn ad aakalla, i øllum vorum Naudsynium, þad ad tilbidia, lofa þad, og þvi Þackir ad giøra.

### ÞRIDIA BODORD.

 Minn

Miñstu ad helga Hvijldar-Dageñ DROTTeñs Guds þijns.

Hvad er þad? Pad er:

Vier eigum ad Ottast og elska Gud. Ad vier eigi fyrirlijtum Predikunina, nie hanns Ord, helldur eigum vier þad heilagt ad hallda, giarnann heyra þad og læra.

## FJOORDA BODORD.

Heidra skallt þu Fødur þiñ og Moodur, so þier vel vegni, og þu verdir Laanglijfur aa Jørduñe.

Hvad er þad? Pad er:

Vier eigum ad Ottast og elska Gud. Ad vier eigi fyrirlijtum vora Forelldra nie þaa sem yfir oss eru bodner, eigi þaa til Reide reitum, helldur þaa i Heidri høfum, þioonum þeim og hlijdnir sieum, elskum þaa og Virding veitum.

## FJMTA BODORD.

Pu skallt ecke Mañ deyda.

Hvad er þad? Pad er:

Vier eigum ad Ottast og elska Gud. Ad vier eigé meidum Holld vors Naaunga, edur giørum honum Mein i nockru, helldur eigum vier honum ad biarga og vidhiaalpa i øllum hanns Lijfs-Naudsynjum

## SJOTTA BODORD.

Pu Skallt ecke Hoordoom drijgia.

Hvad er þad? Pad er:

Vier eigum ad Ottast og elska Gud. Ad vier lif- um Hreinferduglega bædi i Ordum og Verkum, og ad hvør einn elski og i Heidri hafi sijna Egta-Persoonu.

## SIOUNDA BODORD.

Pu skallt ecki stela.

Hvad er pad? Pad er.

Vier eigum ad Ottast og elska Gud. Ad vier eigi griipum Gootz edur Peninga vors Naunga, edur med fölskum Kaup-Eyri edur Undirhyggiu undir oss drøgum; helldr eigum vier honum ad hiaalpa, so hanns Gootz og Upp-Elldi æavaxtist og vardveitist.

## ATTUNDA BODORD.

Pu skallt ecki bera falskañ Vitnisburd æ mooti pijnum Naaunga.

Hvad er pad? Pad er.

Vier eigum ad Ottast og elska Gud. Ad vier eigi ræænglega liwgum nockru æ vorn Naaunga, eigi svijkium, baktølum, edur ofrægium hann i nockru, helldur eigum vier hann ad afsaka, allt gott uñ hañ ad tala, og fæera alla Hluti til betra Vegar.

## NIUNDA BODORD.

Pu skallt ecki Gyrnast Hws Naaunga pijns.

Hvad er pad? Pad er:

Vier eigum ad Ottast og Elska Gud. Ad vier eigi med Flærd stundum eptir Arfi edur Fast-Eign vors Naaunga, edur undir oss drøgum med Yfir-

varpi Laga og Riettinda, helldur eigum vier þar til hiælpa og styrkia, ad hann hafi sitt allt Oskaddad.

## TIUNDA BODORD.

Pu skallt ecki Gyrnast Kvinu Naunga þijns, eigi Pioon, nie Pioonustu Kvinu, eigi Uxa nie Asna, og eckert þad hañs er.

Hvad er þad? Pad er:

Vier eigum ad Ottast og elska Gud, Ad vier eigi burt tælum edur lockum fraa vorum Naunga hanns Eiginn Kvinnu, Pioonustu Foolk eda Kvik-Fie, helldur eigum vier ad aminna og raadleggia, ad hvor og einn sie samt og astundi, ad þioona þad honum skylldugt er.

Hvad segir Gud af øllum þessum Bodordum?

Hann segir so i Exodi Bookar 20. Cap.

Eg er DRottinn Gud þiñ, sterkur Vandlætari, vitiandi Naunglætis Fedrañа a Sonunum, i Pridiu og Fioordu Ættkvisl, þeirra sem mig hata; Eñ gisrandi Myskunsemi i Pusund Lidu, þeim sem mig elska og mijn Bodord varð-veita.

Hvad er þad? Pad er:

Gud hootar þeim øllum Pijnu, sem afvijkia þessum hanns Bodordum; Pvi eigum vier ad Ottast og hrædast hanns Reidi, og eckert ad giora mooti hanns Bodordum; Eñ þeim øllum, sem þessi hañs Bodord hallda, lofar hann sinni Naad, Myskun, og øllum goodum Hlutum; Par fyrir eigum vier Gud ad elska, trwa honum og treysta, og eptir hanns Bodordum giarnann ad giora.

Triu

# Trwar-Jatningin.

## FYRSTA GREIN AF SKÖPUNINNI.

Eg trwi a eiñ Gud-Fødur Almættugañ, Skapara Himins og Jardar.

Hvad er þad? Þad er:

Eg trwi ad Gud hafi skapad mig, æsamt øllum ødrum Skiepnum, og ad hann hafi giefid mier Ønd og Lijkama, Augu, Eyru og alla Limi, þarmed Skin og Skilningar-Vit, og ad hann øllu þessu enn nu vid Magt helldur. Hier til veitir hañ mier og fyrersier nøøglega, og Daglega giefur hañ mier Klæđi og Skiædi, Mat og Dryck, Hws og Heimili, Fødur og Moodur, Akur og Kvik-Fie, og allt þad sem Gott er, med øllu þvi eg med þarf til þessa Liifs Upphelldis, Hañ verndar mig og vardveitir fræ øllum Skada og Hæska, og øllum illum Hlutum. Allt þetta Gott veitir hann mier, af sinni Einskiærri, Fødurlegri, Gudlegri Gøødgyrnd og Myskun, æn allrar minnar Forþienustu og Verdskulldunar. Fyrir hvad allt eg æ hønum Lof og Þ ackir ad giøra, hønum ad þioona og hlijdinn ad vera; Þetta eru vissuleg Sanníndi.

## ANNAR GREIN AF ENDURLAUSNINNI.

Eg trwi æ JEsum Christum Son hañs Eingietiñ DRottiñ vorn, hver ed

Gietinn var af Heilogum Anda, Fæddur af Mariu Meyu, Pijndur undir Pontio Pilato, Kroßfestur, Deyddur og Grafinn, Nidurstie hann til Helvijtis, og aa Pridia Degi reis hann upp fraa Daudum, Uppstie hann til Himna, Situr nu til Guds Fodur Almaattugs Hægri Handar, og þadann mun hann koma ad dæma Lifendur og Dauda.

Hvad er þad? Pad er:

Eg trwi, ad JEsus Christus sie sannur Gud af Fodurnum gietinn fyrir allar Alldir: Lijka sannur Madur, fæddur af Mariu Meyu, ad hann sie minn DRottinn, sem mig glatadann og fyrirdæmdann Mann hefur afrekad, endurleyst og frelsad, fraa ollum Syndum, Daudanum og Diofulsins Valldi, eigi med Gulli nie Silfri, helldur med sijnu heilaga dijrmæta Bloodi, og med sinni saklausu Pijnu og Dauda; So ad eg sie hanns eiginnleg Eign, lifi undir hanns Valldi, i hanns Rijki, honum þioone i eilijfu Riettlæti, Meinleysi og Sælu hiaalp, lika sem hann er sialfur af Daudanum uppriſinn, lifir og rijkir ad Eilijfu: Þetta eru vissulega Sanníndi.

## PRIDIA GREIN
## AF HELGUNINNI.

Eg trwi aa Heilagann Anda, og ad sie

Ein Heilog, Almeñileg, Christileg Kyrkia, Samneyti Heilagra, Fyrigiefning Syndaña, Holldsins Uppriſa, og eptir þetta Lijf, Eilijft Lijf. Amen.

Hvad er þad? Þad er.

Eg trwi, ad eg gieti ecki af sialfs miins eiginn Krapti edur Skilningi trwad a JEsum Christum minn DRottinn, edur til hanns komist: helldur hefur Heilagur Andi mig, fyrir Gudspiallaña Kieñing, kallad og upplijst med sijnum Afstgiöfum, helgad mig og vidhalldid i riettri Trw; Lijka sem hann alla adra Christna Menn a Jordu kallar, samanu safnar, upplijsir og helgar, og i einni riettri Trw til JEsum Christum vardveitir. I hvorri Christilegri Kyrkiu hann nœdarsamlega fyrirgiefur mier og ollum Trwudum daglega allar Syndir: Og a Effsta Degi mun hann uppvekia mig og alla Menn af Dauda, og giefa mier, med ollum Riett-Trwudum, i Christo JEsu Eilijft Lijf og Sœluhialp. Þetta eru Vißuleg Sanninndi.

# DRottinnleg Bæn.

## Fadir vor, þu sem ert a Himnum!

Hvad er þad? Þad er.

Gud vill hier med tilleida oß og locka, ad vier trwa skulum ad hañ sie vor riettilegur Fadir, og vier hanns sannarleg Born; Svo vier þeß helldur med fullu Trwnadar Trausti meigum hann bidia, so

sem good Børn bidia sinn elskulegann Fødur.

## FYRSTA BÆN.
### Helgist Þitt Nafn.

Hvad er þad? Þad er:

Guds Nafn er sañarlega i sialfu sier Heilagt, þo vier bidium ecki; enn vier bidium i þessari Bæn, ad þad einnig helgist hier med oss.

Hvernig skiedur þad?

Nær Guds Ord kiennist riettilega og hreinlega, og vier eptir þvi lifum heilaglega, so sem Guds Børnum hæfir. Þar til hialpi oss vor elskulegi Fadir a Himnum! Enn hvor sem odruvijsi kiennir edur lifir enn Guds Ord bijdur, sa vanhelgar Guds Nafn a medal vor. Þar fra vardveiti oss vor elskulegi himneski Fadir!

## AUNNUR BÆN.
### Tilkomi Þitt Rijki.

Hvad er þad? Þad er:

Guds Riiki kiemur ad sonnu an vorrar Bænar af sialfu sier til; enn vier bidium i þessari Bæn, ad þad einninn komi til vor.

Hverniñ skiedur þad?

Nær Gud giefur oss sinn Heilaga Anda, sa oss veitir þa Naad, ad vier trwum hanns heilaga Ordi, lifum heilaglega hier stundlega, enn annars Heims eilijflega.

## ÞRIDIA BÆN.
### Verdi þiñ Ville, so a Jordu sem a

Him-

Himni.

Hvad er þad? Pad er:

Guds goodur og nædugur Vilie verdur af Himnum, þo vier bidium ecki; Enn vier bidium i þessari Bæn, ad hanns Vilie verdi hier aa medal vor.

Hvernig skiedur þad?

Nær Gud Onijtir og hindrar oll ill Raad og vondann Vilia, þeirra sem þvi vallda, ad Guds Nafn vanhelgast og hañs Rijki næir eigi til vor ad koma; sem eru Diofullin, Heimurin og vor holldlegur Vilie: Helldur styrkir hañ oss og stoduga giorir i sijnum Ordum og i Trwñi, allt til vorra Æfiloka. Þetta er hañs miskunsamur og goodur Vilie.

## FJORDA BÆN.

### Gef oss i Dag vort daglegt Braud.

Hvad er þad? Pad er:

Gud giefur ad soñu daglegt Braud, jafnvel vondum Mønnum, þo vier bidium ecke; enn vier bidium i þessari Bæn, ad hañ læte oss vort daglegt Braud vidurkeña og med þacklæte til vor medtaka.

Hvad kallast daglegt Braud?

Pad kallast allt þad sem naudsynlegt er til þessa Lijfs Biargar; sem er: Matur og Dryckur, Klæði og Skiædi, Hws og Heimili, Todur og Engiar, Kvik-Fienadur, Goots og Peningar, good Egta-Persoona, hlijdiñ Born, dyggt Pioonustu-Folk, trwer og froomer Yfer-Menn, good Almwgans Stioorn, hagstæd Vedurætta, Fridur, Heilbrygde, Sidseme, Heidur, gooder Viner, trw-

faſtir Naagrannar, og allt annad þeſſu lijkt.

## FIMTA BÆN.

## Fyrirgief oſs vorar Skulldir, ſo ſem vier ogfyrirgiefum vorum Skulldu-Nautum.

Hvad er þad? Þad er:

Vier bidium i þeſſari Bæn, ad Fader vor himneſkur vilie ei aalijta vorar Syndir, ſo hann fyrir þeirra Skulld, vilie eigi veita oſs vora Bæn (þvi vier erum allra þeirra Hluta Omaklegir, ſem vier hann um̃bidium, og hoſum eigi þad verdſkulldad) helldur ad hañ vilie oſs þad allt giefa fyrir ſijna eiginlega Naad: þvi daglega ſyndgum vier, og forþienum ei añad enn Straff; ſo vilium vier og eiñig þar i moot fyrirgiefa af Hiarta, þeim ſem oſs aa mooti brioota, og giora þeim gott, ſem vid oſs misgiora.

## SIOTTA BÆN.

## Eigi iñleid þu oſs i Freiſtni.

Hvad er þad? Þad er:

Gud freiſtar ad ſonnu einkis Mañs, enn vier bidium i þeſſari Bæn, ad hañ vilie vernda oſs og vardveita fraa Andſkotans, Heimſins og Holldſins Vielum, ſo vier hrøpum ecki fyrir þeirra Tilteiging i Van-Trw, Orvænting, edur adrar ſtoor-Syndir og Loſtu, og þo vier freiſtunſt af ollu þeſſu, þo laati hann oſs um̃ ſijdir yfirvinna og Sigrinum hallda.

## SIOUNDA BÆN.

## Helldur frelſa oſs fraa Illu.

Hvad er þad? Þad er:

Hier

Hier bidium vier alls i einu i þessari Bæn, ad Fad er vor himneskur frelse oss fraa ollu illu til Liifs og Saalar, Farsælldar og Heidurs; Og ad siidustu, þaa vor Dauda-Stund er komin, giefi hann oss good ann Afgaang, og take oss myskunsamlega til siin wr þessum Eymdar-Dal, inn i Himna-Riike.

Amen. Hvad er þad?

Þad er: ad eg skal vera fullviss, ad þessar voraar Bæner sieu vorum himneska Fodur þacknæmilegar, og af honum heyrdar: Þvi hann hefur sialfur skipad, ad vier skylldum med soddann Hætti bidia, og hefur lofad, ad hann villde oss bænheyra.

AMEN! AMEN! Þad er: Jaa, sannarlega, þad skal so vera.

# Sacramentum H. Skyrnar.

## FYRSTA SPURNING.

Hvad er Skyrn?

Skyrnenn er ecke einsamalt Vatn, helldur er hun þad Vatn, sem saman er reirdt og bunded med Guds Bodorde, og med Guds Orde samteingdt.

Hvert er þad Guds Ord?

Þad vor HErra JEsus Christus sagde hiaa Matthæum i 28. Capitula: Fared wt um allann Heimenn, kienned ollum Þioodum, og skyred þær i Nafne Fodur, og Sonar, og Anda heilags.

## AUNNUR SPURNING.

Hvad stodar oss og veitir Skijrnin̄?

Hun wtvegar oss og veitir Fyrigiefning Syndanna, frelsar oss fraa Daudanum og Diofl[illegible], og giefur þeim øllum Eilijfa Saaluhiaalp, sem trwa þvi, sem Ordinn Guds og Fyrirheitinn lofa.

Hver eru þau Guds Ord og Fyrirheit?

Þau vor HErra JEsus Christi seigir hiaa Marcum, i 16. Capitula: **Hver han̄ trwir og verdur skijrdur, saa skal holpin̄ verda, en̄ hver han̄ ecke trwir, saa skal verda fordæmdur.**

## ÞRIDJA SPURNING.

Hvernig maa Vatnid orka so veglegra Hluta?

Vatnid maa alldrei slijks orka, helldur veitir þad Guds Ord (hvert ad er i og med Vatninu) og Trwinn, hver ed slijkum Guds Ordum i Vatninu trwir; Þvi fyrir utan̄ Guds Ord, er Vatned einsamallt Vatn, enn einginn Skijrn; Enn þegar Guds Ord samlagast Vatninu, þa er þad Skijrn. Þad er Naadarfullt Lijfsins Vatn, og Endurgietningar Laug i heilogum Anda, so sem Paall Postuli seigir til Tit. i 3. Cap. Eftir sin̄i Myskunsemi hefur Gud oss hoolpna giort, fyrir han̄ Endurgietningar Vatns Saa, og Endurnijun Heilags Anda, hverium han̄ hefur nooglega wthellt yfer oss, fyrer JEsum Christum vorn Lausnara, so vier Riettlætter fyrir hans Naad, yrdum Erfingiar eilijfs Lijfs eftir Vonin̄i. Þessi Ord eru sonn og Trwannleg.

## FIOORDA SPURNING.

Hvad merkir þvilijk Vatns-Skijrn?

Hun merkir þad, ad sa hinn gamle Adam i

oss

ofs, at daglega ad dreckiast og deydast, fyrir Yðran og Yfirboot, med øllum Syndum og vondum Gyrndum; Og siidann daglega fram koma og upp aftur riisa einn niir Madur, sa ed lifa skal i Riettlæti og Heilagleika fyrir Gudi æfinnlega.

Hvar stendur bad skrifad?

Sancti Paall seigir til Rom. 6 Cap. Wier erum jardadir med Christo, fyrir Skiirnina i Daudan, ad lijka so sem Christur er uppvakin fraa Daudum, fyrir Dijrd Fødursins, so eigum vier ad gaanga i Endurnijungu Lijfdagana.

# Sacramentum H. Altaris.

## FYRSTA SPURNING.

Hvad er Sacramentum Altaris?

Sacramentum Altarisins er sannarlegt Hold og Blood DROttinns vors JEsu Christi, undir Braudi og Wijni, af honum sialfum Jesu Christo innsett ofs Christnum Mønnum ad eta og drecka.

Hvar stendur bad skrifad?

So skrifa beir H. Gudspialla-Menn, Matthæus, Marcus, Lucas og Sancte Paull: Vor HErra JEsus Christus, a beirre Natt, sem hann forraadinn var, took hann Braudid, giordi Packir, og braut bad, og gaf sijnum Læriſveinum, og sagdi: Takid og etid, betta er minn Lijkami, sem fyrir ydur verdur giefinn, giørid bad i mijna Minning.

Somuleidis, eftir Kvølldmaaltijdina,

took hañ Kaleikiñ, giørdi Packir, gaf þeim hañ og sagdi: Dreckid allir hier af: Þetta er Kaleikur hins Nija Testamentis i mijnu Bloodi, sem fyrir ydur wthellist til Fyrirgiefningar Syndaña; So oft sem þier giørid þetta, dreckid þad i mijna Miñing.

## AUNNUR SPURNING.

Hvad stodar oss med soddañ Hætti ad eta og drecka her af?

Þad wtvijsa mier þessi Ordinn sem hier standa: Fyrir Ydur giefst og wthellist til Fyrirgiefningar Syndaña. Þvi ad soñu veitist oss og giefst fyrir þessi Ordinn i Sacramentinu Syndanna Fyrirgiefning, eilijft Lijf og Saaluhiaalp; Þviad hvar Syndanna Fyrirgiefning er, þar er einnig Lijfid og Saaluhiaalpinn.

## ÞRIDIA SPURNING.

Hverniñ kañ lijkamleg Berging ad verka so mikla Hluti?

Berging Brauds og Vijns verkar þad i eingañ Maata, helldur þau Ordiñ sem hier standa: Fyrer ydur giefst og wthellist til Fyrirgiefningar Syndaña. Hver Ord ad eru hiaa liikamlegri Bergingu, so sem Høfud-Sticki i þessu Sacramenti: Hvør sem þessum Ordum trwir, saa ødlast allt þad þau innehallda og uppaa hlioda, sem er Syndanna Fyrirgiefning.

## FJOORDA SPURNING.

Hver neytir þessa Sacramentis maklega?

Ad fasta og sig lijkamlega þar til ad bwa, er ad soñu good ytri Sidsemi; Eñ sa er sañarlega maklegur og velskickadur, sem Trwna hefur a þessum Ordum: **Fyrir ydur giefst og uthellist til Fyrirgiefningar Syndaña.** Enn hver sem ecki trwir þessum Ordum og efar þau, sa er Omaklegur, þviad þetta Ordid, **fyrir ydur,** Krefur fullkomlegrar Trwar i Hiartanu.

## STUTT AGRIP

Þess Christilega Lærdooms, Ungum og Faafroodum til frekari Skilnings.

I.

Þar er alleina einn sañur Gud til, i þremur Personum Fader, Sonur, og Heilagur Ande.

2. Þesse Þrij-Eine Gud hefur skapad allañ Heimeñ, so sem hañ og eiñig helldur honum eñ nu vid Makt, og stijrer honum.

3. Einglarnir voru aller af Gude skapader, gooder og heilager, eñ nockrer fiellu fyrir sijna Ohlijdne fra Gude þeir ed kallast Diøflar.

4. Madurinñ var og eiñig skapadur af Gude aan Synd ar, eftir Guds Mind, til ad þioona honum.

5. Þesse Guds Mind var iñifaliñ i naakvæmlegre Samlijkingu vid Gud, edur i soñum Vijsdoome, Riettlæte og Heilagleika.

6. J þessu Sakleysisins Stande var Madurinñ farsæll, af þvi hañ lifde i Sameiningu med Gude, sem er sa hærst Goode.

7. Eñ vorir fyrstu Forelldrar Adam og Eva lietu Diøfulliñ svijkia sig til ad snwast iñvortes i Hiartanu fraa Gude, og utvortis til ad eta af þeim forbodna Tries Avexti

8. Þess vegna töpudu þau Guds Mind, i Stadiñ fyrer hveria ad kom Diøfulsins Mind, edur Lijking vid þeña Guds Oviñ. Skilninguriñ vard formyrkvadur, Viliēñ fraasnwiñ, og daudur til hiñs gooda, eñ hneigdur og ferdugur til alls ills.

9. Þar med töpudu þau og eiñig þeirra Sælufulla Samfielagskap med Gude, fiellu under Guds Reide, og urdu sek tijmanlegs, andlegs og eylijfs Dauda.

10. Nu med þvi ad Adam og Eva voru sa Stofn, af hverium allar Mañeskiur hafa siñ Uppruna, þaa hafa þesser fyrstu Forelldrar gietid Børn eftir siñe Mind, og asamt med þeirre nañlegu Natturu iñrætt Syndena og Daudañ i alla sijna Efterkomendur.

11. Þess vegna vantar alla Meñ, af Natturuñe til, Guds Mind, þañ medskapada Vijsdoom og Heilagleika. Eñ i þeñar stad fædast þeir med Uppruna-Syndeñe, andlega blinder, O-heilager og mootviliuger.

12. Ut af þessari medfæddu Uppruna-Synd fliota all ar giøraālegar Synder i Hugreñingum, Gyrndum, Ordum og Verkum.

13. Søkum þessa eru allar Mañeskiur i þessu vesæla Syndareñar Stande, af Natturuñe til, under Guds Reide, sekar tijmanlegs, andlegs og eylijfs Straffs.

14. Fraa soddañ eylijfre Eymd gat eingeñ skøpud Skiepna frelsad oss.

15. Eñ Gud, sem i fraa eylijfu saa þessa Mañkinsins allra stærstu Neyd og Hørmung, hefur af O-forþientum Kiærleika hrærst til iñelegrar Medaumkunar, og asliktad, ad senda øllum Møñum siñ Eingietna Son, sa ed være þeirra Endurlausnare.

16. Þesse Endurlausnareñ, sem heiter JEsus Christur, var Verolldeñe lofadur strax epter Syndafalled, og

hañs

hañs bitri og bloodugi Daude var i þvi gamla Testament eun teiknadur og fyrirmindadur med Fornfæringum marg ra Þusund Dijra.

17. Lokſins i Tijmans Uppfyllingu var þesse Guds eyliifur Son: fyrir heilags Anda Yfir-Fygginugu gietiñ aa Syndar, og fæddr i Heimeñ af siñe Moodur, hiñe heilogu Jomfrw Maria.

18. Þesse vor blessade Endurlausnare hefur þvi tvær Naatturur i eiñi Persoonu, Guddoomlega og Mañdooms lega, so hañ er bæde Gud og Madur.

19. Efter sijnu Embætte er hañ sa einaste Medalgaangare millum Guds og Maña, vor ædste Kieñemadur Spaamadur og Konungur i trefolldu Stande, Nidurlægingareñar og Upphafningariñar.

20. Med sijnum heilaga Lifnade og fullkomiñi Hlijdni hefur hañ i vorn stad Logmaalid uppfyllt; Med siñi bitru Pijnu hefur hañ wtstaded Straffed fyrir oss, og funded til Logmaalsins Bolvunar, bæde aa Saal og Lijkama, eilijf tijmaulegs og eylijfs Dauda, vegna vorra Synda, sem hönum voru i Guds Doome tilreiknadar.

21. Med þessare siñe Hlijdne og Pijnu hefur hañ stillt til Fridar Guds Riettlæte, forlijkad oss vid Gud, afrekad oss Frelse fraa Syndeñe og ollu illu, samt Riett til Sameiningar vid Gud, og alla Saaluhiaalp sem þar af kiemur, og þañig alldeilis fullkomnad þad stoora Endurlausnareñar Verk.

22. J Grofeñe var JEsus eige leingur eftir siñ Dauda eñ til þess aa þridia Deige, þaa Fadiriñ uppvakte hañ, og hañ sialfur med stoorum Sigurvinningar Krapte yfer sijnum og vorum Ovinum uppreis fraa Daudum, auglijsande, ad hañ hefde betalad fyrir oss Syndareñar Gialld, allt til sijdarsta Penings.

23. Efter Upprisuna er Christur uppstijgeñ til Himens, og hefur sett sig hiaa Guds hægre Hende, hvar hañ bidur fyrir oss, og sender oss siñ heilaga Anda, so ad ham

utvegada Sæluhiælp kome oss til gooda.

24. Heilagur Ande kallar alla Men alvarlega til þessarar Sæluhiælpar, og vekar kroftuglega fyrir Naadar-Medolin,(þad er)Orded og þau Tvo Sacramenta; Sijn ir og einig vissan Hatt og Maata, hvernig Men kuna ad oðlast þa afrekudu Sæluhiælp.

25. Þesse Hattur kallast Sæluhiælparinar Maati, og er iñifalin i sanri Umvendan til Guds.

26. Umvendunarinar Partar eru Tveir, Hugar-Angrid og Trwin.

27. Angur og Tregi eru, ad þecki a riettilega af Løgmaalinu sijna natturlegu Spilling, og giøranlegar Syndir, sina saarlega til þeirra, og hata þær alvarlega.

28. Af soddan Tilfiñingu sinar eigin Eymdar framkiemur, fyrir Evangelium, Trwarinar Eftirlangan til Guds Naadar i Christo.

29. Þesse Trw frambiðdur sig sinum Lausnara, og uinsadmar med storre Eftirlangan hans dijrmætu Forþienustu og Verdskulldan, sem sin einasta Sæluhiælpar Grundvoll.

30. Somu Trwar rietta Edle og Eiginlegleiki er, ad hun strax auglijser sig verkande i Kiærleikanum til Guds og Naungans, sem og einig i daglegri Hiartans Hreinsan.

31. Hver sem þa ecke mootstendur heilags Anda Naad, helldur lætur sig leida til þessa Sæluhiælplega Maata, han uppvaknar af sijnum andlega Dauda, endurfædist til þess Lifnadar, sem er nyr, oðlast aftur þaa tapudu Guds Mind; Nytt Lioos i Skilningunum, nya Gyrnd og Kraft i Viljanum, nytt umbreitt Sini og Hiartalag. Han riettlætist, þad er, iklædist Christi Riettlæte, frijast fraa Sekt og Straffe Syndarinar, med þvi Herradæme Syndarinar er þaa einig burttekid.

32. Han sameinast med Trwni a nij vid Gud, og oðlast Hlutskipte i øllum þeim ometanlegu Naadar-Gaafum, sem Christur hefur utvegad.

33. Nu er hañ orðiñ ſañarlegt og Sáluhiálplegt Guds Barn, og hefur lifandi Von uñ Himnarijkis eilijfa Arfleiſð.

34. Nu fær hañ Guddoomlegt Liovs og Kraft, bædi til ad yfirviña þad Illa (ſo hañ ſyndgar ecki framar af ásettu Raadi mooti Samvitſkuñi) og til ad eftirfilgia þvi Gooda af ollu Hiarta, ſo hañ leitar nu idnglega Guds Rijkis og hañs Riettlætis, og frañgeingur á Iorduñi med himneſku Siñi, og ſo ſem fyrir Guds Augliti.

35. Nu hefur hañ ſaña Hnggun i ollum Mootgaangi; ſokum þeſs, ad Guds Rijki, ſem er Riettlæti, Fridur og Fognudur i Heilogum Anda, bijr i hañs Hiarta, jafnvel þoott þad oft og tijdum ſie hulid undir Veikleika og Sturlan.

36. Eñ vilie hañ ecke tapa ſoddañ ſijnu Sáluhiálplegu Naadar Stande, þa hlijtur hañ fyrer Trwna ad blijfa i Chriſto, og láta ſier ſtioorna af hañs Anda.

37. Hañ hlijtur med iñelegre Bæn og Hiartans Alvörugeſne koſtgiæfilega ad brwka þau Medol, med hverium hañs Trw kañ ad halldaſt vid Magt, og ſtyrkiaſt, ſem er Guds Heilaga Ord og Sacrament.

38. Hañ verdur þa riett ad vaka, ſtrijda og bidia mooti Dioflinum, Heiminum og Syndiñe, hverrar Eftirleifar loda eñ nu vid hañ, eñ ſkulu uthreinſaſt æ meir og meir, med daglegre Endurnijan, og þar á moote Guds Mind meir og meir i honum uppreiſaſt, ſo hañ láte augliooſlega ſiáá i ſi'na Lijferne, ad hañ ſem endurfædt Guds Barn er nááſkilldur þeſſum ſijnum himneſka Fodur, elſke allt þad er hañ elſkar, eñ hate allt þad ſem hañ hatar, og allt þad ſem Veralldiñ er full af; neſnelega: Fijſn Augnaña, Gyrnd Hoolldſins, og drambſamt Lijferne.

39. Hañ hlijtur Daglega ad afneita ſiálfum ſier, og bera Kroſſiñ þoliñmoodlega efter ſijnum Frelſara á þeim þraungva Veige

40 Hver ſem blijfur ſtodugur á þeſſum Veige alla

 ſijna

sijna Lijfs-Tijd, honum er Daudiñ uñi sijder Abate og full komid Frelse.

41. Þvi hañ mun a effsta Deige upprijsa, ecke til Forþæmingar helldur til eilijfs vegsamlegs Lijfs, og einnar vupplepsanlegrar Sameiningar med Gude.

42. Eñ hver sem ecke vill epter þessare Hialpræbesins Nidurskipan medtaka og brw ka Guds Nad, hañ er i sijnu syndugu Natturuñar Stande, verdur adskiliñ fra Gudi, og hlijtur ad vænta Hlutskiptis med Dieflinum og hans Arum i eilijfre Fyrirdæmingu.



# UTSKIRING CATECHISMI.

MJn kiæra Barn, villtu eigi giarnañ verda Farsæll hier i Heimi, og niota sidañ Eilijfrar Sælu a Himnum?

Vissulega, Ef eg ad eins giæti ordid þad.

Villtu þa ganga þañ Veg, sem leidir til þessa Takmarks?

Ja, Ef eg giæti fundid hann.

Trwir þu ad þar sie eiñ Gud til?

Ja, Þvi Heimurinn hefur eigi gietad skapad sig sialfur, helldur hlijtur til hañs ad hafa verid nockur Orsok, sem er Elldri og Ædri enn allir Hlutir; Og þad er su eilijfa Vera, sem kallast Gud.

Trwir þu ad Gud rad fyrir eilijfri Salu hialp?

Vissulega, Þvi hann er yfir ollum Hlutum.

Trwir þu ad Gud uñi þier eilijfrar Saluhialpar?

Ad

Ad Viisu, þvi hann er einn goodur Gud.

Mun Gud vilia viisa þier Veg til Eiliifrar Saaluhiaalpar?

Ad Soñu, þad kann eigi ad bregdast.

Med hveriu vuisar Gud þier og mier þeñañ Veg?

Med siinu Heilaga Ordi.

Hofum vier þa þetta Guds Ord vor aa medal?

Jaa, i Heilagri Ritningu, sem kallast Biblia.

† Hefur Heimuriñ æfiid haft Guds Ord?

Jaa, þvi aadur enn Moyses var aa Dogum hofdu Menn Guds Ord fyrir Gudlegar Opinberanir og Muunlega Undirviisan þeirra gomlu Forfedra, fraa Kyni til Kyns; Enn i Letur var þad eigi fært, fyrr eñ Moyses byriadi þad ad giora.

Hver hefur skrifad Bibliuna?

Þeir Heilogu Spaamenn, Gudspiallamenn og Postular.

Eñ voru þesser eigi Meñ?

Viist voru þeir Menn.

Hverniñ eru þa þeirra Ord Guds Ord?

Þvi Andi Guds blies þeim i Brioost, allt, hvad, og med hverium Ordum þeir skylldu þad skrifa.

2. Timoth. 3. 15. 16. 17. Med þvi þier er kuñug Heilog Ritning allt i fraa Barndoomi, þa kañ hun ad undirviisa þier til Saaluhiaalpar, fyrir Truna aa Jesum Christum. Priad ell Ritning af Gudi JNNgiesiñ, er nytsamleg til Lærdooms, til Umvendunar, til Betrunar, til Leidriettingar i Riettlætinu, so ad Guds Madur sie algiör, og til alls goods Verks hæfilegur.

2. Pet. 1. 21. Þar hefur eigi eñ nu nockur Spaadoomur, eptir Mañsins Vilia, frañfluttur verid, helldur af HEilogum ANda tilknuüdir hafa þeir Heilogu Guds Meñ tal-

kalad. Sia Matth. 10, 19. 1. Cor. 2. 13.

† Hvar af kañ Madur ad vita, ad þessi hin sama Ritning sem vier høfum, sie þad sañaa Guds Ord?

Af imislegum Hlutum, so sem af Gydinga, Tyrkia og annara elldstu Piooda Samsinningu, þvi þeir vitna til þess sama Ords; Einnig af Samhlioodan Skrifaranna, Uppfylling Spaadoomaña, Stadfesting marghaattadra Krapta-Verka, og, ad siidurstu, af þeim ofluga Framgaangi, sem þetta Ord hefur haft, fyrir utann Kraugan og Mañlega Magt, og þad midt i þeim bloodugustu Offsooknum, i hverium so margar Þusundir Piislar-Votta hafa iñsiglad þennann Sannleika med þeirra Bloodi.

† Hvad skal sa giøra sem eñ nu eigi trwir þvi, ad Ritningiñ sie Guds Ord?

Hann skal leitast vid ad hliidnast Ordinu og giefa þess Verkan Rwm i siinu Hiarta; þa mun hann verda þess fliott var, ad þad hefur eina yfirnaattúrlega og riett Guddoomlega Daad, Krapt, Liif og Anda i sier, til ad upplijsa, sannfæra, hugga, upporfa og aavijta Samvitskuna.

Joh. 7. 17. Ef sa er nockur sem giøra vill hañs Vilia hañ REyni HVert þessi LÆrdoomur er AF GUdi, eda hvert eg tala af sialfum mier. Sia Ps. 50. 23.

Eigum vier þa Vafalaust ad medtaka H. Ritning fyrir Eina, Rietta, Vissa og Fullkomna Reglu og Mæliþraad vorrar Trwar og Framferdis?

Vissulega Luc. 16. 29. Þeir hafa Moysen og Spaameñina: heyri þeir þeim. Joh. 10. 31.

Meiga Meñ þa ecki grundvalla siina Trw aa, og haga siinu Framferdi eftir þeim Opinberunum, sem giørast fyr-

ir utañ þau Medøl, sem Gud hefur tilsett, eda a Draumunn, eigiñ Skinsemdar Pootta, añarra Maña Mindugleika og Efirdæmum, gømlum Meiningum, Maaltækium, Samkomulagi, og Sidvana, edur nockru þvilijku?

Ney, einginn søñ Trw nie Hlijdni verdur a slijku grundvøllud, helldur Hiaa-Trw, Gudleysi og uppfundinn Dijrdkun af eiginn Pootta, sem Gudi er þvert a mooti.

Gal. 1. 8. Eñ þo ad eiñig vier edur Engill af Himni predikadi ydur Evangelium Ødruvijs ENn VJer HØfum PRedikad YDur, saa sie bølvadur.

Matth. 15. 9. Ad ØMijtu PJoona þeir mier, a medañ þeir kieña þær Kieñingar, sem ecki eru añad eñ BØdord MAña.

Hefur Guds Ord eñ nu fleyri sierdeilis Eigiñlegleika fram yfir Mañaña Ord?

Jaa, nærst þess Guddoomlega Obrygdannlegleika, Krafti og Fullkomlegleika (sem adur er synt) hefur þad eina sierdeilis Birtu i sier, til ad upplijsa oss, af Natturunni blindar Manneskiur.

Ps. 119. 105. ÞJTT ORd ER LAmpi Foota miña, og LJoos a mijnum Vegum.

Er þo ecki Bibliañ myrk og vandskiliñ fyrir Einfallda og Faafrooda?

J øllu þvi sem Mønnum er naudsynlegt ad vita sier til Saaluhiaalpar, er hun noog skijr, fyrir alla þaa, sem hafa hana um̃ Hønd riettilega, hvert þeir eru Leik Menn, Olærdir, edur Lærdir.

2. Tim. 3. 15. (16) 17.

Hvernig hefur Madur Guds Ord riettilega um̃ Hønd?

Þegar Madr andvarpar fyrst til Guds um̃ hañs H. Anda Upplijsing; þar nærst les Guds Ord m:

 good-

goodri Gaumgiæfni, og þeinkir eptir því alvarlega; með swsum Asetningi að lisa eptir Orðinu, og hlijðnast því i sijnum Verkum og Framferdi: Þegar Madur leitar eptir að sedia Hwngur Saalar sinar, eñ eigi sijna holldlega Forvitni þar med; og ad sijðurstu, þa Madur rængfærir eigi Orðaña Meining eptir sijnum eiginn Girndum, helldur leitar þar i einlæglega eptir þeim Sañleika, sem þienar til Guðhræðslu, og ransakar þar eptir sitt eigid Hiarta.

Joh. 5. 39. 40. Cap. 7. 17.

Getur Madur af siñi eintoomri Skynsemi skilid og útlagt Ritninguna sier til Saaluhiaalplegrar Þeckingar?

Ney, því vor Skinsemi er af Syndiñi fordiorfud. 1. Cor. 2. 14. NAtturlegur MAdur Skyniar ECkert af Guds Anda, því þad er honum Heimska, og hañ fær þad ei þeckt, því þad hlijtur andlega ad dæmast. Eph. 1. 17.

Af hverium a Ritningiñ ad lesast?

Af ollum Moñum; og þar fyrir ei alleina af þeim sem kieña, helldur og so af Tilheyrendunum; Ecki einasta hafa aller Leyfi og Riett til þess ad lesa Ritninguna, helldur er þad ollum bodid, sem ein Skylda. Jaa, þad er i siaalfu sier eiñ Guds Velgiörningur, sem hvor einn Christinn Madur a ad færa sier med Packlæti og Fognudi kostgiæfilega i Nyt, sier til tijmanlegrar og eilijfrar Velferdar.

Post. G. B. 17, 11. og 2. Tim. 3. 15. Joh. 5. 39. 40.

Hverniñ sundurskiptist Heilog Ritning?

J Gamla Testamentid, sem Spaamennirnir hafa fyrir Christi sijnilegrar Hierviftar Daga a Hebresku ritad, og þad Nya Testamentid, sem af

Gudspiallamoñum og Postulum er i Grisku Mæli skrifad eftir Christi siinilegrar Hiervistar Daga, og hvertveggia siidañ utlagt a vorra Landa Tungumaal, ollum Moñum til Idkunar og goodra Nota.

† Upptel mier Bækur Gamla Testamentisins?

Nofn og Tala þeirra, sem Meñ eru vanir i Predikun og Lestre ad vitna til, eru i riettri Rod sem eftirfilgir: Fim̃ Mosis Bækur, Josuæ Book, Doomaraña Book, Ruths Book, tvær Samuels Bækur, tvær Kongaña Bækr, og tvær Chronicu Bækur, ein Esræ, ein Nehemiæ, ein Esters, og ein Jobs Book, Hundrad og Fimtiu Psalmar, flestir ortir af David Konungi; þriaar Bækr Salomonis, kalladar Ordskvidir, Predikari, Lof-Kvædi; Spamenn þeir Stærri Fioorir, Nefnilega: Esaias, Jeremias, Ezechiel og Daniel; Spamenn þeir Smærri Tolf, sem eru: Hoseas, Joel, Amos, Obadias, Jonas, Micheas, Nahum, Habacuk, Zophonias, Haggeus, Zacharias, Malachias.

† Mier siinist sem hier vanti nockrar af þeim, sem eg fiñ þo i miñi Bibliu, so sem eru Tobiæ og Judiths Book, Spekiñar Book, Sirachs Book, Baruchs Book, þær Putin Historiur um Susoñu og Drekañ i Babylon, Maccabeorum Bækur og Manassis Bæn.

Þessar siidurstu eru eigi sem hinar adrar Canoniska, edur Reglulegu, Bækur af Guds Anda innblæsnar; Helldur nefnast þær, til Adgreiningar fra hinum, Apocryphiskar, edur hulldar Bækur, þvi þær eru eigi sama Gylldis og Myndugleika, jafnvel þoott þær hafi inni ad hallda nockrar good-

ar Lærdooms-Greinir.

† Hveriar eru Bækur þess Nija Testamentis?

Þeir Fiorir Gudspiallamenn, Mattheus, Marcus, Lucas og Johannes, Postulanna Giørninga Book, og þeirra Pistlar, edur Sendi-Brief, Nefnilega: St. Paals, Einn til Romveria, Tveir til þeirra i Corintho Borg, Einn til Galatas, Einn til Ephesios, einn til Philippenses, Einn til Colossenses, Tveir til þeirra i Tessalonica, Tveir til Timotheum, Einn til Titum, Einn til Philemonem, Einn til Ebræos: So og liika Sio almenilegir Pistlar hinna Postulanna, Nefnilega; Einn St. Jacobs, Tveir St. Peturs, Þrir St. Johannis, Einn St. Judæ, og Loksins er hin siidarsta Book Bibliunnar, Opinberanir Johannis. Allar þessar eru fyrir utann nockurskonar Medøl innblaasnar af H. Anda.

Hver er Kiarni og Innihalld allra Bibliunnar Booka?

Þad er saa vigtugi Sannleiki; Ad JEsus er Christur, Vegurinn, Liisid og Sannleikurinn, til Saaluhiaalpar øllum Trwudum Saalum.

Joh. 20. 31. Enn þessi (Tekn) eru þvi skrifud, ad þier trwid, þad JEsus SJe CHristur Sonur Guds, og ad þier skulud hafa Liisid, sem trwid, i hanns Nafni.

Hver Mismunur er aa Lærdoomum, i þvi Gamla og Nija Testamenti,?

J Gamla Testament nu vitnudu Spaamennirnir med Spaadoomum og Fyrirmindunum umm Christum sem koma skylldi; Enn i þvi Nya Testamentenu vitna Gudspiallamennirnir og Postularnir

er med liooſum og ſkilmerkilegum Ordum um̃ hañ, þa þegar i Heimenn komenn.

Nu var Bibliañ er ſtoor Book, hverñig gieta þa þeir Ungu og einfølldu funded þeña Ritningareñar Kiarna?

Þeir kuña i fyrſtu ad hialpa ſier vid Saaluga Doct. Lutheri Cathechiſmum.

Hvad er Catechiſmus?

Hann er ein liitel Biblia, eda ſtutt Agrip af Guds Orde, um̃ þad, hvad vier eigum ad trwa og giøra, i Spurningum og Andſvorum fram̃ſett.

† Hvad hefur Lutherus ſett, fyrer framañ hvern Part Catechiſmi til Uppbiggelegrar Aminingar?

Þeſſe Ord: Hvernig ſierhver Hwſs-Fader er einfalldlega ad uppfræda ſitt Heima-Foolk.

Er þad þa Skyllda allra Hwſs-Fedra?

Ja Viſſulega; J Fim̃tu Bookar Moſis Cap. 6. 67. ſeiger Gud.

Þeſſe Ord, ſem eg biid þier j Dag, ſkalltu leggia uppa Hiartad. Og þu ſkallt brijna þau allt jafnt fyrer Børnum þijnum, og ræda um̃ þau, nær ed þu ſitur i þijnu Hwſi, og nær ed þu geingur um̃ ſareñ Veg, nær ed þu leggur þig nidur, edur ſiendur upp.

Eru marger Høfud-Parkar Catechiſmi?

Fim̃; af hverium ſa fyrſte hlioodar um̃ Guds Tiju Laga Bodord; Añar um̃ Trwariñar Hofud Greiner: Þridie um̃ Drottiñlega Bæn: Fioorde um̃ Sacramentum Skijrnareñar: Fim̃teum̃ Sacramentum Altariſins: Þar eftir filgir Hwſs-Tablañ, ſem iñihelldur hvers Mañs Skylldu eftir hañs Standi, og fiñſt hun hier iñ̃færd i fioorda og ſiotta Bodordi.

Verdur þetta ecke i færre Ordum iñibundid?

Ad vijſu, þvi allt þad ſem Fræden iñihallda, hlijdſt añadhvert til Logmaalenu edur Evangelio.

Hvad er Logmaaled?

Logmaalid er ſaa Lærdoomur, i hverium Gud ſijnir oſs ſitt Riettlæte, kieñir oſs, hvilijkum oſs byriar ad vera, hvad vier eigum ad giora, og ognar oſs, ef vier laatum þad ogiort, edur giorum þar þvert a moti.

Hvad er Evangelium?

Evangelium er ſaa Lærdoomur, i hverium Gud ſijnir oſs ſijna Naad og Myſkunſemi i Chriſto, og tilbidr oſs hana; kieñir oſs hvad vier eigum ad trwa, og heitir þeim Naad er hlijdnaſt honum i Trwnni.

Hvad merkir eiginlega þetta framande Ord Evangelium?

(Þad merkir) gledilegañ Bodſkap.

Hvar er hondlad i Frædunum uñ Evangelium?

J Fioorum þeim ſiidari Hofud-Partunum.

Hvar er hondlad i Frædunum uñ Logmaaled?

J Fyrſta Partenum.

# Fyrſti Parturiñ.

(Hvernig eiñ Hwſs-Fader og Hwſs-Moodir a undirvijſa einfalldlega ſijnu Heimilis-Foolke)

## Uñ Logmaalid.

Hvad margfalldt Logmaal wtgaf Gud i gamla Teſtamentenu?

Þrennſlags, ſem var fyrſt Ceremoniu edur Kyrkiu-Logmaal, annad þad Veralldlega Dooma og Valldſtioornar Logmaal, þridia Sida-Logmaalid, edur

edur þad almennelega Lögmaal, um̃ Kiærleikann og Fram̃ferde Lifnadarins.

† Helldst Ceremoniu edur Kyrkiu-Sida Lögmaalid enn nu vid?

Ney; Þess Ceremoniur og Fornfæringar voru eigi nema Evangelisskar Fyrirmyndaner uppá Christum, sem hefur afmaad þær med sinne Hingadkomu. Col. 2. 16. 17. Ebr. 10. 1.

† Helldst Walldstiornar Lögmaal Gydinga eñ nu vid?

Ney; Þad var eins og Ceremoniu Lögmaaled, giefid Gydingum alleina um̃ vissañ Tijma; Eñ nu er sierhverium Christnum Mañi vysad til þeirra Laga, sem brwkast i Landinu, og hañs eigid Yfervalld wtgiefur. Rom. 13. 1.

Blijfur þa Sida-Lögmaalid, edur þad almeñilega Kiærleikans Lögmaal, ei helldur leingur vid Magt?

Vissulega; Þvi þad Lögmaal er bygdt aa Natturu Guds sem riettlaat er og heilög; Og þar fyrer er i þvi innifalinn Guds orasskannlegur og stadfastur Vilie um̃ alla Menn aa ollum Tijmum, sem er Elskann til Guds, sialfs sijns og Naungans.

Hvernig hefur Gud opiñberad þetta sitt Lögmaal og orasskañlegañ Vilia?

Hañ hefur i Sköpuniñi iñskrifad þad i allra Manna Hiortu, og þvi kallast þad Natturu Lögmaal. Rom. 2. 15.

Hefr Gud þa ei med odru Mooti opiñberad sitt Lögmaal

Jw, hann hefur og so utgiefid þad sijnilega, og skrifad utann aa tvær Stein-Toblur.

Hvar gaf Gud wt Lögmaaled?

Á Fiallinu Sinai med Reidarþrumum og Elldingum, til Merkis um hanns brennande Vandlæti vid þa sem þad yfirtroda.

Kunnum vier verda Saaluhoolpnir fyrir þetta Lögmaal?

Ney; Þvi siidann Syndafallid gietur þad einginn fullkomlega halldid.

Rom. 8.3. Hvad Lögmaalinu var Omögulegt, (med þvi þad veiktist fyrir Holldid) þad giördi Gud og sende sinn Son

Giörir þa Lögmaaled oss eckert Gagn?

Ad vijsu giörir þad oss stoormikid Gagn.

2. Tim. 1.8. Vier vitum þad Lögmaalid er gott, ef nock ur tijdkar þad riettilega, (þad er, so sem þvi hæfir ad brwkast).

Hver er sw rietta Lögmaalsins Nitsemd?

1.) Sannfærir þad þa Jdrunarlausu um Syndir þeirra, og Guds Reide i giegn Syndinne.

Rom. 3. 20. Fyrir Lögmaalid kiemur Vidurkienning Syndarinnar.

2.) Þreingir þad og rekur eftir þeim Ydrandi ad flija til Christum, og leita Traustshiaa honum.

Gal. 3. 24. Lögmaaled er vor Typtunar-Meistur til Christum.

3.) Undirvijsar þad þeim Trwudu, hvad þeir skulu giöra og laata O-giördt.

Ordskv. B. 6. 23. Bodordid er Skridlios og Lögmaaled er eitt Lioos, og Hirting Tiptunarinnar er Lijfsins Vegur.

Eru þa þeir Trwudu Lögmaalinu undirvorpnir?

Ney: Ecki Lögmaalsins Kwgan og Bölvan, þvi þar fraa hefur Christur þa endurleyst.

Rom. 6. 14. Þier erud Eigi Undir Lögmaalenu, helldur under Naadinni.

1. Tim. 1. 9. Vitande þad, ad hinum Riettlaata er eck, ert Lögmaal se:t.

Er þa eiñ trwadur Christiñ Madur ecki skylldugur ad lifa eftir Lögmaalinu?

Jw, vissulega.

Rom. 3. 22. Gjörum vier þa Lögmaalid ad Eingu, fyrer Trwna? Fiærre sie þvi, helldur uppreisum vier Lögmaalid.

† Hvernig a ed þa ad skilia þetta?

Adgiæt þetta tvent: Sierhvor riett trwadur Christen Madur er frij fraa Lögmaalsins Bölvan og Kwgan, eñ ei fraa þess Hlijdne; Þad er: Hañ gior þad ad sonnu sem Lögmaalid uthe:n:tir, enn þo eigi vegna Þvingunar Lögmaalsins og Otta fyr:r þess Bölvan, helldur sokum þess, ad Kiærleiki Christi knijr hann þar til: Og þa hañ af Breiskleika misgiörir sijn oviliandi, hæfir Lögmaalsins Bölvan hañ olldungis ecke, þvi hañ er i Christo. Rom. 8. 1.

Er Lögmaalid þa aunægt med ytre Verkiñ?

Ney, Lögmaalid er andlegt, og utheimter þvi allann Mannenn, med Lijkama, Saalu, Siñe, Tilhneigingum, og öllum Kroftum.

Rom. 7. 14. Þvi vier vitum þad, ad Lögmaalid er Andligt, eñ eg em Holldlegur, undir Syndina selldur.

Hvernig sundurskiptist Guds Lögmaal?

J Tvær Toblur, af hverium su fyrri iñiheldur Þriu; Eñ hin seinni Sio Bodord eda Skipaner.

Hvert er Lögmaalsins stittsta Jñihald?

Eckert añad eñ Kiærleikuriñ til Guds, vor sialfra og Naungans; Þvi eg giöri ogiarna aa mooti þeim sem eg elska.

Rom. 13. 10. Þvi er nu Elskan Logmalsins Uppfilling.
2. T:m. 1. 5. Sliña Bodordsins er Kiærleikuriñ af hreinu Hiarta, og af goodri Samvitsku, og af omeingadri Trw. 2. Cor. 13. 1. 2. 3.

## Uñ Fyrri Bodorda Tebluna.

Hvad er Iñihalld fyrri Bodorda Tebluñar?

Kiærleikuriñ til Guds, sem kieñir mier allu mijna Skylldu vid hann.

Luc. 10. 27. Elska skalltu DRotteñ Gud þiñ af ollu HIarta, og af allri ÞNd, og af ollum MÆtti, og af ollu Hugskoti.

## Ut af Fyrsta Bodordinu.

Ad hveriu œ eg ad gefa Giætur i þessu og odrum Guds Bodordum?

Ad tvennu, sem er: Ad Þvi Vonda sem er bannad, og Þvi gooda sem þar i moot er skipad.

Hvad er þad vonda sem i þessu Bodordi er bañad?

Ad fremia Afguda Dijrkan.

Hvad er Afgud?

Allt þad sem Madur dijrdkar, ottast, elskar, og treystir œ, i Stad þess einasta sanna Guds.

Hvernig verdur þessi Afguda Dijrkan framiñ?

Añadhvert, so miked beri œ Þvi, edur lijtid beri œ.

Hver er sw Afguda Dijrdkan, sem mikid ber œ?

Þegar Mañ ur tilbidur Sool, Tungl, Stiornur, Eingla, edur heilaga Meñ framlidna, Þvert i mooti Guds Orde.

Es. 42. 8. Eg er DRottiñ, þad er mitt Nafn, og mijna DÞrd vil eg EIngum odrum GIefa, nie mitt Lof Afgudunum.

† Eñ mœ Madur ecki tilbidia þañ saña Gud i einu

Bijlæti

læti, og meina til sialfs hans?

Ney, Gud er einn Andi, og hver sem hann tilbidia, þeir skulu tilbidia hann i Anda og Sannleika. Joh. 4. 24.

† Maa Madur ecki bidia Einglana, edur helga dauda Menn, ad bidia fyrir sier til Guds?

Ney, þvi Gud vill aleina tilbedinn verda.

Drottinn Gud þinn skalltu tilbidia, og honum einum þiona. Matth. 4. 10.

Þar ad auk er þad og so til forgiefins, þviad Abraham veit ecki af oss, og Israel hann þeckir oss eigi. Es. 64. 10.

Hvernig er framinn Afguda Diyrdkan so lijtid ber aa?

Þegar Elska, Otti edur Traust Hiartans snijst fraa þeim lifanda Gudi, og adhyllist framar adra Hlutienn Gud, edur eins mikid sem Gud.

Hvad margslags eru leinileigir Afguder til, sem kunna stela vorum Hiortum fraa Gude?

Ad sodann Afgudum kunnum vier ad giora ann ad hvert oss sialfa, edur adra Menn, edur adrar Skapadar Skiepnur, ellegar utvortis Guds Diyrdkan edur og Diosulinn.

Hvernig giorir Madur sialfann sig ad Afaud?

Þegar hann hefur ofmikla Elsku aa sialfum sier, setar einkis utann þess sem hans er, og stundar mest efter sinne eiginn Vegsemd, eiginn Vilia, eiginn Gagne, og eiginn Eftirlæti, hvers vegna hann hirdir hverki um Gud nie Naungann, og skiedur þetta fierdeilis:

1. ) Med eiginn Hroosan.

Hvad hefur þu, þad þu hafir eigi medtekid? Enn fyrst þu hefur þad medtekid, HVad HRoosar þU þJer þA, sem sa þad eigi hafdi medtekid. 1. Cor. 4. 7.

2.) Með Siersinni edur Siaalfrædi.

Oͦhlijdni er Guͦdra-Glæpur, og ad vera þverbrotinn er Afguda-Dijrdkan. 1. Sam. 15. 23.

3.) Med eiginn Hollds Lyst og Gyrndum.

Margir gaanga sem Ovinir Kroſſens Christi, hverra Endalok er Fyrirdæmingin, hverra Gud Maginn er, Phil. 3. 18. 19.

Er þa oll ſiaalfs Elſka Afguda-Dijrdkan?

Ney, eigeutan ſu ſem er oſkickanleg og maatalaus, hver ed metur ſig meir enn Gud, og vill eige gioraſt honum af Hiarta undergiefinn, og kannaſt vid ad Manneſkiann ſiaalf er ecker, enn ſiaalfur Gud ſaa ædſti Goodi.

Hvernig kann Madr ad giora adra Menn ad ſijnum Afgud?

Þegar Madur af ohæfilegri Hrædſlu fyrer þeim, edur Elſku og Trauſte til þeirra, annadhvert vanræk ir þad gooda, edur giorir þad vonda.

Jer. 17. 5. Bolvadur er ſaa Madur ſem hefur ſitt Trauſt aa Mann num, og Setur HOlldid fyrir Sinn ARm, og i burtviijkur fraa DRottni med ſijnu Hiarta.

Hvernin kann Madur ad giora adrar Skiepnur ad ſijnum Afgudum?

Þegar Madur hefur ſo mikid Ynde af þeim, ad til þeirra dregſt ſu Hiartans ædſta Glede, Huggun og Trauſt, ſem Madur ſkylldi aa Gud ſetia; Hvad ſierdeilis er ad ſiaa aa þeim aagiornu, ſem under eins villia þioono Gude og Mammon, og kallaſt þvi Skurgoda Dijrdkarar.

Eph. 5. 5. Þvi þad ſkulud þier vita, þad einginn Frillulijfis Madur edur Ohreinn, edur aagiarn, hver ad er Skurgoda Dijrdkari, hefur Arftoku i Rijki Christi og Guds.

1. Tim. 6. 17. Rijkum þeſſarar Verālldar biood þu, þad þeir

PEir SJeu EJgi MJkil-Lætir, og leggi einga Von upp-a þeña jallvallta Rijkdoom, helldur uppa lifanda Gud.

Hvernig kañ Madur ad fremia Afguda Dijrdkan med utvortis Guds Þioonustugiørd?

Þegar Madur midt i sijnu Jdrunarleysi setur fastvijslegt Trauft uppa Kyrkiu-Ferdir, Altaris Gaungur, Skriftamaal, Olmusur, Bænagiørdir, Saungva, Lestra, og þeßhaattar Verk, sem good eru hia þeim einum sem eru Ydrandi, enn hia Hræsnurum eru þau einkis verd.

Jer. 7. 4. 5. Treistid eigi uppa Lygina, þa þeir segia: hier er Musteri Drottins, hier er Musteri Drottins, hier er Musteri Drottins; helldur þa BÆtid YDvarn Lifnad og Athæfi.

Es. 1. 15. Pe ad þier UTbreidid YDar HEndur, þa byrgi eg þo mijn Augu fyrir ydur, þviad YDar HEndur ERu FUllar af Bloodi.

† Er þar nockud sem hefur Snert af Afguda Dijrdkan i vorri opinberri Guds Þioonustugiørd?

Eckert, sem i sialfu sier maa so kallast: enn med Misbrwkaninni kunna allar Skiepnur ad gioraft ad Afgudum, sem adur er sagt.

Hvad kiemur þa Moñum til soddañ Ogudlegrar Misbrwkunar?

Þad giorir einkanlega Andvaraleysi, sem ætijd vill hafa eitthvad sier til Astudnings, þvi þegar Samvitskann fordæmir hinn Ogudlega; og vill eigi sijna sier til Guds sialfs, snijr hann sier þeß fliootar med sitt Trwnadar Traust til Skriftastoolsins, Altarisins, og utvortis Athafna, og leitar þar inni Huggunar og Traufts fyrir sijna saurugu Saalu; so ad

 þad

Þad, sem i sialfu sier er skadlaust og gott, verdur honum ad einum Afgudi; Þad er: Þad hindrar og helldur honum fra þeirri riettu Guds Dyrdkun, sem skie a i Anda og Sañleika, þar sem þessir Hlutir ættu þo ad styrkia hann til hennar.

Luc. 13 26.27. Þa munud þier hefia upp ad segia: Vær hofum ETid HJa þJer og druckid, og a ETrætum VOrum KJendir þu. En hañ mun segia: eg segi ydur, þad eigi þecki eg ydur, hvadañ þier erud: farid fra mier allir þier Illgiørda-Meñ.

Kañ Madur og so ad giøra Dioful iñ ad sijnum Afgud?

Ja, allir þrælatir Synda-Þrælar eru lijka Dioful sins Þrælar, og hañ þeirra Gud og Herra.

2. Cor. 4. 4. Gud þessarar Veralldar hefur forblindad Hugskot Vantruadra. Rom. 6. 16.

Vier hofum heyrt þad Vonda sem oss er bañad, feig mier lijka þad Gooda, sem oss er bodid i Fyrsta Bodordinu;

Vier eigum yfir alla Hluti fram Gud ad Ottast, hann ad elska, og a hann einn ad trwa.

Ætlast þa Gud einkanlega vort Hiartalag til sijn?

Ja, þvi hann segir:

Ordskv. B. 23. 26. Gief mier, Son miñ, Hiarta þitt.

Gietur nockur Ottast, elskad og treyst uppa Gud riettilega, medañ hañ eigi riett þeckir hañ?

Nei, þad er Omøgulegt; enn ef vier þeckium hañs Riettlæti, þa ottunst vier hañ; Ef vier þeckium hañs Gædsku, þa elskum vier hann; Og ef vier þeckium hanns Almætti, þa treystum vier honum og trwum a hann.

Þetta vita Rauñar flestaller Meñ um Gud, munu þeir þa og so ottast, elska og treysta uppa hañ?

Ney, þvi flestra Þecking er daud og Kraptalaus,

1. Joh. 2. 4. Hver ed segir: Eg þecki hañ, og helldur ecki hañs Bodord, ſa er Lÿgari, og i hvilijkum er einginn Sañleikur.

Hvilijk er þa ſu rietta lifandi Guds Þecking?

Sw ſem kiemur vorum Hiortum til ad elſka Gud, og bligdaſt vid ad giora nockud þad, ſem Jllt er i hanns heilogu Naalægd.

1. Joh. 2. 3. Þar af vitum vier, þad vier þeckium hañ, ef ad vier vardveitum hañs Bodord.

Er ecki beſt ad vera i ſijnum Einfalldleik?

Viſſulega, enn ecki i Vankuñattu og Blindni.

Rom. 16. 19. Eg vil ad þier ſieud Vitrir uppa hid GOOda, og EJnfalldir uppa hid Vonda.

Hvad er ſu ſaña Einfeldni?

Ad Madur med Trwnni medtaki eins allt fyrir trwannlegt, þad ſem Madur er viſs uñ ad Gud hafi opinnberad, og þad aan þeſs ad hnijſaſt þar i med ſinni holldlegri Skinſemi.

Hveriu orkar nu ſw ſaña Guds Þecking?

Hun orkar þvi, ad Madur vijſt ottaſt elſkar og treyſtir uppa Gud, þann ſem hann riett þeckir.

Hvad er ad Ottaſt Gud?

Þad er ad blygdaſt i Hiartanu fyrir Guds allraheilogüſtu Hatign, ſo Madur ſie kvijdandi og hræddur fyrir ad uppvekia hanns riettferduga Reidi med nockri Synd.

Matth. 10. 28. HRædiſt eigi þa ſem Lijkamañ aflijfa, og Saalina gieta ei lijflatid, helldur HRædiſt hañ framar, ſem Saalu og Lijfi gietur TOrtijnt i Helvijti.

Phil. 2. 12. Verkid ydar eigiñ Saaluhialp med Ugga og Otta.

Er margſlags Guds Otti til?

Tveñslags Prældooms Otti, og Sonarlegr Otti.

† Hvad er Prældooms Otti?

Þegar Madur ottast Gud vegna Strafffins allreina, enn hefur hverki Elsku nie Traust til hanns.

1. Joh. 4. 18. Hrædsla er Ekki J Kiærleikanum, helldur utdriifur fullkomlegur Kiærleiki Hrædsluna, þviad Hrædslañ hefur Kvøl, eñ hver hañ hrædist, sa er ecki fullkomlegur i Kiærleikanum. Job. 14. 20.

† Hvad er Sonarlegur Otti?

Þegar Madur af Elsku til Guds, er kvijdandi fyrer ad giora honum nockud a moote, þoott hann ætte sier eige nockurs Straffs ad vænta.

1 Mos. B. 39. 9. Hverníg Ma EG GJora so mikid Ohæfu Verk og syndgast a moote Gude?

† Hver af þessum tvøfallda Otta fiñst hia Riettchristnum?

Saa Sonarleige Ottiñ tilheyrer þeim eigenntega, so sem Guds Børnum; Þo blandast hañ oft med nockru af Prældooms Otta, sierdeiles a Freistingar Tijmanum.

Rom 8, 15. Pier hafed eige medtekid Prældooms Anda so þier þurfid astur ad ugga nũ ydur; Helldur hafed þier medteked eiñ O Skabarna Anda, fyrer hvern vier køllum, ABBa, Elskulegur Fader.

Matth. 8, 26. Hvad hrædist þier so, þier Litiltrwadir?

Hvar af þeckir Madur eina Gudhrædda Mañesku?

Þar af, ad hun fordast og hatar Syndina, sem siñ stærsta Ovin, og olldungis fær ecki af sier, ad giora þad, sem Jllt er af Asetningi.

Ordsk. 8. 13. OTTi DRottins HAtar þad JLLa.

E u þeir þa allir Gudhræddir, sem lesa, bidia og siingia mikid?

Ecki alltijd, þvi þeir eru til, Hverier ed hafa JFirlit

Gud=

Gudlegs Athæfes, eñ þess KRafti afneita þeir. 2. Tim. 3,

Af hverju hefur þu saña Gudhrædsla siñ Upprana?

Af Trunni og Kiærleikanum, sem verkar soddann Umhyggiu fyrir því ad þocknast þeim ærstudlega Fodur.

Hvad er bad, ad elska Gud?

Pad er, ad oss þyki mikid til hanns koma, og oss innilega laungi eftir honum, leitum i honum vorrar riettu Gledi og Unadsemdar, og giefum oss alldeilis a Valld hanns þægilegum Vilia.

Psal. 18, 2. HJartkiæraň hefe eg þig DRottin minn Styrkleiki.

Psal. 73, 25. 26. Nær eg hefe ad eins þig, þa hyrde jeg ecke[r]t um Himin og Jörd, þo ad eitig mitt Lif og Saal vanmegnist, þa ertu þo GUd alla Tijma MJtt HJartans TRaust og mitt Hlutskipte.

Ps. 42, 2. 3. Lijka sem þad Hiörturiñ kallar epter fersku Vatne, so kallar mijn Saala, Gud til þijn. Mijna Saal þana þyrstir eptir Gude, eftir þeim Lifanda Gude, hvenær mun eg þangad komast, ad eg siae Guds Andlit.

Hverju mieg eigum vier ad elska Gud?

Yfir alla Hlute fram, því hañ er þad ædsta Gooda.

Matth. 10, 37. Hver hañ elskar Fodur og Moodur meir eñ mig, sa er mijn eige verdugur. Sia Luc. 20, 27.

† Kañ Madur þa ei bæde elska Gud og Heimsins syndugt Hattalag?

Nei. 1. Joh. 2. 25. Eige skulud þier Heimenn elska, nie neitt þad i Heiminum er, EF NOckur Elskar HEimiñ, J HOnum ER ECKi KJærleiki Fodursins.

† Hvers vegna eigum vier ad elska Gud?

Fyrst, vegna þess hañ er fullkomlega goodr i sialfum sier; þar nærst af því, hañ er goodr og Giædskurykur vid oss, sem daglega niootum hañs Velgiorn-

 ing

inga.

Matth. 19. 17. Eingiñ er goodur utañ alleina Gud.
1. Joh. 4. 19. Lᴂtum ofs hañ elſka, þvi hañ heſur Elſkad ofs FYrri.

Hvar af ſieſt þad, ad Madur elſkar Gud?

1.) Af gudrᴂkilegum Lifnadi.

Joh. 14. 21 Hver hañ heſur mijn BOdord, og HEldur þau, HAñ er ſa ſem mig elſkar.

2.) Af Kiᴂrleikanum til Naungans.

1. Joh. 4. 20. Ef einhver ſegir: Eg elſka Gud; Og HAtar ſiñ Broodur, ſa er Lÿgari. Þvi hver hañ elſkar ecki ſiñ Broodur hvern hañ ſier, hvernig gietur ſa Gud elſkad, þañ er hañ ſier eigi?

3.) Af Eftirlaungan til Orda Drottins, og idugleḡri Bᴂn til hanns.

Pſ. 73.28. Þad er mijn Gledi, ad eg helld mig til Guds.

† Gietur þu elſkad Gud af þijnum eigiñ Kraptum?

Nei, Guds Andi verkar Kiᴂrleikann i mier.

Rom. 5. 5. Guds Kiᴂrleiki er UThelltur i vor Hiørtu ſyrir HEilagañ ANda.

† Er nockurt Gagn ad þvi ad elſka Gud?

Jaa, allra ſtᴂrſta Gagn. Rom. 8. 28. Vier vitum, ad þeim ſem Gud elſka, þiena allir Hlutir til hins beſta.

† Meiga þeir þa, ſem elſka Gud, reida ſig øruggt uppa hañ?

Jaa. Pſ.84. 12 13. Gud Drottiñ er Sool og Skiølldur. Drottiñ gieſr NAad og HEidr, hañ mun ecki laata þaa Froomu haſa Skort a nockru Goodu. Drottiñ Zebaoth, SAEll er ſa Madur ſem treyſtir uppa þig.

Hvad er; ad treyſta uppa Gud alleina?

Þad er ad gieſa ſig a Valld Guds Forſioonar, med fullu Trwnadar Trauſti: Vᴂnta alls Goods af honum, og beſala honum øll ſijn Efni.

Ordsk.

Orðsk.B. 3. 5. TOrlæt þIg uPpa DRottiñ af ölln Hiarta, og treyst ecki uppa þitt Hyggiu-Vit.

Maa Madur þa ecki reida sig a Meñina?

Ney; Þvi opt ber vid, ad annadhvert vilia þeir eigi, edur gieta ei hiaalpad.

Ps. 146. 3. 4. TReystid EIgi uPpa HÖfdingiana, þeir eru Meñ, þeir kuña ecki ad hiaalpa.

† Þvi a Madur þa ad reida sig uppa Gud?

Þvi hann er vor almaattugi og trwfasti Vinur.

Psal. 146. 5. 6. Sæll er sa, hvers HIaalp þad Gud Jacobs er, HVers VOn ad stendur uppa Drottiñ hañs Gud. Hver ed Himiniñ, Jordina, Sióiñ og allt hvad þar er iñi, hefur giört, HAñ sa ed TRw HEldur Eilijflega.

A Madr alleina ad reida sig uppa Gud þegar vel geingr?

Ney, ecki alleina þa, helldur sierdeilis i Neydiñi.

Ps. 57. 2. A þig treystir Saala miin, og undir SKuggaþiña VÆngia, þa hef eg mitt Athvarf, þar til ad sw Ogiæfañ er umlidiñ.

Maa Madur og reida sig uppa Gud, iafnvel þa hañ stofnar sier sialfum i Haaska viisvitandi?

Ney, þvi þad er Ofdyrfd.

Matth. 4. 7. EIgi skalltu FReista Drottins Guds þijns.

Hvada Dygdir tilhlijda framar Fyrsta Bodordinu?

Þegar Madur ottast og elskar Gud yfir alla Hluti fram, treystandi honum alleina, þa kiemur þar af sierdeilis Audmijkt, Þoliñmædi og Afneitan sialfs sijns.

Hvad er Audmijktiñ?

Þa Madur verdur i sijnu Hiarta med Rokum sañfærdur um siñ Overdugleika fyrir Gudi, og fiñur til þess sama Overdugleika, hvers vegna hañ sie ei

hæf-

hæfur til ad niota miñstu Náadar, Hroosunar edur Upphefdar, eftir sinni Verdskulldan.
1. Pet. 5. 6. Hallþid ydur fast vid Litilætid, þvi Gud moootstendr Dramblaatum; eñ Litilaatum giefr hañ Naad.

Hvad er Polit-mædiñ?

Ad Madurinñ vegna Guds tak: vilugleg a aa mooti Mootlætingunum, þeim er ad Hondum koma þo Holldi og Bloodi þungbærar finist; So hann aan Moglunar, jaa, med Þackargiord, liggi undir þeim þoliñmoodlega, þar til Gudi þocknast ad giora Umbreiting og Boot aa þeim.

Jac. 1. 2. 3. 4. Brædur mijnir! reiknid þad fyrir allañ FÖgnud, nær þier i maigvijslegar FReistingar fallid; og vitid, þad Reinsla ydar Trwar verkar POliñmædi; Eñ Poliñmædiñ mun stadfast bliifa, allt til Enda, so ad þier sieud fullkomnir og algiordir, og i eingu Brest hafid.

Hvad er Afneitan siaalfs siins?

Þad er, ad Madur afneiti siins eigiñ Holldʒ Vilia og ollu þvi sem honum þyk:r vænt uñi Heiminum, so ad Guds Vilie alleina meigi i honum Framgaang faa.

Luc. 14. 26. 27. Ef nockur kiemur til miin og HAtar eigi (þad er afneitar edur miña elskar) Fodur siñ og Modur, Konu og Born, Brædur og Systur og þar hiaa sitt eigid Liif, hañ KAn ECki MIñ LAEriisveiñ verid: Og hver hañ eigi ber siñ Kross og filgir mier eftir, saa gietur eigi miñ Lærisveiñ verid.

# Ut Af Odru BODORDJNU.

Hvar fyrir standa upphafliga i Utleggingu þessa og hiña aña rra Bodordaña þessi Ord:

Vier eigum ad ottast og elska Gud?

So

So þar med verdi sýnt, ad allar sañar Christiñdoomsins Dygdir meiga ecki vera einber utvortis Hæverska og sidsamleg Riettvijse, helldur eiga þær ad framkoma af elskurijku og gudhræddu Hiartalage þess iñra Mañsins. Þær eiga ad vera riettir Trwariñar, Kiærleikans og Gudhrædsluñar Avextir, ef þær skulu Gudi þocknast og vera betrieñ Phariseanna Riettlæti.

Hvad illt er bañad i ødru Bodordinu ?

Ad leggia Guds Nafn vid Hiegooma.

† Hvad er Guds Nafn ?

1.) Þau eiginlegu og sierdeilislegu Nøfn, med hverium hañ verdr nefndur i Ritninguñi, so sem: Jehova, Gud, Drottiñ, Fadir, Sonur, og heilagur Andi, Jesus Christur, og þesskonar fleiri.

2.) Allt þad sem Gudi tilheyrir, hvar af hañ þeckist lijka sem eiñ Madur af sijnu Nafni; Hier til heyrir sialfs hañs Vera, Eiginlegleikar, Hattign, hañs Verk, hañs Ord, hañs Sacramenta, og allt þad sem tilheyrir hañs Dijrdkan. Psal.48. 11.

Hvernig verdur Guds Nafn lagt vid Hiegooma ?

1.) Þa Madur hefur i daglegu Tali Guds Nafn, edur Grein ur H. Ritningu, eda Vers ur einum gudrækilegum Psalmi eda nockud andlegt, med hiegoomlegum Hætti gaalauslega, til Skiemtunar edur Maaltækis, an Virdingar og Gudrækni; Einnig þa Madur lastar Guds Verk.

2.) Þa Madur blandar þessu blessada Nafni vid bølvud Ord og Athafnir, og brwkar þad til For-

mælinga, Eida, Galdra, Liga og Svika.

Hvad er ad formæla i Guds Nafni?

Þaa Madur i þessu gooda Nafni oskar ills sier edur sijnum Naunga, jaa, þa margur Guds Ovinr dyrfist ad hæda þañ allra hærsta Gud sialfann. Jac. 3. 9. Med Twnguñi dýrdkum vier Gud Fødur, og med heñi FOrmælum vier Mønnunum, eftir Guds Mind giørdum, af hinum sama MUñi framgeingur Blessan og BOlvan. Pad skal eige so vera, Brædur mijner.

Hvad er ad sveria?

Þa Madur brwkar Guds Nafn til ad stadfesta einn Hlut med, ad sañur sie, og þañig krefur Gud til Vitnis og Doomara sijns Maal-Efnis.

Maa Madur þa alldreigi sveria?

Jw, i stædstu Naudsyn, sem er: Nær Yfervalldid Guds vegna krefst þess, og Sañleikurin kañ eigi ødruvijs i Lioos ad leidast; Þa er þad eitt af Kiærleikans Verkum: Ebr. 6. 17. Meñirnir sveria vid eiñ ædri eñ þeir eru, og sa EJdur GJørir ENda allrar þRætu

Eru þa allir adrir Eidar i daglegu Tali Synd?

Jaa, stoor Synd, þo lijtid sie agtad fyrir hana. Matth. 5. 34. 37. Eg seigi ydur, ad þier skulud HLLdungis ECKi sveria, eñ ydar Ræda sie Jaa, Jaa, Nei, Nei, eñ hvad framyfer er, þad er af hinu vonda.

Eñ ef Madr vill eige trwa mier, þott eg seige Jaa og Nei?

Þaa aa eg ad hugga mig þar vid, ad mitt Vitni er i Himninum.

Er þa Syndiñ eins stoor, þa eg sver eige af Asetningi, helldur hef þad Orda Tiltæki af Vana, sierdeilis þa eg hefi aa søñu ad standa?

Jaa vissulega, þvi sa syndsamlegi Vani sijnir þad, ad Syndinn drottni yfir mier.

Sir.23. ɪɪ. 12 VEn þiñ Muñ Ekki til ad SVeria og Guds Nafn ad vanbrwka, þvi ad lijka sem sa Præll sem oft verdur striJktur, er ecki utañ Beniar, so kañ ecki helldur sa hreiñ af Syndum ad vera, sem oftsiñis SVER, og GUds NAfn VAnbrwkar; Hver sem sver oftlega, sa syndgar oftlega, og Plaagañ mun ecki af hañs Hwsi gaanga. Ef hañ sver og skilur ecki, syndgar hañ þo ecki ad sijdur. Eñ ef hañ skilur, og skeitir ei þar uñ, þa syndgar hañ tvofallblega.

Hvad er ad fremia Fiolkijngi i Guds Nafni?

Þaa Madur vill med Guds Nafne, Grein Ritningar, eda nockru odru, sem tilhlijdir Guds Dijrkan, lækna Meñ edur Fienad, signa edur særa, syna hver stolid hafe, edur fremia nockra Hiaatrw.

5.B.Mos. 18,10.12. Par fiñist ecki hiaa þier sa nockur, sem fer med SPaadvoma, edur er DAgveliari, edur sa sem hyggur ad Fugla-Kvaki, edur GAlldra Madur, edur SÆringa-Madur, edur nockur Fitons Anda. FOrsagnari, edur TEikna-Utleggiari, eda sa nockur sem LEitar FRietta af daudum. Pvi hver hañ gioriir soddañ, hañ er ein SVijvirding fyrir Drottni.

† Leifist Mañi eigi ad leita Raada til Fiolkuñugra edur Vijsinda Maña, er so kallast?

Nei, eingvañveiginn. 3.B.Mos. 19,31. SNwid ydur ecki til Spaasagnar-Maña, og þier skulud einkis spyrja af þeim sem fara med Teikna-Þijdingar, so ad þier saurgist ecki af þm; Pvi eg er Drottiñ ydar Gud. Ezech. 14,10.

† Parf Madur ecki ad hrædast Galldra Meñ?

Nei, þvi þeir gieta þeim trwudu allsecket gioert, an Guds Tillaatsemi.

Hvernig vanbrwkast Guds Nafn til ad liwga, pretta, edur svijkia?

1.) Med falskri Kieñingu; Þaa Madur brwkar Guds Ord til ad fegra nockurn Villu Lærdoom.

2.Tim.3,13. Peir vondu Meñ og Svikarar framleidast

til hins verra, þvi heir VIlla, og verda viltir. 2. Pet. 3, 16

2.) Med Hræsni; Þa Madur midt i sinni Vondsku vill synast gudhræddur, vegna þess hañ ydkar Lestra og Saungva, eda talar um Guds Ord.

Psal. 50. 16. 17. Til hins Ogudhrædda seigir Gud; Hvar fyrir Kunngiorir þu minar Rettlætingar, og tekur miñ Sattmaala þier i Muñ, þar ed þu hatar Typtunina, og fleigir minum Ordum a Bak þier aftur.

Hvers hefur sa ad vænta, sem med nockurt soddan slag leggur Guds Nafn vid Hiegooma?

Stoors Straffs, bædi tímanlega og eylíflega; med því Drottiñ vill eige halda þañ saklausañ, edur ohegndan vera laata, sem leggur hañs Nafn vid Hiegooma.

Hvad er þad gooda, oss verdur skipad i Ødru Bodordinu?

Ad vier i ollum vorum Naudsynium og Mootgaangi, aakollum Guds heilaga Nafn, þad tilbidium, losum; og því Packir giorum.

Hvad er þad: Ad Tilbidia og Akalla?

Bæniñ er Christins Mañs ydugleg Osk til Guds 1. Thess 5, 17. Bidied oaflaatanlega.

Eñ Akallan, er ein alvarlegri Bæn, sem pressast ut af Hiartanu vegna Neydar og Angistar.

Ps. 50, 15. Akalla mig i Neydiñi, þa mun eg frelsa þig og þu skallt þa heidra mig.

Hvad er þad: Ad losa Gud, og honum Packir ad giora?

Þad fyrra er: Ad kannast vid Guds Fullkomlegleika og Giædsku i siaalfum sier, og vegsama hann i sinu Hiarta. Þad sidara er: Ad kannast vid hañs Giædsku vid oss, og prijsa hañ þar fyrir.

Ps. 103, 1. 2. Losa þu Saala mijn DRottiñ, og allt hvad i mier er hañs heilaga Nafn, Losa þu DRottiñ Saalamijn,

og forgleym eige,þvi gooda, sem hañ hefur giört þier.

Er eñ fleira þad gooda, sem Añad Bodordid skolldar oss til?

Jaa, sem er; Ad hafa Guds Ord um̃ Hond med allri Virdingu, tala giarna um̃ þad, lesa kostgiæfilega þá heilogu Ritning, og ad vidurkeña Guds Ords Sañleika ofkielfdz, jafnvel i stærstu Hæskasemdum.

## Ut af Pridia Bodordinu.

Hvad er oss boded i Pridia Bodordinu?

Ad vier skulum helga Hvijldardageñ.

† Hvar af hefur Hvijldardaguriñ sitt Nafn?

Af Guds eiginn Hvijld, þad er: Ad hann hætti Skepunar-Verkinu a þeim siounda Deige, eftir þad, hann hafde a undanfornum sex Dogum skapad Himin og Jord. 1. Mos. B. 2. 3.

Hvad er þa Hvijldardaguriñ?

Hia Gydingum var þad sa siounde Dagr i Vikuñi, a hverium Gud hvijldist; Eñ hia oss er þad sa fyrsti, a hverium Christr uppreis fraa daudum.

Hvernig eigum vier ad helga Hvijldardagiñ?

So ad vier brwkum allañ þañ Dag, alleina til heilagra Hugsana, Orda og Verka, og til Eflingar vorri eigiñ Helgun.

Hvad eftir þa vora Helgun?

Kostgiæfilega ad heyra Guds Ord, lesa þad, og yfirvega bædi i Kyrkiuñi og vorum eiginn Hwsum. Joh. 17. 11. Heilage Fadir, HEiga þu þA i þijnum Sañleik, þijn ORd eru Sañleikur.

Hvernig eigum vier ad hlijda a Guds Ords Predikun?

Med Hiartannlegri Gudrækni, og sannarligu Aformi, ad laga vort Lyfern þar eftir.

Jac. 1.22 Verid og einig Giørendur Ordsins, eñ eige alleinasta Tilheyrendur, hvar med þier sialfa ydur a Talar dragid.

† Forum vier þa til Kyrkiuñar alleina til ad heyra Prediikunina?

Ney, helldur og so til ad vegsama Gud, og uppervva hvor anañ til elskufullrar Umgengni mz honum.

Coloss. 3. 16. Latid Christi Ord rijkuglega byggia med al ydar i allri Vitsku. Lærid OG Aminnid ydur sialfa med Psalmum og Lofsaungum og Andlegum Kvædum, og syngid Drottni i ydrum Hiørtum mz Þackargiørd.

Er þa allt buid þegar soddañ Predikunargiørd er endud?

Ney, vier eigum sidañ, med Bænum, Yfirvegan og Ransookn, ad iñprickia Sannleikanum enn þa kroftuglegar i vort Hiartu; Og i þessu iñvortis Musterinu, sem er eitt hoogvær Andi, eigum vier ad þiona Gudi, þacka honum, tilbidia hañ, og lata hañs Ord gaanga oss rettilega til Hiarta.

Luc. 11, 28. Sælir eru þeir, sem heyra Guds Ord, og varðveita þad.

Hvad er þad illa, sem i Þridia Bodordinu er bañad?

Ad vier forsmaaum eda vanrækium Guds Ord, eda latum veralldlega Hluti hindra oss i vorum Gudrækñes Efnum.

Hver vanrækir Guds Ord?

Saa sem aan sañra Naudsynia, situr heima og fer eigi til Kyrkiu at tilsettum Timum. Ebr. 10. 25. Latum oss eigi yfirgiefa vorn Søfnud, sem sumra er Sidr.

Hver foragtar Guds Ord?

Saa sem undir þess Heyrn edur Lestri, skrafar, sefur edur fyllir upp sitt Hugskot med annarligum Þaunkum. Pred. 4. 17. (5.1.) Varta þiñ Foot,

naar

nær þu geingur til Guds Hwss, og kom so þu kunir ad heyra. Pad er betra eñ faavisss Maña Offur.

Hvar med vanhelgar Madur Hvijldardageñ?

Med lijkamlegu naudsynialausu Erfidi, somuleidis syndsamlegum Skiemtunum, so sem Dansi, Spilum, Gledileikum, ad gaanga i Dryckiu Hwß, og ödru soddañ, sem alltijd er Synd i sialfu sier, enn a Helgi-Dogum tvöfolld Synd.

Eru þa einain wtvortis Verk leyfileg a Suñudsgum?

Ju, sonn Naudsynia-Verk, sem eigi meiga unddanndragast, og Kiærleiks Verk, sem ætijd a ad giora. Sia Luc. 14. 5. Matth. 12. 7.

Er þad þa ecki nvog til Sabbaths-Dagsins Helgunar, ad Madur gaangi Jdiulaus?

Ney, Madur a i þess stad, þvi framar ad astunda, ad hafa Hiartans Umgeingni med Gudi, so Hvijld Lijkamans adstodi Saalarinnar Erfidi.

† Þurfum vier þa vid þessa Hvijldardags i hverri Viku?

Vor eiginn Saalar Þreinging aviijsar oss þa stodru Naudsyn, sem vier hofum til þeirrar andlegu Hvijldar, og sameig'nnlegrar Uppbyggingar.

## Su Aunur Tablañ.

Hvad er i stuttu Maali Jñhalld Añarar Bodorda Toblunar?

Kiærleikurinn til sialfra vor og vors Naunga. Matth. 22. 39. Elska skalltu Naunga þiñ sem sialfañ þig.

Er þad þa riett ad elska sialfañ sig?

J-a, eñ ecki i ofsickanlegañ og syndsamlegañ maala, þvi þa er sialfs Elskañ Ordsok til alls ills.

J hveriu er iñifalið su syndsamlega og ofsickanliga Sialfs-Elska?

 þegar

Þegar Madur leitar þess sem honum þykir horfa til sijns eigiñ Gagns, siñar Veysemdar edr Skiemtunar, med sooddañ Hætti sem strijdir a mooti Guds Vilia, og hirdir ecki neitt uñ Naungans Kiærleika

Hvar i er iñifaliñ su skickanlega og syndlausa Sialfs-Elska?

J þeirri Eftirlaungun sem af Gudi er iñplontud til ad efla sijna eigiñ Velferd, og hina sonnu Saaluhiaalp.

Hvad er þad þa sem þu att mest ad hirda uñ og hafa Umhyggiu fyrir ad efla og styrkia til Velferdar?

Saaliñ er þad, sem er sa ypparlegri og odaudleigi Partur Mañsins.

Matth. 16. 26. Hvad stodar þad Mañiñ þo hañ viñi allañ Heimiñ, eñ feingi Tioon a siñi Saalu.

† Ma eg þa lijka bera Umhyggiu fyrir Lijkamanum?

Ja, i skickañlegañ Maata, og so sem hañ þarf med naudsynlega. Eph. 5. 29. Alldreigi hefur nockur sitt eigid Holld hatad, helldur nærir hañ þad og fooſtrar.

† A þa Holldid eigi ad kroſsfestaſt?

Ju, þvi añars strijdir þad i mooti Saalunni, med þvi Syndinn bijr lijka i Holldinu og nefniſt Holld.

1. Cor. 9. 27. Eg TEm miñ LJkama OG PJai hañ.

Col. 3. 5. So deidid nu ydar LJmu sem a Jordu eru.

Rom. 13. 14. Hafid ei Umhyggiu fyrir Holldinu, til (ad uppvekia) GIrndirnar

Hvad kieñir mier hin oñur Tablañ uñ þad sem ahrærir miñ Naunga?

Þad, ad eg a ad vera vid hann so siñadur, og haga mier so vid hann, sem mier er fremst mogulegt, eiñs og eg villdi mier af honum kioosa.

Matth. 7. 12. Allt hvad þier vilied Meñirnir giori ydur, þad

þad skulud þier og þeim giøra, þad er Løgmaalid og Spamenirnir.

Hvernig giet eg þa fundid eftir þessari Reglu, hvad Riett er edr Raangt i Umgeingni vid min Naunga?

Nær eg set mig siaalfann i Stad mijns Naunga og yfirvega, hvert eg villdi hann slæi mig, bølvadi mier, so ki mig, stæli fraa mier, edur baktaladi mig, og med þvi mijn Elska, sem eg hefi aa siaalfum mier, vill þetta ecki lijda, þa er hun mier ein Regla um Elskuna til mijns Naunga, og sijnir einig hvad Gott eg aa honum ad giora i Stadinn þess Vonda.

Hver er þa min Naungi?

Aller Men, hvert sem þeir eru meiri Hattar edur mini, christnir edur heidnir, vondir edur goodir, Vinir edur Ovinir, sierdeilis þeir sem vier vitum ad i Naud eru staddir, og kunum ad hiaalpa.

Post. G. B. 17. 26. Allar Manana ÆTTkvijslir bwa a Jørduni af einu Bloodi. Luc. 10. 29.

† Er þa eingin Mismunur, edur hærra edur lægra i Elsku þeirri sem Madur aa ad hafa til Naunga sins?

Ad viisu, þvi þess meir og framar sem min Naungi er mier vandabundinn, anadhvert i lijkamlegan Maata, ad Skylldugleika, Mægdum, Vinattu, Naagreni og Velgiordum; Edur uppaa andlega Vijsu, vegna sameiginlegra Trwarbragda, Vonar, Kiærleika og Alvorugiefnis, i þvi, ad leita Guds Rijkis, þess nackvæmlegar er eg skylldugur ad audsyna þvilijkum Kiærleika framar en ødrum. Gal. 6. 10. Fyrst vier hefum en Tijdina, þa giørum Gott hverium Mani, eirna MEst þEim Sem ERu TRwariñar HEimkynis.

Er eg þa skylldugur ad elska lijka Ovin min̄ sem sialfan̄ mig?

Jaa. Matth. 5. 44. Elskid þier OVini JDar, blessid þa er ydur bølva, giørid þeim gott er ydur HAta, og bidied fyrir þeim er ydur Skada OG OFsokn veita, so ad þier sieud Born Fødr ydar, þess a Himnum er.

† Maa eg þa ecki hata han̄ Ogudlega?

Ney, eg a ad laata mier um̄hugad vera um̄ hans Gagn, lijka sem nockurs an̄ars. En̄ giæta þo ad sialfum mier, ad eg eigi samhylli Synd hans, og elska mest hanns Saalu, og ala Onn fyrir henni.

† Er þad nog, ad vier med Ordum og Atvikum audsijnum oss vinagiarnlega vid vorn Naunga?

Ney, þad a visssulega einig ad vera i Verki og Sannleika. 1. Joh. 3. 18. Elskum eigi med Ordi og Tungu alleina, helldur med VErki og San̄leika.

† Hvers vegna eigum vier ad elska vorn Naunga?

Guds vegna; þvi þad kiennir hann oss med sinu Ordi og Eptirdæmi. 1. Joh. 4. 11. Þier astsamlegir: Fyrst þad GUd hefur OSs SO Elskad, þa skulum VJer einig Elska OSs JNNbyrdis.

Hvar verdur mier framvegis utmaaladur Kiærleikurin̄ til Naungans?

J þeim Sis seinni Bodordunum sem hlijda til Annari Toblunni.

Hvert er þad Fursta Bodord a An̄ari Toblun̄i?

Þad Fioorda Bodordid.

## Ut af Fioorda Bodordinu.

Hvad er oss skipad i Fioorda Bodordinu?

Ad hafa vora Forelldra i Heidri, þiona þeim, hlijda þeim, og virda þaa.

Hvad er ban̄ad i Fioorda Bodordinu?

Ad fyrirlijta, og til Reidi ad reita vora Forelldra.

Hverier skilliast undir Nafni Fødur og Mødur?

Fyrst vorir nattuolegir Forelldrar, þar nærst þeir sem i nockurn Máta eru yfir oss bodnir edur stioornandi, so sem: Yfirvallds-Persoonur, Fiarhalldz-Menn, Hwss-Bændur, Prestar, Skoolameistarar, og þeßhattar, sem aller eru Forelldrar, hver efter sijnu Standi.

† Hvad margar eru Høfudstiettirnar?

Þriár fierdeilis, sem er:

1.) Ver allds leg Vallds Stiett. J hverri Kongar, Furstar og adrar Yfirvallds-Persoonur eru Forelldrar, enn þeirra Børn Undirsaatarnir.

2.) Kennidooms-Stiettinn. J hverri Prestar og Skoolameistarar eru Forelldrar, enn þeirra Tilheyrendur og Lærisveinar, Børn.

3.) Hwssfticornar-Stiettinn. J hverri Fadir og Moodir, Hwssbændur og Hwssmædur, Fiarhall smenn, Velgiordamenn og froomt gamallt Foolk, eiga ad virdast sem Forelldrar af Børnum, Barna Børnum, Stiup-Børnum, Þioonustu-Foolki, Umbods-Børnum, og ødrum Ynglingum.

Hvers vegna er eitt Barn, eirn Pienari, edur Lærisveinn, ad heidra þessa Forelldra?

Vegna þess, þad er Guds Skipan, og þienar til þeirra Velferdar.

Hver hefur tilsett Yfirvalldid yfir oss?

Sialfur Gud. Rom. 13. 1. Par er eigi nockur Valldstioorn utan af Gudi.

Erum vier þa Guds vegna skylldugir ad hlijda, lijka ei-

nu Ogudlegu Yfirvalldi?

Jaa, þad var heidid Yfirvalld, sem St. Petur villdi, ad þeir, sem lifdu i þeirri fyrstu Christni, skylldu hlijdnir vera, þa hann sagdi:

Verid undirgiefnir allri maññlegri Skickan, fyrir Herrans Sakir. 1. Pet. 2. 13.

Hvernig eiga Undirsaatarnir ad hegda sier vid sijn Yfirvølld?

1.) Eiga þeir viliuglega ad hlijda þeim.

Rom. 13. 5. Verid nu af Naudsyn UNdirgiefnir, eigi alleinasta Hirtingariñar vegna, helldur og lijka eiñiñ fyrir Samvitskuñar Sakir.

2.) Heidra þau.

Rom. 13. 3. Giefid þeim HEidur sem Heidur heyrir.

3.) Bidia fyrir þeim.

1. Tim. 2. 1. So amiñi eg nu, ad Meñ umfram alla Hluti, giøri Boonir, BÆnir, FYrirbeidslur og Þackargiørdir fyrir øllum Møñum, fyrir Koñgum og øllu Yfirvalldi; uppaa þad vier mættum hafa spakt og roolaatlegt Lijferni i allri Gudrækni og Sidsemi.

4.) Skulu þeir greiduglega giallda þeim Skatt, Tolla og Tijundir.

Matth. 22. 21. GJefid þa KEisaranum hvad Keisarans er, og þad Gudi hvad Guds er.

† Eru Toll-Svik og þesshaattar Afdraatt stoor Svik?

Jaa, vijst. Rom. 13. 6. 7. Þar fyrir skulud þier og Skatt giallda, þviad þeir eru Guds Þienarar, sem slijkar Verndanir skulu styrkia, þvi giefid þad hverium sem þier skylldugir erud, þeim Skatt sem SKattur heyrir, þeim TOll er TOllur heyrir, þeim OTta er OTti heyrir, þeim Heidur sem Heidur heyrir.

† Maa Madur alldreigi vera Yfirvalldinu Ohlijdiñ, edur forsooma þess Skipan?

Allb

Alldreigi, nema befalad sie þad sem er opinnber Synd a mooti Guds Bodordum. Þvi þa hæfir ad Madr framar hlijdi Gudi eñ Mońum. Post. G. B. 3. 19.

Hvad er Yfirvalldsins Skylda vid Undirsaatana?

Ad elska þa, leita þeirra tijmannlegrar og eilijfrar Velferdar, hallda vid Fridi og goodu Skicki, med þvi ad straffa þad Vonda enn launa bad Gooda. Rom. 13. 4. Valldstioorniñ er Guds Pienari hier til GOda, eñ ef þu giørir þad vondt er, þa mattu ottast, þviad hun ber eigi SVerdid FOrgiefins.

Af hverium eru Lærifedur og Predikarar tilsettir?

Af Gudi. 2. Cor. 5. 20. So erum vier nu Sendibodar i Christi Stad, þvi Gud aminnir fyrir oss.

Eiga Tilheyrendurnir ad hlijda Aminningum þeirra Saalusorgara?

Jaa vissulega. Ebr. 13. 17 Hlijdid ydrum Kieñifedrum og filgid þeim, þviad þeir vaka yfir ydrum Saalum, lijka sem þeir ed Reikningskap þar fyrir giøra skulu, so ad þeir giøri þad med Gledi, eñ ecki med Andvarpan, þviad þad er ydur ecki gott.

† Eiga Meñ og ad hlijda einum Ogudlegum Kieñifødur og breita eftir hønum?

Ecki maa breita eftir hañs Verkum, helldur hañs Kienningu hlijda, so framt sem hañn vijkur eigi fraa Ritningariñar Sannleika, og maa ransaka þad, eins og þeir i Berrohen giordu. (Post. G. 17. 11.) Og þar a heima þad Christr segir: Matth. 23. 2. 3. A Moisis Stooli sitia Skriftlærdir og Phariseer. Allt hvad þeir segia ydur ad hallda, þad HAlld:d og GJø id, eñ eftir þeirra Verkum skulud þier ei giøra, þviad þeir segia þad og giøra eigi.

Um hvad eru Tilheyrendurnir þeirra Kieñifedrum skylldugir?

Aumlka þær, hlijda, endurgiallda og bidia þeim Goods, og virda þær. Gal. 6. 6. Sa frædour verdur med Ordinu, hañ bijti hønum ALLshaattudum Giædum, sem hañ uppfrædir.

Hvad er eins Kieñifødrs Skyllda vid siina Tilheyrendur?

At kienna þeim, aminna og straffa þa af einu goodfwsu, hoogværu og umhyggiufullu Hiarta; Somuleidis ufelldt ad bidia fyrir þeim, hugga þa og ganga undann þeim med goodum Eftirdæmum.

2. Tim. 4. 2. PRedika þu ORdid: hallt vid, hvert þad skedur i hagleguñ Tijma, eda ohagleguñ, sañfær, straffa, aamiñ, med allri Polinmædi og Kieñingu. 1. Pet. 5. 2. 3. 1. Cor. 4. 16. 1. Cor. 11. 1.

Er eirn Prestur ecki settur til ad hugga alla Meñ?

Nei, ecki utann þa sañ-ydrandi: Þeim sem lifa i Andvaraleysi er Huggunin Saalariñar Olifian.

Ezech. 3. 9. Nær eg segi til hiñs Ogudlega: Þu skallt Dauda deya, og þu VArar HAñ EIgi VId, þa mun hiñ Ogudlegi deya fyrir siña Synda Sakir, eñ hañs Bloods mun eg krefia af þiñi Hendi.

† Hverier eru þeir folsku Spaameñ aa medal Kieñifedrañа, sem Meñ eiga ad vakta sig fyrir?

Næst morgum odrum er ei verda taldir, eru sierdeilis, eftir Frelsarans Ordum, þeir sem giora breidann þann Veg, sem leidir til Himins, og draga so Saalirnar aa Tælar med Von Saaluhiaalpariñar, þar til þær vakna i Helviiti.

Matth. 7. 14. 15. Þad Port er þrannt, og sa Vegur er mioor, sem til Lijfsins leidir, og þeir eru faair, er hañ rata. Vaktid ydur fyrir Fals-Spaamøñum, sem til ydar koma i Klædum Saudaña, eñ iñañ til eru þeir gleysandi Ulfar, Af Avortum þeirra meigid þier þa þeckia.

Es. 3. 12. Foolk mitt, þijnir HuggunarmeñVIlla þig.

Hvad

Hvad er þeirra náttúrlegu Forelldra og Fiárhalldsmaña Skyllda vid þa Ungu?

Ad bidia fyrir þeim, og bera Umsorgun fyrir þeirra tijmannlegri, andlegri og eilífri Velferd.

Eph. 6. 4. Pier Fedr skulud ei egna ydar Børn til Reidi, helldur alid þau upp i Aga og Umvøndun til Drottins.

Hvad eiga Forelldrarnir ad giøra vid Ohlýdiñ Børn?

Þeir skulu straffa þau skinsamlega og goodsøslega, ecki til Uppertingar, helldur til Betrunar.

Ordsk. B. 13. 24. Hver hañ sparar siñ Vønd, hañ hatar siñ Son, eñ hver ad hønum hefur Ást, agar hañ fliott.

† Straffar þa Gud Forelldrana sem láta Borniñ vera sialfráad?

Ja, þad siáum vier af Eptirdæmi Eli. 1. Sam. 2.

† Kañ Madur og so ad straffa Borniñ um of?

Ja. Eph. 6. 5. Pier Fedur, skulud ei egna ydar Børn til Reidi.

Hvad er Barnaña Skyllda vid Forelldrana?

Ad heidra þa og elska, þioona þeim og hlýda med Hiarta, Ordum, Vidmooti og Verkum, líka þegar Borniñ eru ordinn mindug, skinsom, rijk og ágiætleg; Einnig ad bidia fyrir þeim.

Sir. 3. 10. HEidra FOdur og MOodur, med Giørdum, Ordum og Poliñmædi, so ad þeirra Blessan yfir þig komi. V. 14. Kiæra Barn, ANNast þu þiñ FOdur, i siñi Elli, og stiga hañ eigi so leingi hañ lifir. V. 18. Hver siñ FOdur FYrirlætur, sa verdur smádur (er sem eiñ Gudlastari) og hver hañ sijna MOOdur styggir, sa er BOlvadur af Drottni.

† Ma eitt Barn gifta sig utañ Vilia og Samþycki siña Forelldra?

Nei, þad er ad giøra þeim stoort Angur.

† Eiga Men ad hlijdnast Forelldrunum i Illu og Syndsamlegu?

Nei. Matth. 10. 37. Hver hañ elskar Fødur og Moodur meir eñ mig, sa er mijn eigi verdugur.

Hvad er Hwsshoondans og Matmoodurinar Skyllda vid þeirra Pioonustufolk?

1.) Ad giefa þvi tilheyrilega Fædu og Laun i riettann Tijma. 3. B. Mos. 19. 13. Lættu ecki Daglauna Mañsins Verk-Kaup vera hiaa þier allt til Morguns.

2.) Stijra þvi og stioorna med goodfwslegri Þolinmædi. Eph. 6. 9. Og þier Drottnar, giorid eiñig þetta hid sama vid þa, og lætid af Ognunum, og vitid eiñig, þad ydar Drottiñ er aa Himnum, og þad hiaa hønum er eckert Mañgreinar Alit.

3.) Ad laata sier vera umhugad um þess lijkamlega Naudsyn, sierdeilis þa þad er veikt, sem og eins lijka um þad þvi er andlega naudsynlegt, ad þeir uppfrædi, aamiñi, og bidie fyrir þvi, so sem giordi Hofudsmadurinn i Capernaum. Matth. 8. 6. Gen. 18. 19.

Hvad er Pioonustufoolks Skyllda vid þess Hwssbændur og Matmædur?

Þad aa ad elska þau, heidra og hlijda þeim, og le'ta þeirra Gagnsmuna i øllum Hlutum, vera ydid og trwtt, hvert sem þeir eru nær edur fiær, og bidia lijka kostgiæfilega fyrir þeim. Eph. 6. 5. 8. Þier Pioonustumeñ, verid hlijdugir ydrum lijkamlegum Drottnum med Otta og Skielfingu, i Einfalldleik ydvars Hiarta, so sem Christo, eigi alleinasta med Pioonustu fyrir Augunum, Møñunum til Þocknunar, helldur so sem Pioonar Christi, þad þier giorid þeña Guds Vilia af Hiarta med goodum Vilia: Lætid ydur þykia, so sem þier þioonid Drottni, og eigi Møñunum, og vitid, ad hvad sem hvør

eiñ

eiñ giørir gott, þad mun hañ af Drottni medtaka, hvert hañ er Præll eda Frelsingi.

† Eñ ef Hwsbondiñ er undarlega lyndur og bægt er ad sorlijkasi vid hañ?

Þa a Christiñ Pienari ad ydka Þolinnmædina 1. Pet. 2. 18. 19. Pier Pioonustumeñ, verid Herrunum undirgiefnir med allri Ottasemi, eigi alleinasta goodum og spakferdugum, helldur einig þeim sierlundudu, þvi þad er Naad ef nöckur fyrir Samvitskuñar Sakir til Guds þolir hid Jlla og lijdur hid Orietta.

Maa Pioonustufoolk vera so hlijdid, ad þad lati biwka sig til syndsamlegra Verka?

Nei, eingvañveiginn; Þvi hætt er Herrabod, eñ hærra er Guds Bod. Post. G. B. 5. 29. Framar ber ad hlijda Gudi eñ Mönum.

Hveriu lofar Gud þeim Børnum og Pienurum, sem eru hlijdiñ, og hallda Fioorda Bodordid?

Ad þeim vegni vel, og þau lifi leingi a Jørduñi.

† Giefur þa Gud øllum froomum Mönum længt Lijf og farsælt?

Jaa, sie ai hann þad þiena til þeirra Saaluhialpar, añars ecki.

† Pvi lætur hañ Ogudlega þa oft verda Gamla?

Af þvi hann vill unna þeim þess leingri Tima og Tækifæris til Umvendunar.

† Straffar Gud þa Barnaña Ohlijdne eius og hann launar þeirra Hlijdni vid Forelldrana?

Jaa, þar uppa hofum vier merkilegt Dæmi a Absalon, Davids forverbrotnum Syni, sem hieck a Hærinu i Eikinni, giegnumstunginn med þremur Spiootum, 2. Sam. 18. 9. 15.

## Ut af Fimta Bodordinu.

Hvad

Hvad Illt er bañad i þessu Bodordi?
Allskins Mord og Mañdrap, sem eigi skiedr eftir Yfirvalldsins Doomi og Skipan, helldur af eiginn Hefndargyrni.

Hvad margslags er Mordid edur Mañdrapid?
Tveñslags, sem er fyrst, þad stoorkostlega (sem mik id ber aa) sem skiedur med gioranlegum Verknadi; Og þad añad, sem miña ber aa, edur þad kiænlegra, sem skiedr mz Hatri Hiartans, Ordum Munnsins, og Andlitsins Utliti.

Hvernig deydir Madur siñ Naunga med Verkinu?
1.) Annad hvert i einu, med Höggi, Stijug, Skoti, Eitri, og þvilijku. 1. B. Mos. 9. 6. Hver sem uThellir Mañsins Bloodi, hañs Blood skal og so uthellast fyrir Mañiñ.

Eliegar þad gietur og sked,
2.) Med laungum Tildrætti, og leinilega, med þvi ad koma Naunganum i stoort Hiartans Angur, edur fyrra hann sinni Næring.

Sir 35. 26. 27. Hver hañ tekur frаa ødrum hañs Næring, hañ DRepur siñ Naunga; Hver hañ giefur Eigi Erfidis Mañinum sin Laun, sa er BLood-Hundur.

Nu ef Madur sviptir eigi Naungañ Lijfenu, gietur hañ þa deydt hañ med hatursfullu Hiarta og Jllyrdum?

Jaa, þad kieñir Jesus i Matth. 5. 21. 22. Þar hann utleggur, hvernig þetta Bodord aa andlega ad skiliast (seigiandi.) Þier hafid heyrt ad sagt er til hiña Gamlu: Þu skallt ecki Mañ vega, eñ hver ed Mañ vegur, hañ verdur Dooms sekur; En eg seigi ydur; hver hañ er REidi BRoodur siinum (aañ Orsaka). hañ verdr DOms SEkur, eñ hver sem til Brodur siins seigier: RAcha, hañ verdur RAds setur, eñ hver ed seigier: Þu Afglapi,

hañ

hañ verdur sekur HErvijtis Eyds.

Er þa ein Hatursfull og Hefndargiorn Mañeskia eiñ Mordingi?

Jaa vissulega, þvi G.d a.lt tur Hiartad framar enn Hondina. 1. Joh. 3. 15. Hver siñ Brodur hatar, sa er Mañdrapari, og þer vitid ad Mañdrapariñ hefur eigi Eylijft Lijf hia sier b. ijfanda.

Er eiñ Ordhardur, sem mæts grimmum og hardugleguw Saar-Ordum, og so e.ñ Mordinge?

Jaa, Jesus kallar þad Synd, sem forþienar H l viltis Elld, og David seigir: Psal. 64. 4. Þeir hvetia sijna Tungu sem Sverd, þeir ed med sijnum eitrudum Ordum so skiota til Hræfis seip med Pij.um.

Er þa Grimd, Heiptrækni, og Uifwd, so hættuleg Synd?

O jaa; Hvar sem hun hefur Yfirhend, þar er eigi Nadariñar Andi nie Blijdlyndi Jesu.

Eph. 4. 31. 32. Allur Beiskleiki og Grimd, Reidi, Hroopan og Lastan, sie laangt fraa ydur, samt allri Illsku; Eñ verid iñbyrdis hver vid añañ vingiarnlegir og miskunsamlegir, og fyrirgiefid hver ödrum, lijka so sem ad Gud hefur fyrirgiefid ydur i Christo.

Hvad skal þa eiñ Reidigiarn taka til Rada, til ad hafa i Taumi og dempa med sitt Heiptar-Gied?

Hann skal ætbrynia sig med Blijdlyndi Jesu, taka Vara a hverri sinni Hugsan, bidia ad hann falli ecki i Freistni, og siælfur taka sier Vara fyrir Tilefni til Freistingarinnar.

† Er þa alls eingiñ Reidi leyfileg?

Eingiñ Reidi vid Persoonurnar, eñ reidast mæ vid Synd og Vondsku, hvor riettferdug Reidi kallast Vandlæting, og kiemur af Elsku til Guds og Naungans. Jac. 1. 19. 20. Ps. 119. 139 Eph. 4. 26.

† Kall

† Kañ Madr og ad deyda siñ Naunga ad Saaluñi til?
Jaa, med þvi ad leida hann i Villu, og med þv ad hneixla hann. Matth. 18. 6. Hver hañ hneixl- ar eiñ af þessum Smaau, sem aa mig trwa, þarfara være hønum ad Milnusteiñ heingdist uñi Haals hønum og være i Siaafar-Diwp sœcktur.

Maa Madur taka Lijfid af sialfum sier?
Nei, þad er ad drepa Lijkama og Saal i einu lagi; og aftur læsa Dyrum Naadarinnar, so sem Judas, saa Fordiorfunar Sonur giordi,

Hvad er þad Gooda sem vis verdur bodid i Fimta Bodordinu?
1.) Ad biarga og hialpa vid vorum Naunga i øllum hanns Lijfs Haaskasemdum.
1. Joh. 3. 17. Nær nockr hefur þessarar Veralldar Audæfi, og sier siñ Broodur Naud lijda, og lykur sitt Hiarta til fyrir hønum, hvernig bliifr Guds Kiærleiki hiaa hønum.
2.) Ad umgaangast vinsamlega og med Hoogværd vid vorn Naunga. Matth. 5. 5. Sælir eru Hoogværir, þvi þeir munu Jardrijkid erfa.
3.) Ad bera Umhyggiu fyrir Saal vors Naunga þa vier siaaum henni hætt vid eyliifum Dauda, ad so miklu leiti, sem vier, so sem andligir Kieñimenn, kunnum ad styrkia hana til Saaluhialpar, med goodfwsum Vidvorunum og Aminningum.
Jac. 5. 19. 20. Kiærir Brædur! Ef ad nockur aa medal ydar villist fraa Sañleikanum, og nøñsnijr hønum einhver, saa skal vita þad, ad hver ed Syndaranum umsnijr i fraa Villu hañs Vegar, hefur frelsad eina Ønd fraa Dauda, og mun nidri byrgia Fiølda Syndaña.

† Hver var saa Fyrsti Mordingi?
Cain, er sloo sinn Broodur Abel i Hel af Øfund.

† Er og Synd ad vera myskunarlaus vid mœllausar Skepnu.

Ja. Ordsk. B. 12. 10. Hiñ Riettlœti aumkar sig yfir siinum Fienadi, eñ Hiarta Oguðtœkins Mañs er omyskunsamt.

## Ut af Siettu Bodordinu.

Hvad er Hiuskapur?

Swellsta Stiett og Stand, af sialfum Gude iñsett i Paradijs, sem villdi ad Madur og Kvina skylldu eitt Holld vera.

Er þessi Stiett þa ecki syndsamleg og saurug?

Pad er hun ecki, þegar i henni er lifad eftir Guds Ordi og Vilia.

Ebr. 13. 4. Hiwskapuriñ skal heidarlegur halldiñ vera hia ollum og Hioonabands Sængiñ oflectud.

Til hvers hefur Gud iñsett Hioonabandid?

1.) Til Mañkynsins Frioofgunar. 1. B. Mos. 1. 28. Aukist þid og margfalldist og uppfyllid Jørdina.

2.) Til ad aftra illum Girndum.

1. Cor. 7. 2. Fyrir Frillulifnadar Sakir, þa hafi hver eiñ sima eigiñ Konu, og hver ein hafi siñ eigiñ Mañ.

3.) Til iñbyrdis Adstodar, Huggunar og Radaneytis. 1. B. Mos. 2. 18. Og Drottiñ Gud sagde: Pad er eigi gott, ad Maduriñ sie einsamañ, eg vil giora hønum eina Medhialp, þa sem vera mœ hia hønum.

Hvernig œ eiñ Egta-Madur ad hegda sier vid sima Egta-Kviñu?

Hañ œ trwlega ad elska hana, virda, stijra, stioorna, og ala Oñ fyrir henni, so og, ad umbera henna Breisíleika med Poliñmœdi, bidia fyrir heñi, og leita heñar Sœlar Velferdar. Col. 3 19 Pier Meñ elskid ydar eigiñ Konur, og verid ei beisklundadir vid þær

1. Cor. 7, 16.

Hvernig er ein Egta-Kvinna ad hegda sier vid sinn eiginn Mann?

Hun er ad vera honum undirgefinn i Kiærleika, Trwskap og Umhyggiu fyrir Hwsshondlanni, bidia fyrir honum, og leita hans Saalar Velferdar.

1. Mos. 3. 16. Pinn Vilie skal vera pijnum Manni undirgiefinn, og hann skal vera pinn Herra.

1 Cor. 7, 34. Su sem gift er, su ber Ahyggiu um pad, hvad Heimsins er, og hvernig hun meigi Manninum pocknast. 1 Cor. 7, 16. 1. Pet 3. 1.

Hvad er froomra Eckna og Fodurlausra Huggun?

Ad sa Himneski Fadirinn hefur sierdeilis Naadarrijka Umhyggiu fyrir þeim og forsvarar þær.

Ps. 68. 6. Drottinn er Fader Fodurlausra, og Doomari Ecknanna. Sioa framar. 2. Mos. 22. 22. 24. 5. Mos. 27. 19. Syr. 35. 14. 15.

Hvad er froomra Eckna Skyllda?

Þær eiga ad lifa i Sidsemd og Gudrækni.

1. Tim. 5. 5. 6. Pad er sannarleg Eckia, sem einsomul er, og sijna VON SEtur UPPa GUD, og stadnæmist i Bænum og Akalli Dag og Noott, enn hun sem i Bijlijfi lifir, er lifandi daud.

Hvad er pad vonda, sem oss er bannad i Siotta Bodordinu?

Hoordoomur, Saurlifnadur, Blood-Skomm, bestiulegur Losti, Lijkamans Saurgun, Egtaskapar-ins Foragt, Gyrnd til annarlegs Frijdle ka, og allra handa Saurugleiki i Hugsunum, Ordum, Vidmooti og Verkum, bædi i Egtaskapnum og fyrir utann hann.

Hvad er Hugsmanna Hoordoomur?

Saurugar og lauslætar Gyrndir, hveriar ei ærlt

 hulldar

hulldar fyrir Gudi, þvi hann þeckir Hiartad.

Matth. 5. 18. Eg segi ydur, ad hver hañ Ytur KOnu til ad GYrnast heñar, sa hefur þegar driigt Hoor med heñi i sijnu Hiarta.

Hvad er Hoordoomur i Ordunum?

Allt svijvirdilegt og bligdunarlaust Klæm-Tal, Lauslætis-Skrif, Visur og Kvedlingar, Gicks-hættur og Narrari, sem horfir til Lauslætis, edur strijdir, hid minsta, a mooti riettchristinni Alvoru-giefni, og roggsamlegu Skicki.

Eph. 4. 29. Lætid einga vonda Rædu frañifara af ydrum Muñi.

Eph. 5. 3. 4. 5. Fridluliisi og allañ Obreinleik edur Agyrni, lætid eigi uñ ydur seigiast, so sem Heilogum hæfir, nie SMænarleg ORd og fijflslegt Hial, eda KIeskni, hvad ydur heyrir ecki, helldur miklu framar Packargiörd: Pvi þad skulud þier vita, þad eingiñ Fridlulifs-Madur, edur ohreiñ, eda ægiarn, hver ad er Skurgoda Dyrdlari, hefur Arsteku i Rijki Christi og Guds.

Hvad er Hoordoomsligt Vidmoot?

Allrahanda utvortis Merki, sem auglijsa þad Oskañseilna Hiarta, hvert sem helldur er Augna edr Andlits Bragd, Likamans osæmilig Opiñberan, Klædadragt osæmilig, Lauslætis Kossar, Dansar, Vijkivakar, og þessshættar.

Syr. 26. 13. 14. Sie þijn Dootter ecki bliwg, so hall(u) hana hardt, so hun fremie ecki sik mootbrooudañ Vilia, æ medañ hun er fri. Pegar þu merkir þad hun Ytast ORiskuglega i KRijngum SIg, so tak þad vel til Vara, eñ ef þu giörir þad eigi, og hun brijtur þar fyrir æ mooti þier, so lat þu þig þad ecki undra.

† Eru þa Lauslætis Ord og Vidmoot so stoor Synd?

Ja, eigi alleinasta eru þau i sialfu sier mikid

 osæmi-

ofæmileg christnum Mönum,helldur hafa þau og so mikid hauskasamlegar Verkanir, og þiena til en þa framar ad uppvekia þa vondu Gyrnd, þar til su sama utbrutst i Verkinu.

Jac.1.14.15. Eiertver freistast, nær hañ Illeigist af siñi Eigiñ Gyrnd, og lockadur verdur. Og sijdan þad Gyrndiñ hefur getid, fædir hun Syndina, en nær Syndiñ er fullkoumud, fædir hun Daudañ.

† Hvad giörir þessa Synd vidbiodslega og Straffsverda framar en adrar Syndir?

Ad hun saurgar og fordiarfar æsamt bædi Sal og Lijkama, sem skyllðu vera Guds Musteri, enn verda ad Hybijlum hins ohreina Anda.

1.Cor.6.15. 18. Vitid þier ecki, þad ydrir Lijkamir eru Christs Limir? Skylldi eg nu taka Christs Limi, og giöra þar af Skiækiuñar Limi? Pad sie fiærri. Eda vitid þier ecki ad hver hañ samlagar sig Skiækiuñi, ad sa er eiñ Lijkami med heñi? Þvi þau munu (seigir hañ) Tvö i einu Holdi vera; En hver hañ samteingir sig Drottni, sa er eiñ Andi med honum. Flyid FRidlulifnadiñ; Þvi ad allar Syndir, hver er Madriñ drijgir, eru utañ hañs Lijkama, en hver ed Fridlulifnadiñ drijgir, sa syndgar vid siñ Eigiñ Lijkama.

Hvad er skipad i Siötta Bodordinu?

Ad geyma bædi Lijkama og Sal i soñu Hreinlijfi hvert Madur er giftur edur ogiftur; So Madur sie alltijd hæfur ad umgangast med sijnum Gudi.

Matth.5.8. Sælir eru Hreinhiartadir, þvi þeir munu Gud sia.

Hvada Medöl kañ Madur ad brwka til ad geyma sig fyrir Saurlifnadi?

Þa Andiñ er reidubwiñ,enn Holldid þo veikt, a Madur ad vaka og bidia,og þar næst vakta sig fyr-

ir öllu þvi sem upptendrar þær vondu Gyrndir.

Hvad upptendrar þær vondu Holldsins Gyrndir?

Þad er sierdeilis Ohoof og Dryckiuskapur.

Er þa Ohoof og Drickiuskapur so hæskalega stoor Synd?

Ja, þvi þær utiloka oss fra Guds Rijki, eins og Hoordoomur, Mord, edur Þioofnadur.

Gal. 5. 19. 21. Holldsins Verk eru opinber, so sem ad eru Hoordoomur, Frillulifnadur, Saurlyfi, Lausung, Skurgodadijrdkun, Fiolkyngi, Fiandskapur, Þrættan, Kijf, Reidi, Agreiningur, Tvijdrægni, F[illegible]vttur, Hatur, Mord, Ofdrickia, Ofaat, og þessu likt: Um hvoriu eg hefi adur sagt, og segi enn nu fyrir, ad þeir sem slijkt giora, erfa eigi Guds Rijki.

Luc. 21. 34. Varid ydur, ad ydar Hiørtu þijngist ecki af Ofaati og Ofdrickiu, og med Sorgum þessarar Næringar.

Enn mun so hæskasamlegt ad drecka sig endur og stundum drucken, þa Madur leggst eigi daglega i þad?

Ja, þegar þad skiedur af Asetningi, þa er þad allstijd fordæmanleg Synd, sem alldrei maa eiga heima hia þeim sem stunda eftir Guds Naad og Saaluhialpinni.

Enn ef Madur er so Hofudsterkur ad hann þolir mikid, maa hann þa ecki drecka mikid?

Hverki maa Madur eta nie drecka fram yfir þad sem hann þarf naudsynlega med. Sia 1. Pet. 4. 3. Hvar ad giorist Mismunur aa Ofdryckiu og Dryckiuskap, og þo virdist þad firra eins og þad sijdara fyrir eina Heidinglega Synd.

Hvad er þad fleira sem kann ad freistia til Lauslætis?

Idiuleysi, vondur Selskapur, Æfintijri, Amorsvijsur, Bækur og Bijlæti, Lauslætis-Leikir, Dansar, og Vikivakar, og þad allt, af hveriu kvikna

Fiısn Holldsins, Fiısn Augnanna og drambsamt Lijferni.

Hverier goodir Pænkar kuña ad vera hentugaster til ad kiefia slijkar Holldsins Freistingar?

Ad Madur læti sier koma i Hug (1.) ad sa Allra heilagasti Gud er nalægur honum, og sier til hañs. (2.) Hvad stoor verid hafi Kvol JEsu hins krossfesta, sem hañ leid a ollum siinum Lijkama. (3.) Hversu ognarlegar munu verda Pijslir þeirra Fordæmdu i Helviiti, og (4.) hversu skamvin ad er su Skiemtan sem Madr hefr af þeirri saurugu Synd.

Alldrei drijg um Æsi Hoor, þad Æru kreinkir Geingi;
Skiemtun Losta i skindi foor, eñ Skom og Kvol fiñst leingi.

† Hver hefr so vardveitt sitt Hreinliifi fyrir allri Astriidu?

Joseph, þa hann sagdi til Potiphars Kvinnu: Hverniq maa eg nu þa giora so mikid Ohæfu-Verk, og syndgast a mooti Gudi? 1. Mos. B. 39. 9.

## Ut af Siounda Bodordinu.

Hvad Illt verdur bañad i Siounda Bodordinu?

Ad Stela, edur fremia Þioofnad.

Hvad er ad Stela?

Þad er ad giora Naungañ, a mooti hañs Vilia, vidskila vid nockud, þo þad sie alldrei so lijtid af hanns Gootzi.

Verdur þad giort med fleiru eñ einu Mooti?

Ja, añadhvert med Ofrijki, edur Vielum.

Hverier stelur med Ofrijki?

Þeir opiñberu stoor Þioofar, sem i eingu Riettinda Yfirskini, an allrar Heimilldar, taka burt annars Gootz, lijka sem þad være þeirra Eign.

Eph. 4. 28. Hver STOLID hefur sa steli nu eigi meir, helldur

helldur erfidi og afli med Hendunum nockud gott.

Hver fielur med Vielum?

Pad giora all r þeir, sem añadhvert taka Naaungans Eign, edur hallda heñi inni med Kiænsku og leynilegum Hætti, sem skie kañ med mørgu mooti; þvi hver einn Þiofur brwkar sijn slottugu Vielabrøgd og Hrecki.

Seig mier nockra af þeim almeñileguſtu Pioofa Hnickium?

Einn heimuglegur Þioofur fyrir Heiminum, þo hann sie opinnber fyrir Guds Augliti, er;

1.) Saa Kaupmadur, sem i Kaupum og Solum giorir Oriett sijnum Naunga, soleidis, ad hañ eigi fær fullt Andvirdi fyrir sitt; annadhvert þad, ad Varaun, Vigtinn, Mælirinn, edur Peningarnir er miña verdt, enn Naungiñn veit af, og þetta er ad elska ei Naungann sem siaalfann sig.

1. Thess. 4. 6. Einginn ASeiliſt edur taki Agooda fraa ſiinum Broodur i Hondlaniñi, þviad Drottiñ er hañ, sem hefnir alls þessa.

3. B. Mos. 19. 35. Pier skulud ecki ojafnadarlega berd ka i Doomunum, med Alin, med Vigt, og med MAElirz RIettar VOgir, riett Pund, og riett MAElikierholld, og riettar Kañur skulu vera hiaa ydur.

2.) Saa Þienari, Handverks-Madur, edr Dagslaunari er Þioofur, sem fyrir fullañ Betaling, giorir eigi Verkinu Fullnuſtu, edur sellir nockud undañ.

2. Tess. 3. 10. Ef nockur vill eigi ERfida, saa skal og ecki helldur eta.

Lijka saa Hwsbondi, sem fyrir holla Þioonuſtu gjefur eigi tilhlijdileg Laun og Fædi.

Will Gud þa læta Meñina tortijnast so eilijflega ?

Ney, hañ hefur af sinni Myskunarriku Elsku ætlaktad ad taka þa aftur til Nædar, og koma þeim ur Syndariñar Standi i Stand Nædarinnar.

Joh. 3. 16. So Elskadi GUd HEimiñ, ad hañ gaf ut siñ eingietiñ Son til þess, ad allir þeir sem a hañ trwa, fyrirfarist eigi, helldur ad þeir hafi Eilijft Lijf.

1. Tim. 2. 4. GUd VIll ad ALLir Meñ verdi SAluhoolpnir, og til Vidurkieñingar Sañleikans komist.

Hvad er Nædariñar Stand?

Ein Sæluhiælpleg Sameining og Forlijkun vid Gud, sem, fyrir Christi Sakir, endurfædir med sijnum Anda þa syndugu Sælu, fyrirgiefur heñi heñar Syndir, iklædir hana Christi Riettlæti; frijar hana fra Syndariñar og Satans Snorum, og daglega endurnijar hana til Lijkingar siñar Myndar aftur. Eph. 2. 4. 6. Gud sa audugur er af Myskun, fyrir sijna miklu Elsku, med hverri hañ elskadi oss, þa vier vorum daudir i Syndunum, hefur hañ GJordt oss lifandi i Christo, (hvigad af Nædiñi erud þier hiælplegir vordnir,) og hefur UPpvakid oss med honum, og SEtt oss med honum i himneskt ATharfi i Christo JEsu.

Hver hefur þa utvegad Mönnunum Guds Nad, so ad þeir mættu aftur fa Uppreisn af Fallinu, og komast aftur i eitt Sæluhiælplegt Stand?

Þad hefur alleina Guds eigiñ Sonur JEsus Christur giort, hver strax eftir Syndafallid var fyrirheitiñ, og i Uppfyllingu Tijmans sendur ollum Heimi til Sæluhiælpar og Uppreisnar af Fallinu.

Rom. 5. 17. Þvi ef Daudiñ rijkti vegna eiñar Syndar fyrir eiñ, miklu meir muñu þeir, sem odlast Nædariñar og Gafuñar ofirfliotañlega Nægd til Riettlætisins, RIkia i Lijf-

Lijfinu fyrir þañ eina Jesum Christum. 1. Mos. 3. 15.

Hvar læri eg þa nakvæmara ad þeckia og elska þeña dijrmæta Endurlausnara Jesum Christum?

J Añari Greininni, sem hondlar um Endurlausnina.

## Ut af Añari Grein Trwarjaatningariñar.

Hvad er Jñihalld Añarar Greinariñar.

Þecking og Lærdoomur um tvær Naatturur þeirrar einu Persoonu Christi, um hanns þrefallda Embætti, tvefallda Stand, og sierdeilis þa dyrmætu Endurlausn vora fyrir hann.

Rijdur mióg mikid aa þvi ad þeckia Christum?

Jaa, Þviad þar er eckert añad Nafn giefid Meñunum i hveriu oss biriar saalu-hoolpnum ad verda. Gb. P. 4. 12. Og þad er EYlijft LJf, ad þeir ÞEcki þig alleina eiñ sañañ Gud, og þañ þu sendir JEsum Christum. Joh. 17, 3. 1. Joh. 5. 11. 12. Gud hefr giefid oss eilijft Lijf, og þetta LYf er i hañs SYni, hver sem Guds Son hefr, saa hefur Lijfid, hver hañ hefr eigi Guds Son, saa hefur eigi Lijfid.

Hver er JEsus Christus?

Guds og Mariu Sonur, sañur Gud og Madur.

Er þa Christur tvær Persoonur?

Ney, 1. Tim. 2. 5. Þar er eiñ Gud, og EJñ MEdalgaangari milli Guds og Maña, sem er sa Madur Christus Jesus. Enn i þeirri einu Guddoomlegu Persoonu Christi eru tvær Naatturur, naakvæmlega sameinadar, sem er su Guddoomlega og Mañdoomlega Naattura.

Hafa þessar tvær Naatturur ætijd verid sameinadar i Christo?

Ney

Ney, þa Guddoomlegu Nattturu hefur hann af Fodurnum fraa Eilijfd. Ps. 2. 7. Þu ert miñ Son, i Daag fæddi eg þig. Enn þa Mañdoomlegu hefur hann uppaa sig tekid af sinni Moodur Maria.

Gal. 4. 4. Þa Uppfylling Tijmans var komiñ utsendi Gud siñ Son Fædðañ af Kviñu, og Lögmaalinu undirorpiñ.

Hvar af bevijsar þu ad Christi sie eiñ sañr verulegr Gud?

Þad bevijsast, af hañs eilijfri, Fæding af Fodurnum, og af hañs Guddoomlegum Eigiñlegleikum og Verkum. Þar ad auk vitnar Ritningiñ um þad med liosum Ordum, sierdeilis:

1. Joh. 5. 20. Vier erum i hinum sañarlega hañs Syni JEsu Christo, þessi er Sañur GUd og eilijft Lijf.

Gietur þu eñ framar bevijsad, ad Christus sie Gud og Madur i eiñi Persoonu?

Jaa. Joh. 1. 14. ORdid vard HOlld og bygdi mz oss. Rom. 9. 5. Hverra Fedur eru og þeir, sem Christur er ut af komiñ eftir HOlldinu, sa sem ad er GUd yfir öllum Hlutum blessadur ad eilijfu.

Hvers vegna vard Guds Sonur ad vera sañur Madur?

So ad hañ kyñi vegna vor Mañanna, ad smacka Daudans Beiskiu, i vorri daudlegri Natturu.

Hvers vegna vard hañ þar med ad vera sañur Gud?

So ad hanns Daudi og Fornfæringar Blood, kynni ad hafa oendanlegañ Kraft til ad fridþægia.

† Er JEsus af Nazareth sa sañi Messias og fyrirheitni Heimsins Endurlausnari?

Jaa, þvi öll þau Kienitekn sem Ritningiñ leidir til um þann sanna Messiam, fiñnast hiaa JEsu af Nazareth. Hañ er fæddur af Juda Ættkvijsl, 1. Mos. 49. 8. 10. og af Davids Ætt, 2. Sam. 7. 12.

J Bethlehem Davids Borg, Mich. 5. 2. Af Meyu, Es. 7. 14. (Sia framar Hagg. 2. 7. 9. Dan. 9. 24) Ja, allt þad aña sem spád er um Nidurlæging og Uppheſd þeſs saña Meſsiæ, hlidir olldungis og allemaſta uppa vorn JEsum af Nazareth. Ps. 22. Es. 53.

Af hverium var JEsus fæddur?

Af Mariu, eini hreinni og heilagri Jungfrw, sem ad sonnu var trwlofud Joseph JEsu Fooſtur-Fodur, enn kiendi þo eingann Mann.

Er hañ þa ei gietiñ og fæddur af syndugu Sædi?

Nei, þvi þo Maria hefdi Uppruna Syndina i siñi Natturu, þa gieck hun þo ecki ad Erfd til Christum, helldur var hun i hanns Gietnadi uthreinsud fyrir heilagann Anda. Luc. 1. 35. HEilagur ANdi mun koma yfir PJg, og Kraftur hins Hæsta mun yfirskyggia þig, af þvi, ad þad hid HElga sem af þier mun fædast skal nefnast SOnur Guds.

† Hvernig kañ Madur ad fæira sier i Nyt Umþeinking Jesu heilogu Mañdooms-Tekningar?

Sa yndislegi Sannleiki fær huggad oss, med Fullvissu um alvarlega Elsku Guds til vor aumra syndugra Manna; um þad, ad vier sieum sañarlega og fullkomlega fridþægdir; og um þañ stoora Gofugleika og ypparlega Vegsemd, sem vor Nattura er upphafiñ til med Samelninguñi vid Gud i Persoonu Christi: So ad vier þeſs vegna eigum þvi helldur ad hreinsa oss af Saurugleik Hollds og Andans.

Hvad þijda þau tvø Nofn þijns Frelsara?

1.) Nafnid JEsus þijdir Frelsara.
Matth. 1. 21. Hun mun Son fæda, og hans Nafn skallu JEsus kalla, hvrad hann muu FRelsa sitt Foolk af þeirra Syndum. 2.) Nafnid Christur er sama sem Messias, og þijdir Smurdur.

† Med hvèriu var Christur smurdur?

Med heilögum Anda og Krafti, Post. G.b. 10. 38. Og þad an Mælingar, Joh. 3. 34. Su Guddoomlega Natturan meddeildi þeirri Manndoomlegu sijna Guddoomlega Eiginlegleika, i þvi Augnabliki, sem su Persoonulega Sameining milli beggia Natturanna skiede.

† Eftir hverri Natturunni var Christur smurdur?

Eftir þeirri Manndoomlegu, þvi su Guddoomlega hafdi alla Hluti fraa Eylijfd.

† Brwkadi Christur alltijd sijna Guddoomlega Eiginlegleika?

J sijnu Nidurlægingar Standi lagdi hann nidur ad brwka þa, ad undanteknu þvi, þa hann med Kraftaverkum villdi sijna, hver hann var.

† Hvers vegna skylldi vor Frelsari vera Drottins Smurdur, og hafa Guddoomlega Eiginlegleika?

Til þess, ad hann kynni ad framkvæma so sitt þrefallda Embætti, nefnilega: Pad Kiennimannlega, Spaamannlega og Konunglega; þvi til soddann Embætta voru Menn innvijgdir med Smurningi i gamla Testamentenu. Þetta hanns þrefallda Embætti nefnist annars hans Medalgaungu Embætti.

J hveriu er innfalid þad yppersta Prests Embætti Christi?

J þvi, ad hann hefur eitt sinn sialfann sig aa

Kroſſinum Gudi offrad fyrir vorar Syndir, og hann bidur enn ꝏn Aflꝏts fyrir oſs, og bleſſar oſs.

Ebr.7. 24.26. Eñ þeſsi, fyrir þvi hañ eilijflega blijfur, þa hefur hañ oforgeingilegañ KJeñimañſkap, þar fyrir kañ hañ og eiñig þa ætijd Sꝏluhoolpna ad giøra, ſem fyrir hañ koma til Guds, og hañ lifir æfiñlega, og BJdur fyrir þeim; þviad ſlijkañ BJſkup ſkylldum vier hafa, ſꝏ ſem væri heilagur, ſaklaus, oſleckadur, ſyndugum frꝏſkiliñ, og hærri eñ ad Himiniñ er.

Hvar i er iñifalid Chriſti Spꝏmañlega Embætti?

J Þvi ad kenna oſs Guds Vilia til vorrar Sꝏlu hiꝏlpar; Þad giørdi hann fordum i eiginn Perſonu ſiꝏlfur, enn nu giørir hann Þad fyrir ſiñ Anda og ſijna Þienara. Joh.6 14. Þeſsi er ſañarlega ſꝏ Spꝏmadur, ſem i Heimiñ ſkal koma.

Hvar i er iñifalid Chriſti Konunglega Embætti?

J Þvi ad ſtioorna, vidhallda, og vernda ſijna trwada fyrir Þeirra Ovinum.

Hefur þa þeſsi Konungur og ſo eitt Kongs-Rijki?

Jꝏ, enn Þad er eitt andlegt Rijki, ſem er hanns Kyrkia edur Nꝏdar Rijki hier ꝏ Jordunni, ur hveriu hañ flytur um ſijdir ſijna Trwada til Dijrdarinnar Rijkis ꝏ Himnum.

Joh.18. 36. Mitt Rijki er eigi af þeſſum Heimi.

Til hvers ꝏ Jſirvegan Chriſti Embættis ad upporfa þig?

Til ad elſka hann, ſem minn ædſta Preſt og Endurlauſnara; ad trwa honum, ſo ſem mijnum Spꝏmanni; ad heidra hann og hlijda honum, ſo ſem mijnum Konungi. Þar med kaun eg og lijka ad hafa ſtærſtu Huggun af hanns Embættum.

Hvernig taka þeir Trwudu Nafn af Chriſto?

Þeir

Þeir kallast christner, þad er smurdir; þvi hann hefur smurdt þa med sijnum Anda.

1. Joh. 2. 20. Þier hafid Smurningena af þeim sem Heilagur er, og þeckid allt.

Eru allir Menn i þessum Christnu Londum þvilijkir Christner?

Nafnid hafa þeir ad sonnu, enn Smurningarennar Anda og Nad vantar þa flesta.

† Eru þa þeir sañ-Christnu og so smurdir til andlegra Kieñimaña, Konga og Spamaña?

Ja; og þad audsijna þeir; sem Kieñimeñ, i þvi, ad fornfæra sig Gudi, giefa sig Gudi til Þioonustu, ad blessa og bidia fyrir sier og odrum; sem Kongar, i þvi, ad stiorna sialfum sier fyrir Guds Anda Hialp, samt eiñig i þvi, ad striida a mooti siinum andlegum Ovinum; sem Spameñ, i þvi, ad kieña, uñvanda, amiña og hugga sialfa sig og adra.

† Maa þa hver eiñ Christiñ, sem eiñ andlegur Prestur, taka uppa sig opinbert Kieñimañs Embætti?

Nei, þar til heyrir Guds Kallan, fyrir Yfirvallds sins Tilhlutan; enn þad er allra Christiña Kall og Skyllda, ad kieña, hugga, og uppbyggia hver aña i daglegri Umgeingni, og þa Tækifæri giesst.

1. Thess. 5. 11. Fyrir þvi Amiñi hver ydar aña iñbyrdis, og Eidrietti hver aña JNNbyrdis, so sem ad þier eiñ og giorid. Og i 14. V. Vier bidium ydur, kiærir Brædur, ad þier Amiñid O-rædvanda, Huggid Istodulitla, Uñlijdid breiska, verid þoliñmoodir hver vid aña.

Ebr. 3. 13. Amiñid ydur Sialfa alla Daga, so leingi sem þad i Dag kallast, ad þar eingiñ a medal ydar forherdist af Svikrædi Syndariñar.

Hvert af þessum þremur Embættum hlijda eiginlega ti

vorri Endurlausn?

Hanns ypparsta Prests Embætti, eftir hveriu hann er vor Fridþægingar og Talsmadur; þo gietur einginn medtekid Christum, sem sinn ypparsta Prest, og ordid hluttakandi i hanns Endurlausn, utann hann medtaki hann einnig, og fylgi honum so sem sijnum Spámanni og Kongi. 1. Cor. 1. 30.

Med hvi ad Christi ypparsta Prests Embætti er Grundvollurinn til vorrar Sáluhiálpar, þa seig mier ánægianlega og skilianlega, allt þad sem heyrir til Lærdoomi vorrar Endurlausnar?

J þessum Lærdoomi hefi eg ad þeckia gloggt, þañ sem hefur endurleyst oss; Þa sem hañ hefur endurleyst; Þad Medal sem hañ endurleysti oss med; Þad vonda sem hann hefur endurleyst oss fra, og til hvers hann hefur viliad oss endurleysa.

Er eigi þetta utmálad i Catechismo?

Jw, þess styttsta Jnnihalld er innifalid i þessum Ordum; Ad hann sie minn Drottiñ, sem mig glatadann og fyrirdæmdann Mann hefur afrekad. etc. Sia adra Grein Trwarjáatningareñar.

Hver hefur nu endurleyst oss?

Vor Drottinn JEsus Christus, Guds og Mariu Sonur, sannur Gud og sannur Madur, hefur endurleyst oss, eftir badum Nátturunum.

Gb. Post. 20. 28. Gud hefur utvegad Sofnud med sijnu eigiñ Bloodi.

Hafa þa eigi Fadiriñ og H. Andi endurleyst oss?

Þeir hafa ad sonnu elskad oss, og framfilgt vorri Endurlausn. Joh. 3. 16. 1. Cor. 6. 11. Enn þeir kunnu ecki ad utrietta Endurlausnar Verked

 sialft

sialfft, sem skiedi med Pijnu og Dauda.

Þvi gaatu þeir þad ecki?

Þvi Fadirinn er alleina Gud, sem eigi kann ad deya, so er lijka heilagur Andi; Enn Sonurinn er sannur Gud og sannur Madur, sem er dainn og hefur uthellt sijnn Bloodi, fyrir vorar Syndir.

Hvern hefur Christur endurleyst?

Mig aumann, glatadann, og fordæmdann Mañ.

Hveria Vissu hefur þu þar uñ, ad þu siert endurleystur?

Eg hefi þar þessa Vissu uñ, ad aller Menn eru endurleyster, og eg so einnig lijka i þeirra Tolu.

1. Tim. 2. 6. Christus JEsus hefur sialfañ sig utgiefid Fyrir Alla til ENdurlausnar.

† Bevijsa þu mier eñ nu framar, ad aller Meñ sieu endurleyster fyrir Christum?

Rom. 5. fra 15. til 21. Versi Kiennir Postuliñ St. Paall þad med morgum Ordum, ad Uppreisningiñ, edr Hialpiñ, i Christo naadi allt eins vijda til, eins og Fallid og Fordiorfuniñ i Adam, sem er, til allra. 1. Joh. 2. 2. Hañ sialfur er FOrlijkun fyrir vorar SYndir, eñ eigi einasta fyrir vorar (þad er þeirra trwudu) helldur eiñig fyrir ALLrar VEralldariñar.

Item, 1. Tim. 4. 10. Gud er Frelsari Allra Mañа, eñ SErdeilis TRwadra.

† Hefur þa Christur lijka endurleyst þa, sem med Ydrunarleysi og Vantrw steipa sier sialfir i Fordæmingúna?

Ja. 2. Pet. 2. 1. Þeir afneita Drottni sem þa hefur endurkeypt, og munu yfir sig leida snogga Fyrirdæming.

Med hveriu hefur Christur endurleyst oss?

Hverki med Gulli nie Silfri, helldur med sijnu heilaga, dijrmæta Bloodi, og med sijnum ovidurkvæmilega og saklausa Dauda; ja, ecki med Pijnuñi

alleina,

alleina, helldur og so med sinni Hlijdni og Logmaal; sins Uppfyllingu. 1. Pet. 1. 18. Vitid, ad þier erud ecki med forgeingilegu Gulli edur Silfri ENdurleyster i frá ydru Hiegooma Athæfi, eftir Fedrana Uppæsetningi, helldur med DYrmætu Bloodi Christi, so sem hinns oflekkada og saklausa Lambs.

Rom. 5. 19. Þviad lijka sem fyrir eins Mans Ohlijdni eru margir syndugir vordnir, so verda og fyrir EJns HLijdni MArgir REttlæter.

† Var þa so stoor Naudsyn aa, ad brwka so dijrmætt Medal til vorrar Endurlausnar?

Jaa, þvi Christi Fornfæringar Blood var omissand til Hreinsunar vorrar og Fridþægingar.

Ebr. 9. 22. An Bloods UThellingar skiedur EJngin FYrirgiefning.

Fraa hveriu illu hefur Christur oss endurleyst?

Fraa Synd, Dauda, og Diöfulsins Walldi.

Hvernig hefur Christur frelsad oss fraa Syndinni?

Med þvi mooti, ad: 1.) Er Syndarinnar Sekt og Straff burttekid. 1. Joh. 1. 7. Bloodid JEsu Christi Guds Sonar hreinsar oss af ALLri SYnd.

Col. 1, 14. J hverium vier hösum Endurlausnena fyrir hanns Blood, sem er SYndanna FYrirgiefning.

2.) Ad Syndarinnar Magt og Yfirraad eru broostinn; Jaa, Syndarinnar Root verdur umm siidir upprætt i Daudanum. Rom. 6. 14. Syndin mun eigi kunna ad drottna yfir ydur, med þvi ad þier erud eigi undir Logmaalinu, helldur undir Naadinni.

1. Pet. 2, 24. Christur hefur vorar SYndir BOrid aa sijnum Lijkama uppaa Tried, so ad vier i FRaa Syndunum deyddir, lisdum Riettlætinu; fyrir hvers Beniar þier erud heilbrygdir vordnir.

† Kann eg ecki nooglega ad vera frelsadur fraa Straffi

 Synd=

Syndarinnar, þo eg sie bundinn undir hennar Yfirdrottnan?

Nei, þad sijna ædur framfærdar R:tningarinnar Greinir; og allir ydrunarlausir fara villti þvi, ad þeir raangfæra Evangelium, ad þann Hætt, ad þeir vilia niita sier þad til holldlegra Fryheita; enn eigi til Frelsis fraa Syndinni sialfri (hverri þe:r vilia þioona i andlegum Dauda) helldur fraa Syndarinnar Straffi, fraa hveriu alleina, þeir vilia frijast fyrir Christum.

Hvernig hefur Christur endurleyst oss fraa Daudanum?

So, ad sa timanlegi Daudi er ordinn Inngangur til Lijfsins, enn saa andlegi Daudi hefur misst sijna Magt, og þann eylijfa Dauda er eigi meir ad ottast fyrir þa trwudu. Joh. 11. 25. 26. Eg em Upprisann og Lijfid, hver hann trwir aa mig, sa mun LIfa POtt hann deye, og hver hann lifir og trwir aa mig, saa skal Alldrei DEya.

Hvernig hefur Christur frelsad oss fraa Dioflinum og hanns Rijki?

So ad hann hefur einga Magt yfir oss, helldur kunnum vier ad veita honum Mootstodu, og þurfum ecki ad hrædast hann þegar vier ottunst Gud.

Ebr. 2. 14. Uppaa þad, ad hann Magtina tæki fyrir Daudann FRaa þeim sem DAudans MAgt hafdi, þad er Dioflinum, og endurleysti þa, sem fyrir Ogn Daudans hluta sinn alla Æfi i Þrælkan ad vera.

Til hvers hefur Christur endurleyst þig?

Uppaa þad eg skuli vera hanns eiginlegur, og so sem eiginn Eign, lifi sijfelldt undir hanns Valldi, i hanns Rijki, og þiooni honum.

†Hefur þa Christi Endurlausnar Verk þier alldungis

eckert

ecker leyfi ad þioona Syndiñi, Dioflinum og Verolldiñi, edur ad vera þeirra Eign?

Ney, þad er ad stela frá Christo, mijnum rietta Herra, þvi hañ hefur so dijrt keypt sier til Eignar.

Luc. 1. 74. 75. Ad vier leystir af Hendi Ovina vorra, ÞJoonudum HOnum án Otta, alla vora Lijfdaga, i HEilagleika og REttlæti, sem honum þocknast.

Rom. 6. 18. Fyrst þier erud frelsadir af Syndiñi, þa erud þier ordnir REttlætisins ÞJoonustu-Meñ.

Tit. 2. 14. JEsus Christus hefur sialfañ sig giefid ut fyrir oss, uppa þad hañ endurleysti oss i FRa ollu Oriettlæti, og HReinsadi sier sialfum Foolk til Eignar, þad KOstgiæfid væri til goodra Verka.

Er þad þa ad sia a Heimsins Bornum, ad Christur hañ þau endurleyst?

Ney, þvi þau hafa ai nij burtseldt sig Guds Ovinum, Syndinni og Dioflinum.

Hefur Christur vor Endurlausnari alltijd verid i einu sama Standi?

Ney, hañs Stand er tveñslags, sem er: Nidurlægingar Stand, og Upphafningar Stand. Um bædi talar Paulus. Philipp. 2. 6. 11. Hver þo hañ væri i GUds MJnd, hielt hañ þad þo ecki fyrir Ran, Gudi lijkur ad vera, helldur MJnkadi hañ sig sialfañ, og took a sig Mynd eins Þioons, vard lijkur odrum Moñum, og ad Hegdan fundiñ sem Madur; Litilæckadi sialfañ sig, og vard HLijdugur allt til Dauda, ja, allt til Krossins Dauda. Fyrir þvi hefur Gud UPphafid hañ, og gaf honum Nafn, þad yfir ollum Nofnum er, so ad i NAfni JEsu, skulu sig BEigia OLL KNie þeirra sem a Himnum, og a Jordu, og undir Jorduñi eru, og allar Tungur skulu vidurkieña, ad JEsus Christus sie Drottiñ, til Dijrdar Guds Fodurs.

† Hvad er Christi Nidurlægingar Stand?

Pad er þad Stand, i hveriu hañ eftir siñi Manndoomlegu Natturu, lagdi af ad brwka fullkomlega og siifelldt þa guddoomlegu Eiginlegleika, sem Mañdoominum voru meddeildir, og took uppa sig Pions Mynd, so ad hann, med sinni Hlijdni, kynni ad forlijka oss vid Gud.

Hvad er Christi Upphafningar Stand?

Pad Stand, i hveriu Christur (þa hanns Pijna var endud) var eftir sinni Manndoomlegri Natturu, upphafinn, til ad brwka fullkomlega og siifelldt, Guddoomlega Eiginnlegleika og Tignargiædi, til ad giora oss Hluttakandi i þeirri Saaluhiaalp, sem hann oss utvegadi.

Hvad marg Atridi eru, i Christi diupu Niduurlægingu?

Su Postulega Trwarjaatning upptelur Fiim, sem er: 1.) Fatæklega Fæding, 2.) Pijnuna, 3.) Krossfestinguna, 4.) Daudañ, og 5.) Greftranina.

† Þvi uppbyriadi Christur sitt Lijferni med þeirri fatæklegu Fæding i Stallinum?

Ad hann sem fyrst auglijsadi þad, ad hann sækti ei eftir Rijkium og Metordum Veralldariñar, helldr villdi hann alleinasta audga oss med sinni Fatækt. 2. Cor. 8, 9.

Hvad var þad sem Christur leid?

Allir hañs Lijfs Hagir voru fraa Ungdoomi fuller med Fatækt, Foragt, Offsookn, Ervidi, og Onædi; Enn ad siidurstu var hann saarlega pijndur undir þeim Romverska Landshofdingia Pontio Pilato, sem liet hann hwdstrijkia, hæda, þyrnikrijna, og illa med hann hondla.

Leid Christur alleinasta Utvortis og Liikamanum?

Ney, hanns allra stærsta Kvöl var su Helvitska Saalar Angist vegna vorra Synda, hverra hin punga Byrdi utpressadi af honum Bloodsveitann, og kom honum til ad segia: Hrygg er Saala mijn allt til Dauda. Matth. 26. 38.

Hvar fyrir leid JEsus so mikil Harmkvæli?

Vegna vorra Synda, og oss til Saaluhiaalpar. Es. 53. 7. 8. Sañarlega þa bar hañ VOrt KRänkdæmi og VOrum PJnum hlood hañ uppaa sig, FYrir VOrra MJsgiorda Sakir er hañ særdur, og fyrir vorra Synda Sakir er hañ lemstradur, Hegningiñ hun liggur aa honum, uppaa þad VJer hesdum FRidiñ, og fyrir hañs Beniar erum VJer HEilbrigdir ordnir.

Hverniñ hagadi JEsus sier i siñi Pijnu?

Miog þolinnmoodlega, so sem eitt Lamb sem leidist til Slaatrunar Beckskins. Es. 53. 7.

Hvad er Christi Krossfesting?

Eitt miog Kvalafullt, forsmaanarlegt og bölvad Dauda Straff, sem brwkad var vid allra stærstu Oodaada Meñ. Gal. 3. 13. Christur hefur leyst oss fraa Bölvan Lögmaalsins hañ Tiid hañ vard Bölvan fyrir oss, (þvi skrifad er) BOlvadr sie saa, hver sem aa Trie hangir.

Er Christur sañarlega dauiñ aa Krossinum?

Jaa. Luc. 23. 46. JEsus kalladi haarri Roddu og sagdi: Fadir! J þijnar Hendur fel eg miñ Anda. Og er hañ hafdi þetta sagt, gaf hañ upp siñ Anda.

Hafdi soddañ Daudi JEsu Christi stooran Kraft til ad utvega oss vort Lijf og Saaluhiaalp?

Jaa, allra stærsta Kraft, þvi þar med var Daudiñ, so sem Syndariñar Verdlaun, betaladr af vorum Medalgaangara, og vier fyrir hañ lausir giefnir.

Rom. 5. 10. Vier erum vid Gud forlijktir fyrir hañs Sonar Dauda, þa vier vorum eñ Ovinir.

Hvad er Christi Greftran?

Eckı var nockur Naudsyn a heñi, med þvi hañ ætladi ei ad vera daudur til leingdar; Helldur var hun Vitnisburdur uñ, ad hañ væri sañarliga daudur, og eitt Huggunarrijkt Miñis Teikn, ad vorar Syndir eru nidurgrafnar, vorar Grafir helgadar, og þeirra Vidbioodur fra þeim tekinn.

Hvernig a Madur ad alijta Christi Lijf allt, og alla Pijning i þessu Nidurlægingar Standi?

Ad nockru leiti, og sierdeilis, so sem eina Forlijkun fyrir oss, og ad nockru leiti, so sem Heilagleikans og Poliñmædiñar Eftirdæmi, i Lifnadinum og Pijnunni. 1. Pet. 2. 21. Christur hefur eiñig lidid fyrir oss, og oss eitt Eftirdæmi eftirlatid, ad þier skylldud eftirfilgia hañs Footsporum. 1. Joh. 2. 6. Joh. 12. 15. Matth. 10. 31. Cap. 11. 29. Luc. 9. 23.

Hvad kom eftir Greftranina, so sem þad sijdarsta Atrid i Christi Nidurlægingar Standi?

Hañs Upphafningar Stand, og til þess hlijda lijka Fim Atrid, sem er: 1.) Hañs Nidurstigning til Helvijtis, 2.) Upprisañ, 3.) Himnaforiñ, 4.) Setann til hægri Handar hia Fodurnum, 5.) Afturkomann ad dæma Lifendur og Dauda.

Hvad er Christi Nidurstigning til Helviitis?

Þad, ad hann skomu fyrir sijna Upprisu kom til Sama stadar þeirra Fordæmdu, hroosadi Sigri yfir Satans Makt, og predikadi fyrir Ondunum. 1. Pet. 3. 18. 19. 20. Christur er deyddur eftir Holldinu, eñ lijfandi giordr eftir Andanum, i þeim sama er hañ einnig i burt geingiñ, og hefur þeim Ondunum Predikad, i Fiot-

i Fiøtrunum, hverier fordum Daga eigi trwdu.

Hvad er Christi Upprisa ?

Hun er, ad hañ aa þridia Degi eftir siñ Dauda, hefur tekid aftur sitt Lijf, forklaarad sinn Lijkama, og i hønum syndt sig opinnberlega.

Gb. Post. 2. 24. Gud hefur UPPreist JEsum, ad UPpleystum DAudans KWølum, fyrir þvi ad þad var omøgulegt, ad hañ skylldi af hønum halldiñ vera.

Hvada Nytsemi høfum vier af Christi Upprisu ?

Allra stærstu Nytsemd. 1.) Til Stadfestu vorri Trw, ad fullkominn Betalingur, sie utlagdur fyrir vorar Syndir, þar ed vor Medalgaangari er ur Daudans Faangelsi sloppinn.

Rom. 4. 25. Saa er fyrir vorar Syndir var ofurselldur, og fyrir vors Riettlætis Sakir uppvaktur.

2.) Til vorrar andlegu Upprisu og heilags Framferdis i einum nijum Lifnadi; Og ad sijdurstu:

3 ) Til þess, ad vorir Lijkamir skulu Saaluhoolpnir upprijsa.

Rom. 6. 4. 5. Lijka sem Christur er UPpvakiñ FRaa DAudum fyrir Dijrd Fødursins, lijka so skulum vier gaanga i einu niju Lijferni; Þvi fyrst vier erum med hønum plantadir til LJks DAuda, þa munum vier og UPPrisuñi lijkir verda.

Umgieckst Christur ad Jafnadi hier aa Jørduñi eftir sijna Upprisu ?

Ney, þa hañ i Fiorutiju Daga hafdi hier umgeingist med sijnum Lærisveinum i adskilianlegum Opiñberunum, og talad fyrir þeim um þad sem heyrdi til Guds Rijkis, veik hañ burt ur Verølldiñi ad sijnilegri Naalægd, og foor upp yfir alla skapada Himna til Guds Dijrdar Himins, og hañs Haatignar

hægri Handar. Post. G. B. 1.9. Og er hañ sagdi þetta, var hañ þeim asiaændum uPpnumiñ, og eitt SKij TOk hañ upp, i BUrt fyrir þeirra Augum. Ebr. 9. 24.

† Hvert Gagn høfum vier af Christi Himnafør?

1.) Þa Huggun, ad JEsus er fariñ hiedañ ad tilbwa oss Stad i siins Fodrhymneska Hwsi, og vill taka oss þangad til siin. Joh. 14. 2. J mijns Fodr Hwsi eru margar VErur, eg fer hiedañ ad TJlbwa ydr STad.

2.) Þa Aminning, ad vier skulum hafa eitt himneskt Sinnislag, sem, Lyst til ad fara hiedann og vera med Christo.

Col. 3. 1. Erud þier nu UPp AFtur RJsnir med Christo, Þa LEitid PEss hvad þar Uppi er, þar ed Christur er sitiandi til Guds hægri Handar.

Hvad merkir Christi Seta til Fodursins hægri Handar?

Ad Christur eftir sinni Manndoomlegu Nattturu, med fullkominu og ævarandi Herradæmi, drottnar og stioornar ollum Hlutum.

Eph. 1. 20. 21. Gud uppvakti Christum af Dauda, og SEtti hañ til SJnar HÆgri HAndar a Himnum, yfir allañ Høfdingskap, Walldstiett, Magt, og Herradoom.

† Hvert Gagn høfum vier af Setu Christi til Guds hægri Handar?

Þar af vitum vier oss til Huggunar, ad hann, i Hæsæti siins Guddooms, stioornar sinni Kyrkiu, sefar sijna Ovini, bidur fyrir oss, sendir oss sinn heilaga Anda, og med þessu mooti vill hann i sijnu Upphafningar Standi giora oss niootandi þess, hann hefur wtvegad oss i sijnu Nidurlægingar Standi; hvar i moot vor Skyllda er ad heidra, tilbidia, og hlijda so hætt tignudum Hofdingia.

Þs.

Psal. 110. 1. Drottiñ sagdi mijnum Drottni, set þu þig til miñar hægri Handar, þangad til eg legg þijna ÓVini, til SKarar FOota þiña, Rom. 8. 34.

Er Christur eigi framar nalægur hier a Jordunñi ?

Jw; med kroftugum, enn þo osynilegum Hætti.

Matth. 28. 20. Siaid, eg ER MEd JDur alla Dagå, allt til Enda Veralldar.

Nær vill hañ i añad Siñ aftur koma synilega til Veralldariñar ?

A sijdarsta Degi, sem alleina er Gudi kunnur.

Post. G. B. 1. 11. Þessi JEsus, sem uppnumiñ er fra ydur til Himins, MUn KOma, lijka so sem þier saaud hañ til Himins UPPfara.

Luc. 21. 27. Þa munu þeir sia Mañsins Son KOmandi i SKyunum med storum Krafti og Dijrd.

Hvernig mun þad tilganga a Dooms Degi ?

Allir Menn, bædi þeir sem þa lifa, og hinir sem ádur voru daudir, og þa aftur uppvaktir, skulu stadnæmast fyrir Christi Doomstool, og þeirra Hugrenningar Ord og Verk dæmast eftir Guds Ordi, Diosflarnir skulu þa og dæmast.

Gb. Post. 17. 31. Hañ heiur DAg TIlsett, a hverium hañ vill DÆma alla Jardarkringluna med Riettvijsi, FÝrir eiñ MAñ, fyrir hvern hañ hefur þad og alyktad.

1. Cor. 4. 5. Dæmid ei fyrir Tijmañ, fyrr eñ Drottiñ kiemur, sa er augliisa mun, eiñig þad i Myrkrunum er hulid, og OPiñber GJora RAAdiñ Hiartnaña, og mun þa hverium sem einum Loflijr ske af Gudi.

2. Cor. 5. 10. Vier hlyotum allir ad opiñberast fyrir DOomstooli Christi, uppa þad, ad hver eiñ odlist eftir þvi hañ hefur adhafst i Lijkamans Lijfi, sie þad Illt eda Gott.

2. Tess. 1. 6. 7. 8. Þad er riett hia Gudi, ad ENdurgiallda þeim HOrmung, sem ydur Hormung veita, eñ ydur, þier sem Hormung lijdid, Hvijld med oss : Þa er

Drott-

Drottiñ JEsus mun opiñberast af Himni, medur Englum sins Kraftar, og med Elldsins Loga, Hefnd ad gieſa ysir þa, sem ecki þeckia Gud, og yfir þa, sem ecki eru hlijdugir Evangelio vors Drottins JEsu Christi.

1. Cor. 6. 2. 3. Vitid þier ei, þad heilagir munu Heimiñ dæma? Vitid þier ei, þad vier munum yfir Englunum dæma?

Joh. 12. 48. Þad Ord sem eg taladi, þad mun dæma þañ a efsta Degi.

**Er þad nu noog, ad þu veitst allt þetta um Christum, og helldur þad fyrir satt?**

Ney, ecki utann sa Heilagi Andi auglijsi Christum i mijnu Hiarta fyrir eina lifandi Trw, og helgi mig so i Sannleikanum.

## Ut af þridia Grein Trwarjatningariñar.

Trwir þu a þa heilogu almeñilegu christilegu Kyrkiu?

Ney, helldur trwi eg, ad ein heilog almennileg christileg Kyrkia sie til.

Trwir þu þa a heilagañ Anda?

Jaa, a Heilagann Anda trwi eg, eins og a Fodurinn og Soninn, þvi hann er med þeim ein Gudoomleg Vera.

† Bevijsa þu mier, ad Heilagur Andi sie ein Guddoomleg Persoona?

Þad bevijsast, ecki alleinasta af þeim Guddoomlegu Eiginnlegleikum og Verkunum, sem honum tilleggiast ostlega i Ritningunni; helldur og so, af þvi hann verdur utþrickilega nefndur Gud.

Gb. Post. 5. 3. 4. Anan:a, hvi uppfyllti Andskotiñ Hiarta þitt, so ad þu villdir liwga ad HEilogum Anda? Eigi hefur þu logid ad Moñum, helldur ad GUdi.

1. Cor. 3. 16. Vilid þier eigi þad þier erud GUds Musteri

eri, og þad GUds ANdi byggir i ydur? 1. Joh. 5. 7.
† Þvi kallast hañ: Eiñ Andi?

Vegna þess, ad hann med Guddoomligum Hætti so sem Guds Munns Andi (Ps. 33. 6.) frañgeingur fraa Eylijfd af Fodur og Syni.

Joh. 15. 26. Eñ þaa saa Huggariñ kiemur, hvern eg mun senda ydur af Fodurnum, sem er Sañleikssins Andi, hver af Fodurnum frañgeingr, hñ mun bera Vitni af mier.

Vegna hvers kallast hañ: HEilagur Andi?

Eigi alleinasta þess vegna, ad hann er sialfur i sinni Veru heilagur; Helldur og so þar fyrir, ad hañ frañkvæmir i Moñum Helgunar Verkinn.

Hveriar eru þær helldstu Verkanir heilags Anda?

Ad kalla, upplijsa, helga, og vidhallda.

Er nockur Þorf aa ad þeckia þessar heilags And a Verkanir i Saalunni?

Jaa, þvi eftir þvi maa hver einn proofa sig sialfañ, hvert hann sie rietttilegur Limur Guds Kyrkiu.

Hvad er þaa Guds Kallan?

Ad hañ med sijnu Ordi hrærir Mañaña Hiörtu, opinberar þeim sijna Raad, fierdeilis fyrir Evangelium, frañbijdur hana alvarlega, og giefur med Evangelio Kraft til ad medtaka hana.

2. Tim. 1. 9. Gud hefur oss hiaalplega giort, og KAllad med HEilagri KAllan, ecki eftir vorum Verkum, helldur eftir sijnu Fyrirhyggiu og RAAd.

Hver oñur Hiaalpar-Medøl brwkar Gud til ad uppreckia og kalla Meñina til ad leita Saaluhiaalþariñar?

Hier til brwkar hañ Stundum Þiæningar, Stundum Velgiorninga, Stundum añarra Eftirdæmi, og soddann fleira, sem Menn kunna ad færa sier til Jhugunar.

Sieg na og so allir Men þvilijkri Guds Kallan?

Nei, margir standa a mooti þeirri Heilags Anda Naad sem sundan geingt og undir bijr þa, og þess vegna niootá þeir ei helldur Naadarinar Jbwdar.

Siet ur Madur mootstadid lijka Guds Kallan?

Jaa. Gb. Post. 7. 51. Pier Skandid jafnan i MOti Heilagum ANda.

Es. 65. 2. Eg utrietti minar Hendur allan Daginn, til eins OHlijdugs FOOlks.

† Hver medtekur þa Guds Kallan?

Þeir sem medtaka Ordid med vilugu Hiarta, og færa Avöxt i Polinmædi; þad er, þeir sem ydrast og trwa: Evangelio, hvert ad er Kraftur Guds til Sæluhialpar, enn eigi nema hia þeim sem trwa. Rom. 1. 16.

Pa Ma dur nu eigi mootstendur Evangelii Kallan, helldr giefr henni Rwm hia sier, hvad verkar hun þa i Hiartanu?

Hun verkar Upplijsing, þad er, eina lifandi Þeckíng og eflugt Sannfæring um þann Guddoomliga Sannleik, inn i hvern Madurinn fær þa syest sied, og smackaid hann riettilega. Joh. 7. 17.

† Er einn ögudlegur Madur ecki upplijstur, af þvi hann er skijr og froodur i Ritningunni?

Nei, hann er enn nu Myrkranna Barn, og þeckir eigi Liossanna Födur. 1. Sam. 2. 12. EYnir Eli voru illir Skalkar, þeir HErrdtu ecki um DRottinn.

Jer. 2. 8. PRestarnir hugsudu ecki, hver er Drottinn? og hinir LÆrdu, sleittu ecki um mig, og HJrdararnir BUrtleiddu FOlkid fra mier.

Joh. 8. 54. Hvern þier SEigid ydvarn Gud vera, og PEckid han þo EJgi.

1. Joh. 2. 3. 4. Par af vitum vier, þad vier þeckium hann ef

ef ad vier vardvetum hañs Bodord ; hver ed seigier: Eg Pекki hañ, og helldur ecki hañs Bodord, sa er Lÿgari, og i hvilijkum er einginn Sañleikur.

Eph. 5. 8. Pier vorud fordum Myrkur, eñ nu erud pier Lioos i Drottni, gaangid so sem Børn Lioosßins.

Seig mier þañ eiginlega Mismun sem er a milli mañligs Lærdooms, og Gudlegrar Upplijsingar?

Sa mañlegi Lærdoom verdr lærdr med mañlegri Skinsemi og Ydkun Guds Ords, hvers Krafti verdur þa i mooti stadid. Eñ su gudlega Upplijsing ver kast fyrir þad sama Ord, af heilögum Anda, sem þa nemur stadar og bijr i Saaluñi. Sa mañlegi Lærdoomur er ecki nema i Heilanum, og eintoom Historiu Þecking: Su gudlega Upplijsing iñtekur Hiartad, og er samañ vid hana ein lifandi Reinsla, ad soddañ allt sie satt og Saaluhiaalplegt. Fyrir þann mañliga Lærdoom blijfr Madur samt i sinni Vondsku: Eñ su gudlega Upplijsing byriar ad taka i burt Mootþrooa Vilians.

Hvad skilst fyrir þad Ord: Helgañ?

Þegar meint verdur med þvi fleira eñ eitt, iñibindr þad i sier þetta þrent, sem verdur hvert ödru ad filgia: Endurfædinguna, Riettlætinguna og Endurnijungina. Añars merkir þad oft alleina daglega Endurnijun.

Hvad er Endurfædingiñ edur su nija Fæding?

Þad sama er hun sem Meddeiling einnar lifandi Trwar, edur Uppvakning af þeim andlega Dauda, Umvendan og Flutningur fra Myrkrunum til Lioossins, fra Diöfulsins Valldi til Guds.

Eph. 2. 4. Þa vier vorum Daudir i Syndunum, hefur

Gud Gjordt oss Lijfandi i Christo.

† Seig mier eñ þa skijrlegar hvad Endurfædingiñ er?

Hun er eigi (eins og Nicodemus meinti) ad Maduriñ skylldi hverfa aftur i siñar Moodur Lijf, þa hañ være ordiñ gamall, og fædast so ad nyju; Helldur er Endurfædingiñ eiñ andlegur og iñvortis Giorning ur Guds, i Hiarta Mañsins, sem fædist ad nyju, þegar þar i skapast (med þeim Hætti sem vier gietum eigi skilid) eitt nijtt gudlegt Edli og Hattalag; J Skilningnum nij Upplijsing; J Vilianum ein nij Eftirlangan, Girnd og Kraftur, og so alldeilis nijtt Lijf i þeim sem añars var andlega daudur, hvert ed Ritninginn kallar nijtt Hiarta, og nijann Anda, eina nija Manneskiu, ellegar nija Skiepnu.

Ez. 36. 26. Eg vil giefa ydur eitt NYtt HJarta, og eiñ NYañ ANda i ydur, og eg vil burt taka Stein Hiartad ur ydru Holldi, og giefa ydur eitt KJotlegt HJarta.

Joh. 3. 6. Hvad af HOlldinu er fædt, þad er Holld, og hvad af ANdanum er FÆdt, þad er ANdi.

Fyrir hver Medol verkast Endurfædingiñ?

Hiaa Ungbørnunum skiedr hun fyrir Vatn og Andai Skiirnar Sacramentinu, eñ hiaa þeim Fullordnu (sem vegna Andvaraleysis eda Illgyrnis Synda eru fallnir fraa Skiirnar Naadiñi, og Endurfædingar Standinu) fæst hun aftr aa nij fyrir Guds Ord, sem er þad oforrotnanlega Sædi. 1. Pet. 1. 23

Er þa alldungis naudsynlegt til Saaluhiaalpariñar ad verda endurfæddur?

Jaa. Joh. 3. 3. Nema so sie ad nockur verdi ad NYJu FÆddur hañ KAñ EJgi ad siaa Guds Riiki.

Gal. 6. 15. J Christo JEsu dugir hverki UMskurn

nie

nie Yfirhwd nockud, helldur NJJ Skiepna.

Hvar af sær Madur þeckt ad hañ sie endursæddur?

Af alvarlegri Umbreitung hanns Hiarta, og af þeim niju Sœsum Nœdarinnar, sem giora hann ad einni þeckianlegri nijrri og annari Manneskiu.

Hvad er þad þa sem Madur ødlast eiginlega med Endursæđinguñi, þad sem hañ hafdi ei ædur?

Hann ødlast þa soñu lifande Trw, sem umfadmar og ad sier tekur Christum, og i hønum Sonarlegañ Utvalningar Anda med Riettet til Guds Rijkis, samt Lyst og Kraft ad giora Vilia Guds.

Joh. 1.12.13. So margir sem hañ MEdtooku, þæ gaf hañ þeim Magt GUds BØrnum ad verda, þeim er æ hañs Nafn trwa. þeim sem ecki af Bloodinu nie af Holldsins Villd, nie Mañsins VJlia, helldur þeim sem af Gudi eru BOrnir.

Hvad er su sañu lifandi Trw sem gieffñ verdr med Endursæđinguñi?

Trwinn er, þegar ein ydrandi Sæl innslijr og leitar sier Lijknar til Guds Nœdar, i Christi Forþienustu, hveria hun tekur ad sier med Eftirlængan, og tileinkar sier hana, og treystir med øruggu Trausti i þar uppæ.

† Hvernig utmælar Lutherus þa soñu Trw?

Trwiñ er eitt lifandi øruggt Huggunar Traust uñ Nad Guds, hun er eitt Guds Verk i oss, sem giorir oss umskiptilega, og sædir oss ad niju af Gudi, deidir þañ gamla Adam, giorir oss ad olldungis ødrum Manneskium, ad Hiartanu, Huganum, Siñislaginu, og øllum Kroftunum, og særir med sier Heilagann Anda. O! Hversu lifandi, kroftugur, megtug-

ur og kostgiæfinn Hlutur er Trwinn!

Siaa Formaala Pistilsins til Romveria.

Hvad margir Partar tilheyra þa eiginlega þeirri sañu Trw?

Þrijr, sem eru: 1.) Lifandi Þecking uñ Gud og hanns Vilia, sem opinberadur er i Ordinu.

Joh. 17. 3. Pad er eylijft Lijf, ad þeir PEcki þig alleina eiñ sañañ Gud, og þañ þu sendir JEsum Christum.

Rom. 10. 14. Hvernig skulu þeir TRwa aa þañ, af hverium þeir hafa eigi heyrt?

2.) Lifandi Samsinning og Sañfæring uñ Sañleik þess, sem Madur veit af Guds Ordi.

Joh. 3. 33. Hver ed medtekur hañs VJtnisburd, sa JNNsiglar þad ad Gud sie SAñur.

Ebr. 11. 1. Trwiñ er ÖRuggt TRaust þeirra Hluta sem Madur vonar, og EFar EJ uñ þad sem hañ sier ecki.

3.) Em lifandi Tileinkan Guds Nadar i Christo, samt Traust og Huggunar Athvarf til þeirrar somu, hvert helldur hun audsynir sig i brennandi Laungun og Hwngri eftir Christo, ellegar i stærri Fulvissu uñ Nad og Roosemd i honum.

Matth. 5. 6. SÆlir eru þeir sem HUngra og PÖrsta eftir Riettlætinu, þviad þeir skulu saddir verda.

Rom. 8. 33. 34. Hver vill ASaka Guds Utvallda? Gud er hier sem RJettlætir. HVer er hañ sem FOrdæmir? CHristur er hier sem DAAid hefur, iaa miklu helldur saa sem upp astur er VAkiñ, hver ed er til hægri Handar Gudi og bidur fyrir oss.

Hvar fyrir kallast þesse Þecking, Samsiñing og Tileinkan, ein lifandi Trw?

Vegna þess, ad þessir Hlutir eru ecki alleina verkadir af Guds Ordi, sem er Lijf og Andi, helldur og einnig laata þeir sig finna lifandi og kroftuga i Hia-

ttanu, enn þad giørir ecki ſu dauda Trw.

Hvad er daud Trw?

Su dauda Trw er raung Ætlan, ſem ydrunarlauſir Syndarar ſinijda ſier ſialfum, ad þeir muni fa Guds Naad, jafnvel þo þeir vilie ei umvendaſt, og leita Naadariñar med þvi rietta Lagi, helldur eru allir hinir ſomu, þar þo Trwariñar Edli og Eiginnlegleiki er ad umbreita Mannenum.

Jac. 2. 26. Lijka ſem Lijkamiñ er an Andans daudur, ſo er og eiñig TRwiñ an VErkaña DAud.

Hafa þa þeir Ydrunarlauſu einga ſaña Trw?

Nei, alldeilis einga, þvi þo þeir kunni allt Guds Ord, halldi þad fyrir ſatt, og huggi ſig þar vid, þa er þo þeirra Trw daud, og þeirra Aſigkomulag og Hattalag fordæmanlegt, ſo leingi ſem þeirra Trw er ecki ad finna nema i Heilanum, (Lærdoominum) og hun kiemur ecki i Hiartad, eda deydir þann gamla Adam, og endurfædir þa til ad verda ein nij Manneſkia.

Af hveriu giet eg þa þeckt hvert mijn Trw er lifandi edur daud?

Af kroftugri Verkan hennar i Hiartanu, ſem er Kiærleikurinn til Guds og Naungans, Hatur til Syndariñar, Sigur a Heiminum, riettileg Brwkun Naadar Medalanna, og fleira ſoddann.

Jac. 2. 18. Syn mier Trw þijna af VErkum þijnum.

Luc. 6. 43. Ecki ert GOtt Trie ber FUiñ AVoxt, og ecki ert FUid TRie ber GOodan AVoxt.

Gb. P. 15. 9. Gud HReinſadi þeirra Hiörtu med TRwñi.

1. Joh. 5. 4. Allt hvad af Gudi er fædt, þad yfirviñur HEimiñ, og vor TRw er YFirviñingiñ, hver Verolldina

hefur yfirunnid.

Er þa su sanna Trw ætijd og hia ollum eins sterk?

Nei, þvi þa Vantrwinn strijdir a hana, þa er hun stundum miog veik, sem ein skialfandi og titrandi Hond, sem varla vogar ad taka til Nadar Guds, edur tileinka sier hana, enn vill nu til hennar med hiartanlegri Gyrnd og Eftirlangan.

Marc. 9. 23. Eg trwi, Herra! Hialpa þu minni Vantrw

† Lætur þa Gud sier lijka jafnvel veika Trw?

Ja, þa hun er sonn og Skijlaus þo hun sie veik; Sem þa kann best ad sienst a þvi, ad Madur hafi alvarlegt Hatur a Syndunum, og hann langi eftir frekari Trwar Styrking, jafnvel þo Dirfung Trwarinnar sie ecki þa ad finna.

Matth. 5. 3. 6. Sælir eru þeir sem i Anda eru Voladir, hviad þeirra er Himnarijkid, etc. 1. Joh. 3. 19.

Hvada Gagn hefur þa Madur af þeirri Trw, sem hann odlast med Endurfædingunni?

Allra stærsta Gagn, þvi Trwinn alleina er þad sem hondlar Christum, og giorir Syndarann riettlatann, þad er, Hluttakara i JEsu Christi Riettlæti.

Rom. 5. 1. Med þvi vier erum nu RJettlatir ordnir FYrir TRwna, þa hofum vier FRid vid Gud, fyrir Drottinn vorn JEsum Christum.

Hvad er þa Riettlætingin?

Hun er hinn allra næsti Avoxtr Endurfædingarinnar, og er innifalinn i þvi, ad sa þrijeini Gud, af einskiærri Nad, alyktar fyrir sijnum Doomi, einn sannydrandi og trwadann Syndara frijann bædi fra sijnum Syndum og þeirra forþientu Straffi, og tilreiknar honum aftur a mooti Christi Riettlæti. Ja, hann alijtur

lijtr hañ i Christo eins og hañ hefdi aldrei syndgad.
2. Cor. 5. 21. Hañ hefur hañ, sem af eingri Synd vissi FYrir OSS ad Synd GJordt, uppa þad VJer yrdum i honum þad RJettlæti, sem fyrir Gudi gilldir.
Rom. 3. 28. So holldum vier nu, þad Madurin verdi RJettlæti an Logmaalsins Verka, FYrir TRuna alleina.
Gal. 2. 16. Med þvi vier vitum, þad Madurin verdur ecki RJettlætur fyrir Logmaalsins Verk, helldr fyrir TRuna a Christum Jesum; So trwum vier og eiñig a Christum JEsum; uppa þad vier VErdum RJettlætir fyrir TRwna a Christum, og ecki fyrir Verkiñ Logmaalsins, þvi fyrir Verkiñ Logmaalsins verdur eckert Hollð riettferdugt. Sia Rom. 4. 28. Phil. 3. 9. 10. Eph. 2. 9. 10.
Er þa soddañ ein riettlaat Saal i einu hiaalplegu Asigkomulagi og betra eñ adur?

Jaa vissulega, þvi hun er þa komiñ i nanar Teingdir vid þañ Prijsuna Gud, sem byr i Hiartanu, so sem i sinu eigiñ Musteri. Hun er þa i Christo audgud med andlegri Blessan, þeim himnesku Giædum, med ometanlegum Evangelij i Tignargiædum, med Naadarinnar og Saaluhiaalparinnar rijkuglegum Audæfum og Fiaarsioodum.

Psal. 32. 1. 2. SÆlir eru þeir hverium Misgiordirnar eru FYrirgiefnar, þeir, hverra SYndir ad eru Hul-dar. Sæll er sa Madur, hveriun Drottiñ tilreiknar ecki Syndina, i hvers Anda þad eingiñ Flærd er.

† Hveriar eru þa slijkar Evangelii Naadargiæfur?

Þær eru: Christi Riettlæti, Syndañá Fyrirgiefning, Sonarleg Utvalning, Guds Fodurleg Umsorgun, Erfda Riettuiñ, Fridr vid Gud, þad sonarlega Trwnadar Traust, sætr Smeckr Guds Elsku, Adgangur til Guds Naadar, Diorfung til ad

bidia hañ, Fullvissa um̃ Raad Guds, um̃ Bænheyrslu og Hialp i allri Neyd, sierdeilis um̃ kroftuga Guds Verndan fyrir ollum Ovinum synilegum og osynilegum, Forsmeckur þess eilifa Lijfsins, Gledi i Heilogum Anda, Styrknan, Upplijsing, Tilladan og Kraftur þess sama Anda, Frelsi fra Straffi og Yfirraadum Syndarinnar, fra Guds Reidi, fra Logmaalsins Bolvan og Kjrgan, fra Satans, Helvijtis og Daudans Makt, fra Verolldinni og vondri Samvitsku, og (Vissa um̃ þad) ad allir Hlutir, jafnvel þær bitrustu Pijslir, skuli verda Trwudum ad gagnu; Einlifandi Von um̃ Saaluhjalpina, hvar a eftir filgir su eilijfa, outsegianlega Gledi og Dijrd i Himninum.

Eph. 1. 3. Blessadur sie Gud og Fadir vors Drottins Jesu Christi, sem oss hefur blessad med allshaattadri ANDlegri Blessan i HImneskum GJædum, fyrir Christum.

Eph. 3. 8. Mier hinum sijdarsta allra Heilagra er giefin þessi Naad, þad eg kuñgiordi medal Heidiña þañ ORañsakanlega RJkdoom Christi.

Rom. 10. 15. Hversu frijdir eru Fætur þeirra sem FRidiñ boda, þeir ed boda hid goda.

† Smackar hver eiñ Riettlaatur ætijd og eins mjog þessar Naadar-Gæfur?

Ney, sierdeilis i Sorg, Freistingum og Astrijdum: Þar fyrir skal eiñ trwadur Madur leitast vid, med Framfør i Trwñi, ad tileinka sier þær med stærstu Um̃hyggiu, vardveita þær med Otta og Fagnadi, og fa þar af Lyst og Kraft, ad laata sier fara fram̃ i þeirri daglegu Endurnijan, edur Helgan, sem filgist med Riettlætingunni.

Eph. 1. 16. 17. 18. 19. Eg læt eigi af Packir ad giøra fyrir ydur, og ad miñast ydar i mijnum Bænum: Pad Gud vors Drottins Jesu Christi Dijrdariñar Fadir, giefi ydur VJsdoomsins og OPinberingar ANda, til hañs eigiñ VJdurkieñingar; Og upplijsi Augu ydvars Skilnings, pad pier megid vita, hvilijk ad sie su Von, sem pier erud tilkallader, og hver þar sie RJkdoomur hañs Dijrdarfullrar ANfleifdar, til hañs Heilagra: Og hver þar sie hin YFirgnæfanlega STærd hañs KRaftar vid oss, vier sem trwum eftir Verkan hañs volldugu Stirkleiks. 2. Cor. 4. 3. 4.

Hvad er eiginlega Endurnijungiñ?

Hun er iduglega ad afklæda sig þeim gamla Manni, edur læta af Syndunum, og iklædast aftur þeim nija Manni, edur læta sier daglega framfara i þvi Gooda, so sem i Upplising og Þeckingu Guds, Trw, Von, Kiærleika, Audmykt, Hoogværi, Þolinmædi, Afneitan siælfs sijns, Lysting til Bænræknis og Guds Orda, Kraft til ad standa a mooti Syndinni, og kieppast eftir Helguninni.

Eph. 4. 22. So AFleggid i fra ydur eftir fyrri Breitni hiñ GAmla Mañiñ, sem sig fordiarfar i Gyrndum Villudoomsins. Eñ ENdurnijed YDur i ANda ydvars Hugskots, og Klædist ÞEim NJa MAñi, sem eftir Gudi er skapadur i sañarlegu Riettlæti og Heilagleika.

Þvi kallast þessi Endurnijung, Dagleg?

Þvi hun er eigi strax fullkomiñ, eins og Riettlætinginn, helldur eigum vier med daglegri Astundan ad efla hana alla vora Lijfdaga; og þa þeckist Guds Mynd, Sinni og Art meir og meir hiaa hañs endurfæddu Bornum.

Phil. 3. 12. Ecki þad eg hafi þad þegar høndlad, edur

fie PEgar Fulkomiñ, og stunda þar eftir, hvert ad eg giæti eiñig hondlad, eptir þvi ad eg em af Christo hondladur.

Hver er sa sijdarsti Velgiorningur Heilags Anda vid Mañiñ?

Þad er Vidhalldid, þvi þa hann hefur helgad ofs med Endurfædingunni, Riettlætingunni og Endurnijaniñi, þa vidhelldur hann ofs og so i allskonar Freistingum, i sañarri Trw, allt til Enda, ef vier eigi follum fraa mootviliuglega.

Phil. 1. 6. Saa sem i ydur hefur UPpbyriad þad goda Verkid, hañ Mun þad og eiñig FUllkomna allt til þess Dags JEsu Christi. 1. Pet. 1. 5. Cap. 5. 10.

Hvernig vidhelldur Heilagur Andi þeim Trwudu?

Med þvi hann innvortis sannfærir, edur aavijtar, Frædir, leidir, og huggar þeirra Hiortu.

Hvad er Heilags Anda Sañfæringar edur Avijtunar Embætti?

Ad hann giorir Samvitskuna vidkvæma, so ad hun kannast med saarri Tilfinningu, jafnvel vid hinar minstu Syndir, hvar af ad kiemur su sanna Hiartans Audmijkt.

Joh. 16. 8. Pa Talsmaduriñ kiemur, mun hañ STraffa Heimiñ fyrir Synd, og fyrir Riettlæti, og fyrir Doom.

Hvad er Uppfrædingar Embætti Heilags Anda?

Ad hañ, med Guds Ordi, æ meir og meir opnar og upplijsir Mañsins Skilning, og stadfestir Sañleikañ i Hiartanu aa mooti ollum Villudoom.

1. Joh. 2. 20. 27. Pier hafid SMurninguna AF þeim sem HEilagur er, og þeckid allt, etc.

Hvad er Leidriettingar Embætti Heilags Anda?

Ad hañ med sinni heimuglegri Umvondun og Vidvorun helldur Manni fraa þvi ad syndga, enn upp-

ørvar, tilladar, og hvetur hann til þess Gooda.

Rom. 8. 14. Þeir sem Guds Andi Leidir, eru Guds Børn.
Gal. 5. 16. GAngid i AAndanum, þa munud þier ecki fullkomna Holdsins Girndir.

Hvad er Huggunar Embætti Heilags Anda?

Ad hañ, fierdeils at Freistingar Tijmanum og at Neydarinnar Tijma, minnir einn sañ-Christin at Guds Nadarrijka Hiastod, giefur honum ad smacka Evangelii Huggunar Kraft, og vidhelldur honum so i Þolinnmædinni med lifandi Von.

Rom. 15. 13. Gud Vonariñar Fylli ÞDur med øllum FAgnadi og FRidi i Trwñi; So ad þier hafid ynoglega Von fyrir KRaft HEilags ANda.
Rom. 8. 16. Sa sami ANdi ber Vitnisburd med vorum Anda, ad VJer erum Guds BØrn.

Þegar Guds Andi nu so helgar Meñina, og vidhelldur þeim, hvad kallast og eru þeir þa?

Heilagir, edr heilagar Mañeskiur. Eph. 1. 1. Þeim HEilogu, sem eru til Ephesso, og TRwudu i Christo JEsu.
Ps. 86. 2. Vardveit þu Saal mijna, þvi eg em þiñ Heilagr.

Hvar er þessa Heilaga ad fiña?

J þeirri Heilogu, Almeñilegu, Christilegu Kyrkiu.

Hvad skilst hier fyrir Kyrkiu?

Ecki eitt Hws sem er bygdt af Trie og Steinum, helldur er su Kyrkia eitt Samneyti, Samband og Sameining Heilagra M. nna i Andanum.

Eru soddañ Kyrkiur edur Samneyti marg til?

Ecki utañ ein, sem er Almeñileg, þad er, eigi bundiñ vid nóckurt vijst Plats, helldur er hun utdreifd um alla Verølldina, hvar hun er nu strijdandi, eñ skal i Himninum Sigri hroosa.

† Þvi kallast Kyrkiañ, Christileg?

Þvi hun met kiennir Christi Lærdoom, og hefur Christum sialfan fyrir sitt Hofud og Herra alleina.

† Er þad þa ætijd son Christileg Kyrkia, sem vidurkiennir Christi Nafn, og kiennir sig vid han?

Ney, ei utann hun kienni þar med Christi Ord ofalsad, og brwki þau H. Sacramenta eftir hanns Innsetningu, og er þetta Kyrkiunar Kiení-Teikn. Joh. 8. 31. 32. Ef þier Blijfid BJd MJnu ORdu, þa erud þier mijnir LÆrisveinar.

Verda þeir þa aller Saaluhoolpnir sem lifa og deya i þeirri sonnu Kyrkiu?

Ney, ei allir Limir þeirrar synilegu Kyrkiu, helldur alleina þeirrar osynilegu verda Saaluhoolpnir. Matth. 22. 14. MArgir eru KAlladir, enn Faair UTvalldir.

Eg meinti ad ecki væri nema einasta ein Kyrkia, hver er þa Mismunur millum þeirrar synilegu og osynilegu?

Hun er eigi utann ein, enn i þeim utvortis og synilega Hoop eru tvennslags adskilianlegir Limir, sem eru Hræsnararnir, og þeir sann-Christnu.

Hverier eru Hræsnarar, og alleina utvortis Limir?

Þeir sem af einberri Medkienning hroopa: Herra: Herra! Enn giora ecki Vilia Fodursins, sem er a Himnum er. Matth. 7. 21.

Hverier eru san-Christnir og rietttilegir Kyrkiunar Limir?

Þeir sem i Trwnni giora Guds Vilia, so þeir hallda sier vid Drottin, og eru ein Andi med honum. 1. Cor. 6. 17. Rom 8. 9. Hver han hefr ei Christi Anda, sa er EJ HAns.

† Kan Madur ætijd ad þeckia þessa hina sijdari fraa þeim fyrri?

DRottinn þeckir ætijd sijna, enn fyrir Mannana Augum er saa Mismunur ecki ætijd opinnber; Þar fyrir kallast Kyrkiann osyniileg, af þvi hennar Limir

hylia

hyltast i þeim stoora utvortis Hoop Hræsnaranna.

† Meiga sañ-Christnir hafa Samfielag med Hræsnurum?

Ecki i þeirra Vondsku, þvi Liosid hefr eigi Samfielag vid Myrkrid, ellegar Christur vid Belial; eñ Kauphondlan, Erfidi og añarri soddañ naudsynlegri Umgeingni gieta þeir ecki komist hiaa þvi, þvi añars yrdu þeir ad rijma Heimiñ. 1. Cor. 5. 10.

Hafa þa þeir sañ-Christnu nockurt naakvæmt Samfielag sijn aa milli Iñbyrdis?

Jaa, þvi þar þeir allir eru Limir aa einum Lijkama, Greinir aa einu Trie, og Born fædd af eins Fodur Sædi, þa hafa þeir broodurlegt Samfielag og Hluttdeild i Sorg og Gledi, i andlegum Gaafum og Velgiorningum, i Bænum og Fyrirbeidslum, i Truñni og Von þeirrar eilijfu Arfleifdar.

Eph. 4. 3. 6. Verid kostgiæfnir ad hallda EJndrægni i Andanum fyrir BAnd FRidarins. Eiñ Lijkami og eiñ Andi, so sem þier erud kalladir uppaa eina Von ydrar Kallanar. Eiñ DRottiñ, ein Trw, ein Skijrn, eiñ Gud og Fadir allra, saa sem ad er yfir ollum, fyrir alla, og i ydur ollum.

† Getur Guds Kyrkia geingid til Gruña?

Su osynilega og almeñilega Kyrkia forgeingur eigi, helldur verdur heñi halldid vid af heñar Hofdi, Christo, aa mooti ollum Helvijtaña Portum; Po lijdur Gud oftlega, ad Tyrannar og Villumenn eydileggia hana i vissum Stodum.

Hvad er nu eftir i Pridiu Greiniñi?

Þrennt, sem er, Syndanna Fyrirgiefning, Holldsins Upprisa, og þad eylijfa Lif.

Hver fyrirgiefur Syndirnar?

Sialfur

Siaalfur Gud, sem Syndinn er driigd aa mooti.
Marc. 2. 7. Hver maa Syndirnar fyrirgiefa nema Gud eiñ?

Hvad er, ad fyrirgiefa Syndina?

Pad er ad afmaa og burttaka alla Syndarinnar Sekt og Straff, so ad Syndarinn reikneſt so fyrir Riettlaatann, sem alldreigi hefdi hann syndgad.
2. Sam. 12. 13. DRottiñ hefur i Burttekid þijna SYnd, þu skallt ECki DEya.

Vill Gud aa þañ Haatt fyrirgiefa Syndina?

Jaa, so opt sem nockur um̃vendir sier og trwir Evangelio, vill Gud fyrirgiefa honum Syndina af einskiærri Naad, fyrir Christi Verdskulldan, hver ed med sijnu Bloodi aa Krossinum hefur fullu bætt fyrir allrar Veralldarinnar Syndir.
Eph. 1. 7. Ihverium vier hofum Endurlausnina fyrir hañs Blood, sem er Syndaña FYrirgiefning.

Hverium Moñum vill Gud fyrirgiefa Syndina?

Ollum sañ-ydrandi og trwudum Saalum, eñ ei þeim Idrunarlausu og Vantrwudu.
Post. G. B. 2. 38. GIorid Yfirbyot, og hver ydar eiñ laati skiira sig i Nafni JEsu Christi til FYrirgiefningar SYndaña. Ezech. 18. 21. 22.

Hveriar edur hvad margar Syndir vill Gud fyrirgiefa?

Allar Syndir, þær stærstu aasamt med þeim smærstu, þaa Syndariñ snijr sier ad eins af Hiarta.
1. Joh. 1. 7. Ef vier GAungum i LJoosinu, lijka sem hañ siaalfur i Lioosinu er, þa hofum vier Samfielag iñbyrdis, og Bloodid JEsu Christi hañs Sonar, HReinsar oss AF OLLum SYndum.

Med hveriu Medali veitir Gud Moñum Fyrirgiefning þeirra Synda?

Med sijnu heilaga Evangelio, hvert hann hefur giefid Makt og Myndugleika til sijnum Pienurum ad predika hier a Jordunni, i sinn Stad, fyrir øllum Jorandi, til Syndanna Fyrirgiefningar.

Luc 24. 47. Ad PRedika lata i sijnu Nafni Jdran og Syndaña FYrirgiefning a medal allra Pioода.

Hvert er þad Medal a vora Sijdu, fyrir hvert vier ødlunst Syndaña Fyrirgiefning?

Ekkert annad enn Trwiñ, sem medtekur Christum, og i honum Riettlætid, af einskiærri Naad.

Gb. Post. 13. 38. 39. Ydur bodast fyrir þeña Syndaña Fyrirgiefning, og af øllu þvi, af hveriu þier gætud eigi riettlætir vordid i Moyses Løgmali, eñ hver hañ TRwir a PEñañ, sa er riettlatur.

Pienar ecki þessi Lærdoomur, uũ Fyrirgiefning Syndaña, til Andvaraleysis?

Margir ad soñu misbrwka hann þar til, og falla i þvi stærri Fordæming; enn Guds Born uppørvast vid þessa Naad til Elsku-fulls Þackletis og enn meiri Guds Otta. Ps. 130. 4. J hia þier er Fyrirgiefningiñ so ad Meñ OTTist PIg.

Hvad er Lijkamans edur Holldsins Upprisa, sem Pridia Greiniñ hondlar uñ framveigis?

Ad, fyrir Guds Kraft, samteingiast aftur a þeim efsta Degi Lijkamir allra þeirra daudu Saalunum, sem þær biuggu i adur, og upprisa sumir til eylyfrar Gledi eñ sumir til eylyfrar Pijnu.

Joh. 5. 28. 29. Su Stund mun koma, a hverri, bad allir þeir sem i GRøfunum eru, skulu heyra hañs Rødd. Og þeir munu þa FRamgaunga sem gott giørdu til LIfsins Upprisu, eñ þeir sem illa giørdu til DOmsins UPPrisu. Joh. 6 40. Dan. 12. 2.

Getur þetta møgulega skied?

Jaa, þvi Gudi, sem af eingu skapadi Jordina, og þañ fyrsta Mañ af Jorduñi, er eingiñ Hlutur Omøgulegur. Luc. 1. 37.

† Er naudsynlegt ad trwa Upprisu þeirra dardu?

Jaa, fyrir Sakir Guds Riettlætis, sem bædi launar og straffar; þvi til þess horfir bædi Von þeirra Trwudu, og Skielfing þeirra Ogudlegu.

1. Cor. 15. 13. 14. Ef Upprisa Framlidena er ecki, þa er Christur og ecki upprisiñ. Eñ ef ad Christur er eigi uppaftur risiñ, so er vor Predikun onyst, þa er og ydar TRw ONyst.

† Munu Lijkamirnir i Upprisuñi verda eins aftig komnir og hafa somu Eigiñlegleika sem nu?

Nei, þeir munu þa hafa andlega Eigiñlegleika og vera odaudlegir, osorgeingilegir, hæfir til ad medtaka annadhvert himnesska Gledi, edur Helvijtis Pijslir eylijflegana.

1. Cor. 15. 42. 43. 44. Pad verdur sæd Náttúrlegur Lijkami, eñ mun upp aftur rijsa ANdlegur Lijkami, etc.

Hvert fara þeir upprisnu Lijkamir hiedañ med Saalunum?

Eftir þad bwid er ad hallda Doominn, fara þeir Fordæmdu i eylijfann Helvijtis Elld, Kvalir og Pijnu, enn þeir Utvølldu i þad himnesska, eylijfa og sæla Lijf. Matth. 25. 34. 41. 45.

Hvad er þad eylijfa Lijf?

Eitt fullkomid Samkvæmi med Gudi, þaa þeir Saaluhoolpnu, a Saalu og Lijkama fullkomlega frijadir fraa Syndiñi og øllu illu, niota oendanlegs og oumrædilegs Fagnadar, Fridar, Gledi og

Vegsemdar

Vegsemdar, og lofa Gud med ollum Utvolldum Einglum oaflaatanlega. Psal. 17, 15. 1. Cor. 13.12.1. Thess.4. 17. Rom.2. 6 7.

Hvad er saa eyliifi Daudi ?

Skamarleg og Angistar-full Utskwfun fraa Saelu Guds; Enn i hennar Stad gniistandi og brennandi Ellds og Orma Kvol aa Saalu og Liikama.

Matth.25.41. Farid burt fraa mier bolvader i Eyliisan Elld, han fyrirbwin er Fiandanum og hans Arnim.

Hverier komast i Helviitis eyliisen Dauda og Piinu ?

Allir sem lifad hafa i Syndunum af aasettu Raadi, og eru i Pdrunarleysi, Vantrw, Andvaraleysi og raangri Atlan um Guds Raad, burtdaudir; og þeir kallast eyliiflega UTSKufadir fraa Gudi.

Hvad er þessi Utskwfan ?

Ad saa alviisi Gud, hefur, ecki af nockru fortakslaust aasettu Raadi, helldur vegna Mannanna eiginn mootþroaannlegrar Þvermoodsku aaliktad, ad utskwfa þeim og fordaema þa alla, sem hann hefur fraa Eyliifd fyrirsied, ad hanns Raad villdu siifelld lega ecki sinna, helldur forsmaa, og bliifa i þeirra Idrunarleysi og Vantrw til Enda.

Joh. 3. 18. Hver aa han trwir daemist eigi, en hver han Kwir EIgi. han er nu PEgar DOEmdur, þviad han trwdi eigi aa Nafn eingietins Guds Sonar.

Hverier verda Hlut-takandi i Gledi og Saelu eyliifs Liifs ?

Allir þeir sem sannarlega hafa trwad aa Christum, lifad Christilega og stadid i þvi stodugir allt til Enda; og þeir kallast UTvalldir.

Hvad er Utvalningin ?

Ad

Ad Gud hefur tilætlad alla þa til eylijfs Lijfs, sem hann hefur fraa Eylijfd fyrir-sied ad mundu vilia medtaka þa frambodnu Naad, trwa aa Christum, og i þeirri Trw stødugir standa til Enda.

Rom. 8. 28. 30. Vier vitum, ad þeim, sem Gud elska, þiena aller Hlutir til hins besta, þeim sem eftir FYRerhyggiunni KAlladir eru. Þviad hveria hann hefur aadur fyrirhugada, þa hefur hann og TJlskickad, þad þeir skylldu verda samlijker hans Sonar Jmind, so ad hann siaalfur sie Frumgietningur aa medal margra Brædra. Enn hveria hann hefur FYrirhugada, þa hefur hann og KAllad, enn hveria hann hefur kallad, þa hefur hann og RJettlaata giørdt, enn hveria hann hefr riettlætta, þa hefur hann og dyrdlega giørdt.

## Ut af Drottinnlegri Bæn.

### Hvad aa ad vera idugleg Ydkun eins trwads Christins Manns?

Ad hafa sijna Ummgeingni med Gudi i Bæninni og heiløgum Hugleidingum, vidlijka sem þa Madur ummgeingst og talar einlæglega vid Vin sinn. Psal. 19. 15. Eph. 6. 18.

### Hvad er þad ad bidia?

Þad er ad tala einfalldlega vid Gud i sijnu Hiarta, utausa sinni Eftirlaangan fyrir honum, kvarta fyrir honum um sijnar andlegar og lijkamlegar Naudsyniar, og af innsta Grunni Saalarinnar, fara einhvers aa Leit med alvarlegri Laungun hiaa honum. 1. Tim. 2. 13.

### Hver aa so ad bidia?

Aller Menn, og jafnvel Smaabørninn. Psal. 8. 3. Þvi þad er eigi alleinasta ein Skyllda sem befolud er i ødru Bodordinu, og annars oftlega, ad oss hæfir

hæfir ad bidia, helldur er þad og einñig ein Naad og Velgiorningur, ad vier audvirdilegir og ohreinir meigum og þorum ad bidia. Luc. 11. 1. 13. Cap. 18. 1. 8. Psal. 50. 15.

Gieta þa allir Meñ bedid ſvo ad Gudi ſie þægilegt?

Nei, ecki þeir Ydrunarlauſu, þvi þeirra Bæner Gudi Andſtygd; Helldur þeir ſem annadhvert eru um̃vendtir, edur eru æ Um̃vendunar Veigi.

Joh. 9. 31. Vier vitum ad Gud HErrir Ecki Syndugu, helldur þad, ef nockur er GUds DYrdkari, og giorir eftir hans Vilia, PAñ HEyrir HAñ.

Hvern æ Madur ad tilbidia?

Alleina þann þrijeina Gud, ſem alleiñ kañ ad bænheyra og veita þad ſem vier eftir Oſkum.

Hvar æ ſkal Madur byggia ſijna Bæn?

A JEſu Chriſti Forþienuſtu og Fyrirboon hiaa Fodurnum. Joh. 16. 23. Sañlega, ſañlega, ſegt eg ydur, ef þier bidied Fodurin̄ nockurs i mijnu Nafne þaa mun hañ giefa ydur þad.

Hvernig æ Madur ad bwa ſig til Bænariñar?

Madr ſkal i hiartanlegri Jdran, taka fyrir ſig einlægañ Aſetning ad vilia þiona Gudi, og mootſtrijda alvarlega allri Synd, venda ſijnu Hiartalagi fraa veralldlegum Hlutum, þeinkia um̃ ſijna ſtooru þreingiandi Naudſyn, ſetia ſier fyrir Sioonir, ad ſaa heilagi og myſkunſami Gud er þar naalægur, og ſnwa ſo, med Andvorpunum um̃ Bænariñar Anda, allri ſiñi Saalar Eftirlongun til Guds, ſo ſem til eins rijkuglegs Uppſprettu Bruñs allrar Giæbſku.

† Hvernig æ vor Bæn og Samtal vid Gud ad vera logud?

Hun ꝏ ad skie i sonarligu Trausti med Gudrækni Audmijkt og Forlijkunarsomu Hiartalagi. Þar af verdur einig ad koma Audmijkt og Letning i Lijkamans Skicki og Hattalagi, fyrir þeim Allsmegtugasta Gudi, eins og giordi Guds eigin Sonur, og heilagra Dæmi eru til.

Psal. 95. 6. Komid, lꝏtum oss tilbidia og NJdurkrijpa og framfalla, fyrir þeim Drottni sem oss hefr giordt. 1. Tim. 2. 8. So vil eg nu þad, ad Menirnir bidie i ollum Stødum, og upphefie Heilagar Hendur AN REidi, og ORvinglunar.

† Hvenær og hvar ꝏ Madur ad bidia?

Alltijd og allstadar, helldst i Einrwmi.

Luc. 18. 1. Hañ sagdi eina Eftirlijking til þeirra þar uppꝏ, ad Meñ skylldu JAfnañ BJdia og eigi aflꝏta. Matth. 6. 6. Nær þu bidst fyrir, þa gack iñ i þitt SVefnHws, og LYk Dyrunum aftur, og bid þu Fødur þiñ i LEynum, og Fadir þiñ sꝏ i Leynum sier, mun þier þad opinberlega astur giallda.

A Madur ad bidia eftir Bænabookunum alleina?

Lyka af Hiartanu og med eigiñ Ordum.

Gieta Børn og einfalldt Foolk vel utskijrt sijna Hiartans Þꝏnka med sijnum eigin Ordum?

Jꝏ, þvi vid Gud kañ Madur ad tala eins og einfalldlegar eñ vid Meñina, og þar ad auki giefur hañ sijnum Børnum Nꝏdariñar og Bænariñar Anda Zach. 12. 10 Rom 8. 15. 26.

Hvad margslags er þꝏ Bæniñ?

Tveñslags: Su Jnvortis; þa Hiartad talar alleina i Andvarpan og Eftirlaunzun, og hoogværlega upplyptir sier til Guds; þetta kallast jdugleg Bæn, er bædi mꝏ og ꝏ ad hafa i frami mitt i Erfidi og

Uñ-

Umsvifum. Sw Utvortis; ba Munurinn talar af Nægd Hiartans, og a vissum Timum frambet sijna Þanka og Eftirlaunganir med Ordunum.

Psal. 19. 15. Lat bier bocknast ORdædur mijns Munns, og MAlid mijns HJarta fyrir bier: Drottiñ miñ Frelsari og miñ Endurlausnari.

Psal. 55. 17. 18. Eg vil AKalla til Guds, og mun Drottiñ hialpa mier: Um KVelld, MOrgna og MJddeigi vil eg koma og græta, ba mun hañ heyra mijna Raust.

Dan. 6. 11. Daniel fiell a sijn Knie PRisvarsiñum a DEginum, badst fyrir, lofadi og backadi sijnum Gudi.

Ps. 119. 164. Ps. 38. 10. Es. 29. 13. 14.

Eigum vier alleina ad bidia fyrir sialfum oss?

Nei, vier eigum ad bidia fyrir ollum, og bo bad være vorir Ovinir; eñ sier i Lage eigum vier ad bidia fyrir Yfirvalldinu, fyrir Kieñifedrunum, so og fyrir vorum andlegum Brædrum og Systrum.

Jac. 5. 16. BJdied HVer FYrir HOrum bad bier heilbrigdir verdid.

Matth. 5. 44. BJdied fyrir beim er ydur GJora SKada, og OFsookn veita.

Um hvad eigum vier ad bidia?

Ecki alleinasta um likamlegar Gafst, so sem Upphelldi, Frid, Heilbrigdi, hvers vier eigum ad bidia med bvi Forordi: EF BU VJllt, DROTTiñ! Helldur sierdeilis um andlegar Gaafur, so sem: Fyrirgiefning Syndaña, Styrk Trwariñar, hreint Hiarta, goodañ Undirbwning til Daudans og eylijfa Saaluhialp. Bo hæfir ecki aan Forords ad bidia um bær andlegu Gaafurnar, sem ecki eru alldeilis naudsynlegar til Saaluhialpar, so sem ad komast framar i andlegt Volædi, finna hia sier stop-

 ra

ra Dyrkun Trwarinnar, edur mikla andlega Gledi, og so fleyra. Matth. 6.9. Luc. 11.1.

Hver er su allra fullkomnasta og besta Bæn?

Su heilaga Bæn, FADIR VOR, sem JEsus sialfur hefur kiendt sijnum Lærisveinum og ollum oss ad bidia med. Matth. 6.9.13. Luc. 11.2.4.

Hvernig sundurdeilist þessi Drottinlega Bæn?

I Inngaanginn, Sio Bænirnar, og Niðurlægid.

Hvad er Inngangurinn?

Þad orugga Trwar Andvarp: FAdir Vor Þu Sem Ert A Himnum! -

Þvi verdur Gud avarpadur i Bæninni sem einn Fadir?

Gud vill med þessu Fodur Nafni tilleida oss og locka, ad vier trwa skulum, etc. Les Frædinn.

Kunna þeir Ydrunarlausu ad hafa þad Trwar-Traust, ad kalla Gud a Himnum sinn Fodur?

Hann er ad sonnu allra Fadir eftir Skopuninni, Vidhalldinu, hans nadarsamlegum Vilia til ad umvenda þeim, og frelsa þa; þo kunna þeir Ydrunarlausu ecki ad kalla hann Fodur, so leingi sem þeir ecki Endurfædast, og odlast einn sonarlegann Anda, þvi annars er þeirra riettr Fadir i Helviiti.

Joh. 8.44. Þier erud af FOdurnum FJanda, og eftir Gyrndum ydar Fodurs þa vilied þier giora.

Hver kann þa ad kalla Gud, Fodur sinn?

Þau Endurfæddu og sonnu Guds Born, jafnvel þo þau sieu veik. Gal. 4.6. Med þvi ÞJer ERud BOrn, hefur Gud sendt Anda sijns Sonar i ydar Hiortu, kallandi, ABBA, kiæri Fadir!

Hvar fyrer er sagt: Fader vor; Enn ecki: Fadir minn?

Þvi sierhvor Christinn Madur a ad bidia i Ein-

ingu

ingu Andans og Nadariñar, med hinum ødrum, og fyrir hinum ødrum, so sem fyrir sialfsum sier.

† Hvar fyrir kollum vier Gud þañ Fødur, sem er a HImnum?

Til ad upplypta Hiartanu, og þvi helldur ad uppørva Virdingarfullt Trwnadar Traust til þess allra Hæsta, sem sier og megnar alla Hluti.

Matth. 6. 32 Ydar HImneskur Fadir veit (ad) þier þurfid alls þessa vid.

Eru margar Bænir i Fadir Vor?

Sio, af hverium Fioorar þær Fyrstu hliida uppa þad gooda sem vier bidium uñ, enn Priaar sijdari hliida uppa þad Illa, sem vier afbidium.

## FYRSTA BÆN.

## Helgist þitt Nafn.

Hvad merkir Guds Nafn?

Hañs Eigiñlegleika, Ord, Sacramenta, og allt þad sem hønum sierdeilis tilheyrir. Sia 2. Bod.

Verdur þetta Guds Nafn helgad af þvi, ad vier bidium þess?

Guds Nafn er sañarlega i sialfu sier heilagt, enn vier bidium hier, ad þad mætti og so hia oss helgast.

Hvernig helgast Guds Nafn?

Þa Guds Ord kieñist klaart og hreint, og vier, etc.

Matth. 5. 16. Latid so ydvart LJoos lisa fyrir Møñunum, so ad þeir siai ydar GOdverk, og DYrdki FØdur ydar a Himnum.

Hvernig verdur Guds Nafn vanhelgad?

Med raungum Lærdoomi og ogudlegu edur Hrœsnisfullu Lijferni; Þvi hver sem ødruvijsi kiennir edur lifir, etc. Rom. 2. 23. Þu hroosar þier af Løg-

mœlenu, og vanvirdir Gud fyrir Yfirtrodslu Logmalsins. Ezech. 36.22.23.

Kañ eiñ Yðruuarlaus Syndari rett ad bidia med þessari Fyrstu Bæn?

Nei; Ecki af sañarlegu Hiarta, þvi hañ er sialfur sa sem lastar og vanheidrar þetta heilaga Nafn.

ANNUR BÆN.

Tilkomi þitt Rijki.

Er Guds Stioornan edur Rijki margfalldt?

Þrefalldt, sem er: 1.) Nætturuñar Rijki, i hveriu hann med sijnu Almætti stioornar ollum skopudum Hlutum eftir sijnum Vilja.

2.) Nadar Rijki, þad er Kyrkiañ, edur Samneyti Heilagra, hvar hañ stioornar sijnum trwudum Bornum fyrir sinn Heilaga Anda i Ordinu og Sacramentunum.

3.) Er Dijrdareñar Himneska Rijki, i hveriu þeir sem Christo tilheyra skulu eylijflega rijkia med honum i fullkominni Sælu og Gledi

Uñ hvert af þessum Rijkium bidium vier i Añari Bæneñi?

Um Nadariñar og Dijrdariñar Rijki.

Hvernig kiemur Guds Rijki til vor?

Þegar vor Himneskur Fadir giefur oss siñ, etc.

Kañ eiñ Idruuarlaus Syndari vel ad bidia med þessari Añari Bæn?

Nei, ecki af sañarlegu Hiarta, þvi hañ er hræddur vid Heilags Anda Stioornan, amast vid Guds Rijki, og lifir af Asetningi i Satans Rijki.

† Hefur Satan þa lijka eitt Rijki?

Ja, þessarar Veralldar Gud og Hofdinge er kroptugur i Bornum Vantrwarinnar og undir hañs

Stiorn-

Stioornan standa aller sem eige eru endurfædder, allt þangad til þeir umvendast.

Col. 1. 3. Sa ed oss hefur frelsad af Myrkranna, og hefur oss innsett i Riki sijns elskulega Sonar.

4 Hvar af beckiast þeir sem eru i Diofulsins Riki?

Par af, ad þeir þioona Syndinni, og giora Diofulsins Vilia, so sem være hann þeirra Herra.

1. Joh. 3. 8. Hver sa Syndina giorir, er af Dioflinum.

## ÞRIDIA BÆN.

### Verdi þinn Vilie, so a Jordu sem a Himni.

Hvad er Guds Vilie?

Guds Vilie er vor Helgun fyrir Trwna og Kiærleikann, eftir Logmalinu og Evangelio.

1. Joh. 3. 23. Petta er hans Bodord, ad vier TRwum a Nafn hans Sonar JEsu Christi, og elskum hver annan, so sem bad hann gaf oss Bodordid.

1. Thess. 4. 3. Pad er WJlie Guds ydar HElgan.

Skiedur þessi Guds Vilie alltijd og hia ollum?

Nei, þvi þar sem Guds Riki kiemur ecki til, þar skiedur ecki hanns, helldur Diofulsins, Heimsins og Holldsins Vilie.

Hvernin skiedur þa þessi Guds Vilie?

Þegar Gud hindrar oll ill Raad og V. etc.

Gietur þa Vilie Mannsins eckert neitt Gott, ef hann ma vera sialfradur.

Ney, þvi vors Hollds Sinnislag er Fiandskapur i giegn Gudi; hverki þeckium vier þad sem oss er Reyndar nytsamlegt, nie hofum Ræni a ad leita þess nema Gud upplijsi vorn Skilning, og hneigi vorn

 Vila

Vilia til ad leggia oss undir þad sem hann vill vera láta, þvi hanns Vilie alleina er vijsdoomsfullur, goodur og fullkominn.

† Gietur Guds Vilie skied hier á Jørdunni af Mønnunum, eins og hann skiedur i Himnum af Englunum?

Já, þo hann verdi eigi so fullkomlega, þa gietur hann skied samt med so hiartanlegri Einlægni, med Gledi og Alvørugiefni.

Er þad noog ad vier i Hlijdninni giørum Guds Vilia?

Ney, oss byriar og so ad lijda þolinmodlega þad sem Gud vill vera láta, og giefa oss olldungis undir hanns Hond, lijka sem einn siwkur leggur sig i Læknarans Hendur. 1. Sam. 3.18. Eli sagdi: Hann er Drottinn, hann giörir hvad hønum er þeckt.

Gieta Veralldarinnar Børn med sannarlegri Hiartans Alvøru bedid med þeirri Pridiu Bæn?

Ney, þvi þau striida af Asetningi moot Guds Vilia, og vilia ad hann hagi sier eftir þeirra dáarlegum Vilia, og syndsamlegu Siergiædi.

## FIOORDA BÆN.

## Gief oss i Dag vort daglegt Braud.

Hvad skilst fyrir daglegt Braud?

Allt þad sem vier med þurfum til þessa Lijfs Biargar, etc. Og er eigi alleina bedid um, ad vier meigum ødlast þetta, helldur ad þad meigi blessast oss.

Þvi kallast allt þetta Braud?

Þvi Braudid er þad almennasta og naudsynlegasta Medal til Lijkamans Biargar og Upphelldis.

Hvers vegna bidur þu um Daglegt Braud?

Þvi eg á vera ánægdur med naudsynlegt Upphelldi

helldi, ann þess ad kieppast eftir yfirflootanlegu.
1. Tim. 6. 8. Naer vier høfum FAEdi og KLaednad, so laatum oss NAEgia.

Þvi er tillagt þetta Ord: J Dag?

Þvi eg mia ei ála Oñ añars Morguns, helldr laata hverium Degi naegia sijna Piening. Matth. 6. 34.

Þvi segir þu: Gief oss VOrt Braud?

Vegna þess vier iñilykium eiñig vorn Naaunga i Baeninni, lijka þess vegna, ad vier eigum ad bidia, ad vier maettum eta vort eigid Braud, enn ecki stolid Braud med Naanglaeti og Leti, af hveriu ordsakast ad gaanga a Vonar-vøl.
2. Thess. 3. 12. Slijkum bioodum vier og aamiñum þaa fyrir vorn Drottiñ JEsum Christum, þad þeir erfidi med Spaklaeti, og eti sitt eigid Braud. 1. Thess. 4. 11. 12.

A þa saa sem bidur uñ daglegt Braud ad erfida lijka fyrir þvi?

Jaa. 1. Mos. 3. 19. J þijns Andlitis Sveita skalltu neita þijns Brauds.

Maa hiñ Rijki þa ecki vera ølldungis Jdiulaus?

Nei, first hañ vill eta, þa aa hánn ad erfida; þad er, giøra nockud Gott, hvad sem verą kañ, til Dirdar Gudi og Gagns Naaunganum.
1. Pet. 4 10. Þjooni hver ødrum, hver eiñ med þeirri Giøf, sem hañ hefur ødlast, so sem GOOdir Forstioornar-Meñ margvijslegrar Guds Naadar.

## FJMTA BAEN.

### Fyrirgief oss vorar Skulldir, so sem vier og fyrirgiefum vorum Skulldunautum.

Hvad fyrir Skulld edur Gialld er þad, sem vier bidium Gud ad fyrirgiefa oss?

Vorar Syndir med þeirra forþientu Straffi, tijmanlegu og eilijfu.

Vill Gud fyrirgiefa þa Skulld aan Betalings?

Christus hefur betalad þañ sijdarsta Pening fyrir oss, sem ei kunnum sialfir betala: þar fyrir bidium vier i hanns Nafneum Naad og Fyrergiefning.

Hefr Syndariñ Þorf ad bidia daglega um Fyrergiefning Syndaña, þegar Gud hefr einusiñi tekid hañ til Naadar?

Jaa, lijka so sem vier þurfum daglega Brauds vid, so þurfum vier og lijka Naadar og Fyrirgiefningar med; Þvi vier, þvi midur! syndgum daglega af Breiskleika, jafnvel þo Guds Börn syndgi eigi framar af Asetningi edur Illgyrni.

Ps. 19. 13. Hver kañ ad formerkia hversu oft hañ misgiörir? Fyrirgief þu mier miñ HErra hulegañ Brest.

Hveriu lofum vier Gudi i þessari Bæn, þa vier leitum Fyrirgiefningar til hañs?

Ad vier aptur aa moot vilium fyrirgiefa og forlaata vorum Skulldunautum, þad er, ödrum Moñum, sem brotid hafa i mooti oss, jafnvel þo vier forþienum ecki þar med af Gudi Syndaña Fyrirgiefning.

Col. 3. 13. Umlijdid hver añañ, og ef ad nockur hefur Klögu-Maal moot ödrum, þa fyrirgiefid hvad hver ödrum ijnþyrdis, lijka so sem Christur hefur fyrirgiefid ydur, so skulud þier eirnig.

Luc. 6. 37. Fyrirgiefid, so muñ ydur fyrirgiefid verda.

Kañ þa sa Haturs-fulli og Hefndargiarni ad bidia med þessari Fimtu Bæn, sier til nockurs Gagns?

Nei, þvi med þvi þad er eigi satt ad hañ fyrirgiefi þeim sem giördt hafa honum i mooti, þa bidr hañ, ad Gud vilie ecki helldur fyrirgiefa sier sijnar Syndir,

og

og þad skiedur eigi helldr; Eñ Reidi Guds bliifr yfir honum, lijka so sem Reidi hañs yfir Naunganum.

Syr. 28. 1. 2. Hver sijn Siaalfur HEfnir, a þeim mun DRottiñ AFtur HEfna, og honum eifiig hañs Syndir afturhallda. Fyrirgief þiinum Naunga, þad sem hañ hefur misgiordt vid þig, og BJd sijdañ, so munu þier og lijka þijnar Syndir verda fyrirgiefnar.

Matth. 6., 15. Ef Þier FOre giefid ei Moñunum siñ Brest, þa mun ydar Fadir EJ FOrergiefa ydr ydar Brot.

## SJOTTA BAEN.

## Eigi leid þu oss i Freistni.

### Freistar Gud nockurs Mañs?

Hann er ecki einn Freistari til þess Vonda, þvi þad er mootstædilegt hanns Heilagleika. Jac. 1. 3.

### Eru þar þa meir eñ einslags Freistingar til?

Jaa, sumar eru af Gudi til Goods; eñ hinar til Ills eru af Dioflinum, Heiminum, og voru eigiñ Holldi.

### Hvad eru eigiñlega þær Freistingar sem koma fraa Gudi?

Þær eru nockurskonar vijst Asigkomulag, andlegt edur lijkamlegt, sem Gud lætur Meñ i rata, til þess ad reina þaa, og laata siaa, hvert i þeirra Hiarta er sonn Trw, Kiærleike edur Þoliñmæde.

### † Seig þa nockud til Dæmis uppaa soddañ Freistingar?

So reyniſt og freistast saa Rijki, med sijnum Rijkdoomi, hvert hañ sie myskunsamur; Saa Faatæki, med siñi Orbyrgd, hvert hañ sie anægdr; Saa Mektugi, med sinni Makt, hvert hañ sie lijtilaatur; Saa Vesæli med sinni Eymd, hvert hañ sie þoliñmoodur; Saa sem hverki sier nie finnur Huggun, er þar med reyndur, hvert hann gieti trwad, eingu ad sijdur.

### † Þeckir Gud ecki aa þessa Hiarta Mañsins?

Ad viisu þeckir Gud hans innstu Þanka aleingdar; enn hann vill Madurinn verdi siælfum sier og ödrum riett kunnugur.

Joh. 6.6. Feita sagdi hann af þvi ad hann villdi reyna hann, þviad hann visti vel, hvad hann villdi giøra. Sioa Eftirdæmi Abrahams, 1. Mos. 22. 1. etc. Jsraels Foolks i Eydimørkunni, 2. Mos. 16. 4. Ezechiæ, 2. Chron. 32. 31.

Bidium vier þa i Siøttu Bæninni, ad Gud freisti vor alldeilis ecki?

Ney, þvi þad er oss ofstlega miøg nytsamlegt.

Jac. 1. 2. 3. Brædur minir elskanlegir! REiknid þad fyrir ALLann FÖgnud, nær þier i margvisslegar Freistingar fallid, og vitid þad ydar Trw verkar Þolinmædi.

Hvad er þa Meining þessarar Bænar?

As siælfur Gud villdi eigi freista vor framm yfir vort veika Megn: Helldr audsyna sig trwfastann, og giefa soddann Enda a Freistinguni, ad vier faaum þolad; Og þa hann lijdur þad, ad vorir Ovinir freista vor, þa setie hann þeim riett Takmørk.

Hverier eru þeir Ovinir, sem freista vor til hins Vonda?

Þeir eru: Diøfullinn, Heimurinn, og vort eigid Hollð og Blood.

Hvernig freistunst vier af þessum vorum Sælu hiælpar Ovinum?

1.) Diøfullinn, sa rietti Freistari, innskijtur vondum Hugrenningum, eins og ödrum glooandi Pijlum. Joh 13. 2. DJøfullinn hafdi SEndt i HJarta Judæ Simonis Jscharioth ad hann sviki JEsum.

2.) Heimurinn, edur Heimsins Born, freista med Ognan, Tillockan, hneixlanlegum Eftirdæmum og øllum Munnrædum, sem spilla goodum Sidum.

Ordsk.

Ordsk. 1. 10. Son min., þegar Jllir Skalkar Locka þig þa filg þeim ecki:

3.) Vort Holld og Blood, eda ill Náttura, sem hinn nálægasti og hættsamlegasti Ovin, freistar vor med illum Gyrndum og Lystingum sem i Hugann koma. Jac. 1. 14. Hver ein Freistast, nær han tilteigist af sini eigin Gyrnd, og lockadur verdur.

Hvad á sa ad giøra, sem freistadr verdr til þess Vonda?

Hann skal vaka, bidia og strijda med þeim andlegu Hervopnum mooti þessum Hættalegu Ovinum. Eph. 6. 16. 17. 18. Um fram alla Hluti, þa hondlid Trwarinnar Skiølld, med hverium þier kunid wt ad slóck va øll Gloandi Skeyti þess eitrada Ovinar; Og griipid Hiálm Hiálpræddisins, og Sverd Andans, hvert ad er Guds Ord, og Bidied iduglega i allri Naudþurft, med Bænum og Beidni i Andanum, og þar til Vakid medøllu Stadfesti og ákalli fyrir Heiløgum.

Er ecki Vantrw, edur hædilegir Þánkar og Hugranir um Gud, hættasamlegar Freistingar af Diøflinum og Manssins Hiarta?

Jw; Enn sierhvertrwadur, sem hefur Andstygd á þvi, og strijdir þar á mooti, af fremsta Megni, má hugga sig þar vid, ad Gud sier honum er þad ei i Siálfrædi, helldur er þad ein sárleg Piáning, sú er og ad sijdustu verdur til Sáluhiálpar Nota.

Gietur Madur eigi siálfur leidt sig i Freistni?

Jw, þá han ei flijr og fordast allt Tækifæri til þess illa, helldur les skadlegar Bækur, umgeingst ugglaust med Heimsins Bornum, edur tekur sier framyfir sitt Embætti, þa Hluti fyrir Hendur, sem kunna ad lada hann til Syndar og hneixla hann.

Hvad

Hvad er Hneixli?

Ein Asteiting, sem liggur i Veigi fyrir vorri Saalu, og kann ad verda henni til Falls.

Er Hneixlid margslags?

Tveñslags. 1.) Giefid Hneixli, sem ödrum verdur giefid, med syndsamlegum Ordum, Atvikum, Athöfnum, Forsoomun þess sem gioraſt ſkaledur og med Misbrwkun ſinna Frijheita, ſierdeilis þa þad ſkiedur af þeim, ſem i þeim þremur Höfud-Stiettum eru yfir adra bodnir til goodrar Fyrirmindunar

2.) Tekid Hneixli, ſem raanglega er tekid af þvi ſem er ſaklauſt og gott. Matth. 18.7. Vei ſie Heiminum fyrir Hneixlanir, 1. Cor. 8. 13. Rom. 14. 13. o.ſ.f.

Matth. 15. 12. 13. 14. Þaa geingu hañs Læriſveinar ad hönum og ſögdu: Veitſtu, ad þa er þeir Phariſæi heirdu þad Ord, hneixluduſt þeir? Eñ hañ ſvaradi og ſagdi: Öll Plantan, hveria miñ Himneſkur Fadir plantar eigi, mun uppræætaſt. Laatid þa ſara, þeir eru Blindir og Blindra Leidtogar, ef blindur leidir añañ blindañ, þa Falla þeir baadir i Gröfina. Joh. 6. 60. 61.

## SJÖUNDA BÆN.

## Helldur frelſa oſs fraa Illu.

Er margslags þad Illa, ſem vier hier aſbidium?

Fernſlags, nefnilega, ſo mikid ſem aahrærir Saalu, Lijf, Æru og Gotz; Og þar Dioſulliñ er illur, Jaa, Ordſök til alls hiñns Illa, þa bidium vier og i þeſſari Bæn mooti hönum.

† Hvad er illt, ſem ſnertir og ſkadar Saalina?

Sialf Syndiñ, ſem er Root alls Ills, nagandi Samvitſka, Forherding, Örvijnglan, og eylijf Helvijtis Angiſt.

† Hvad

† Hvad er Jllt, sem snertir og skadar Lijkamañ?
Allrahanda Siwkdoomar, og adrar tilfinnanlegar saarar Kvalir, af Hwngri, Kullda, Faangelsi, Landflootta, og odru þessháttar.

† Hvad er Jllt, sem snertir og skadar Æru vora og Gotz?
Rann Tijmanlegra Audæfa af Ovinum edr Pioofüm, Ellds-Bruni, Vatns-Vodi, svijvirdilegur Armoodur, Hadung og Skom.

Hvad eigum vier helldst ad afbidia af ollu þessu Jlla?
Pad sem Jllt er aahrærandi Saalina; Pvi ef vier hefum Frid vid Gud i einni goodri Samvitsku, þa kuñum vier ad hughreista oss i ollu odru Mootlæti; þvi það er þa fyrst eiñ heilsusamlegur Kross.

Af hveriu er Krossiñ heilsusamlegur?
Pvi hann nidurdempar Syndina, Siaalfrædi Holldsins og Elskuna til Heimsins; Uppvekur Eftirlaungun eftir þeirri Himneſku Roosemd, æfir, reynir, og styrkir Trwna, og heñar Avexti, Bænina, Yfirvegan Guds Orda, Audmijkt, Polinmædi, Reynslu og Vonina; Hañ lætur Guds Raad og Almætti merkiast i vorum Breyskleika, giorir oss samlijka JEsu Mind, og leggur so Veiginn til þess stærri Vegsemdar. Poſt.Giornb.14.22. Oss biriar fyrir MArgar HMellingar iñ ad gaanga i GUds RJJKi.

† Eru ei þeir Ogudlegu Tijdum Krossberendur?
Nei, einginn er Krossberari, nema þ:ss Krossfesta JEsu Eftirfilgiari; Enn saa Ogudlegi hefur adsonnu margar Plaagur, sem hann oftast nær giorir sier sialfum. Psal. 32.10.

† Meigum vier þa osta oss Daudans?

Ecki

Ecki af Opolinmædi, helldur af Leida ꝏ Syndiñi, og Trwariñar Eftirlaungun til þeirrar fullkomnu Sameiningar vid vorn Hiartkiæra Endurlausnara; Enn þo so, ad vier med Þolinnmædi befølum þad hanns Vilia. Phil. 1. 23. Eg hefi Gyrnd ad frꝏskiliast, og hiꝏ CHristo ad VEra.

Hafa þau O-uñvendtu Heimsins Børn nockra Orsøk, ad oska sier Daudans?

Nei; þvi þa þau giøra þad, yfirvega þau ei hvad þar eftir skal fram vid þau koma, og hver su herfilegur ad er sꝏ Kvalastadur, sem þeirra Sꝏlir komist i med Daudanum.

Hver fær þa Sꝏluhiꝏlplegañ Dauda?

Sꝏ sem deyr i Drottni; Þad er, i riettu Trwariñar Samfielagi vid HErrañ JEsum.

Opiñber. B. 14. 13. Sꝏlir eru þeir fRamlidnu, sem i DRottni DEya i frꝏ þessu. Jꝏ, Andiñ seigir, ad þeir hvijli af þeirra Erfidi, eñ þeirra Verk fylgia þeim eftir.

Eru þa eigi allir sælir, sem kalladir eru so, þa þeir eru daudir?

Nei. Spek. B. 3. 1. Sꝏler Riettlꝏtra eru i Guds Hendi, og eingiñ Piina snertir þær.

Hvernig hlioodar Nidurlagid af Fadir vor?

# Pvlad pitt er Rijkid, Mꝏtturiñ, og Dijrdiñ, ad Eylijfu, Amen.

Hvar fyrir miñist su bidiandi Sꝏla þessara Hluta sijdarst i Bæniñi?

Vegna þess, ad þad er kroftugt Medal til Uppørvunar i Trwñi og Voninni um Bænheyrsluna, ad minnast ꝏ Guds Rijki, Magt og Dijrd.

Hvad merkir þad Ord; Amen, sem seinast er tillagt?

Petta

Þetta ókunna Ord merkir Jaa, vissulega, sannliga; þad skal verda.

Kañ Madur þa ad vera viß uñ, ad hañ verdi bænheyrdur, og ødlist þad sem hañ bidur uñ?

Jaa, þvi Gud hefr befalad ad bidia, og lagt Befalninguñi Fyrirheytid til, so þad skal skie ad hañ skal bænheyra oß. Amen, Amen, þetta skal þier allt vissulega giefast. Lijka so verdum vier vißir giørdir þar uñ af Fyrirboon Christi, Heilags Anda, og allrar Christiligrar Kyrkiu.

Luc. 11. 9. Bided, og mun ydur Gjefast, og leitid ad, og munud þier FJña, knijed aa, og mun fyrir ydur UPplokid verda. Psal. 50. 15. Es. 65. 24. Joh. 16. 24.

Eñ skiedur þad þa alltijd?

Jaa, nema Madur bidie i mooti Guds Vilia, edr uñ þad sem hañ sier oß ei þienanlegt; þa veitir hañ oß eigi þad sama, helldur annad betra i þeß Stad.

1. Joh. 5. 14. Pad er su Diørfung sem vier høfum til hañs, ad ef vier BJdium nockurs EFtir hAñs VJlia, þa heyrir hañ oß. 2. Cor. 12. 8. 9.

Lætur Gud þa Bænheyrsluna koma strax fram?

Stundum, eñ eigi aavallt; Þvi þa hañ vill ad vier idkum oß i stadfastri Trw, Von og Þoliñmædi, þa dregur hañ Hiaalpina undañ uñ Stundarsakir, og lætur hana koma i riettann Tijma. Siaa Hab. 2. 3. 2. Pet. 3. 9.

Seig mier nu loksins: Hvad aa ad koma Mañi til þeß ad bidia kostgiæfilega?

Guds Skipan og Fyrirheit, Mañsins eigiñ Neyd, og ypparleg Nytsemd sem hann hefur af Bæna Jdiunni so og ad Trwinn kunni eflast, og Gud verde

dijrdkadur og lofadur fyrir Bænheyrsluna.

## Ut af Skijrnar Sacramentinu.

**Hvad er eitt Sacrament?**

Pad er sierdeilis heilog Handtiering (helagt Verk og heilog Pioonusta) innsett af Gudi, i hveirri hañ med synilegum Medolum frambijdur, veitir og stadfestir sijna osynilegu Naad og himnesk Gœdi.

**Hvad mørg voru Sacramentiñ i Gamla Testamentinu?**

Tvø; Umskurninn, og Paaska-Lambid.

**† Hvad skilur þu fyrir Umskurñina?**

Gud skipadi Abraham, ad allt Karlkyns af hañs Sœdi skylldi endilega umskierast eftir Fœdinguna, og medtakast med þvi mooti i Sattmaala vid Gud. Þo reiddu Gydingarnir sig rangleglega uppa Umskurn þeirra i Holldinu, þar þeir voru eigi a Hiartanu umskornir i Andanum. 1. Mos.17. 1.9.etc. Rom.2.28. 29. Jerem.9.26.

**† Hvad skilur þu fyrir Paaska-Lambid?**

Paaska-Lambid vat tilsett af Gudi a Dogum Mosis, til Miñis um Utleidslu Israels Foolks af Egyptalandi; Med þvi var og þeirra Trw stadfest um Messiam, sem koma atti, hver ed mundi lata slatra sier eins og einu Lambi. 2.Mos.12.1.10. 1.Cor.5.7.Ebr.11.28.

**Eru mørg Sacramenti i Nya Testamentinu?**

I Stadinn fyrir Umskurnina og Paaska Lambid hefur vor Drottinn JEsus innsett onnur Tvø i þvi Nya Testamenti, sem er :- Su heilaga Skiirn, og þad heilaga Kvølldmaaltijdar Sacramenti.

Eru allir christnir skylldugir ad tildka þau H. Sacrament?

Jaa, þeim byriar ad þacka Gudi fyrir þvilijk Nadar Medol, og eingvanveiginn ad forsmaa þau nie fyrirlijta; Enn meiga þo eigi, aan sannrar Jdrunar og Trwar, hafa eitt saavijslegt Traust a þeirra Brwkun, eins og þeir fyrir hana einungis kuñu verda Saaluhoolpnir.

Hver Mismunur er a þessum Tveimur Sacramentum?

J Skijrnar Sacramentinu verdur Manneskiañ, so sem i giegnum einar Dyr, lœtinn inn i Guds Kyrkiu og samteingd Guds Naadar og heilagra Samfielagi; Enn fyrir verduglega Brwkun Altaris Sacramentisins stadfestist og styrkist hennar Saal i þvi goda, sem aadur var uppbyriad.

Er hier margt ad athuga um Skijrnar Sacramentid?

Þrent, sem er: Hvad þad er? Hvad gott Gud veitir oss med þvi? Og hvar til þad skylldar oss?

Hvad er Skijrnar Sacramentid?

Skijrninn er ecki einsamallt Vatn. Les Frædiñ.

Hvad er hun þa meira?

Hun er þad Vatn, sem samann er reyrdt og, etc.

Er þa margslags verulegt Efni i þeirri Heilœgu Skyrn?

Tvennslags: Nefnilega, Vatnid og Guds Ord, samlagad Vatninu.

Hvad fyrir Vatn er þad?

Þad er riett nœtturlegt og almennilegt Vatn.

Hvert er þad Ord sem samlagad er Vatninu?

Þad er JEsu Ord; Matth. 28. 19. Marc. 16. 15. 16. Farid ut og kieñid œllum Þiodum, og skijrid þær i Nafni Fodur, og Sonar,

og Heilags Anda.

*Hvad er Jnnihalld þessara Orda?*

Tvennslags; Sem er Skipan ad skijra og læta sig skijra, so og lika Fyrirheitid um̃ Saaluhiaalpina handa þeim sem eru skirdir, og sannarlega trwa.

*Hvernig er farid ad skijra?*

Manni er dijft i Vatnid, eda þvi er ausid yfir hañ, i Nafni Guds Fødur, Sonar, og Heilags Anda.

*† Hvar fyrir nefnist þeirrar Heiløgu Preñingar Nafn vid Skijrnina?*

Þad hefur Christus so skipad, til þess, ad aviisa þar med, ad sa skijrdi kiemst þa i nærkvæmt Samkvæmi, og Sameining vid Gud, heyrir honum til, og er teiknadur med hanns Nafni.

*† Hver aa so ad skijrast?*

Allar Þiodir (so hefur Christus skipad i Jnnsetningar Ordunum) og lika Ungbørnin; Þad er, allir Menn ad eingum fraateknum, sem vilia komast inn i Guds Sofnud, og verda Saaluhoolpnir.

*Hver maa skijra?*

Þaa naudsyn krefur, maa þad giora hver Christinn Madur, enn reglulega verdur Skijrnin framinn og veitt af Guds Þienurum, sem eru Verkstioornar Meñ yfir Guds Leyndardoomum. 1. Cor. 4. 1.

*Hvad Gagn og Nytsemd er ad Skijrniñi?*

Þad hun verkar og framkvæmir i oss Fyrirgiefning Syndaña, frelsar oss fraa Daudanum og Diøflinum etc. (Les. 2. Spurn: i Sacr. Sk. P. 12.)

*Hver er Meining þessara Orda?*

Þessi: Ad Skijrninn giorir oss twofalldt Gagn, fyrst frijar hun oss fraa miklu Illu, þar næst veitir

hun

hun oss mikid Gott.

Hvert er sierdeilis þad Fyrsta Illa sem Skijrnin frelsar oss frá?

Syndin, frá hverri hun frelsar oss; Þad er, ad kvitt verdur giefid bædi Sekt og Straff Uppruna Syndarinnar og þeirrar Gioranlegu, einig Magt og Yfirrád Syndarinnar verda nidurdempud, fyrir Christi Kraft, i þeim sem skijrdur er, jafnvel þo Syndarinnar Root takist eigi i burt til fulls.

Rom. 6. 4. Þvi erum vier og einig med honum SMesteradir, fyrir Skijrnina J DAudan, uppá þad, ad lijka sem Christur er uppvakin frá Daudum, fyrir Dijrd Fødursins, lijka so skulum vier ganga i einu Nyju Lijferni.

Hvad er þad Annad Illa, sem Skijrnin frijar oss frá?

Daudann; Þvi allar Pijningar, og sá sijdarsti Vidskilnadur hiedan frá þessu Lijfi, er þeim, sem eru Skijrdir og trúadir christnir Men, ecki nockurt Straff edur Skadi, helldur Abati, blessadur Kross, og einn Sáluhiálplegur Heimflutningur og Jnngangur i þad eylijfa Lijf, þar sá andlegi og eylijfi Daudi hefur tapad allri sinni Magt yfir þeim.

1. Cor. 15. 55. og 57. Daudi! hvar er þin BRoddur? Helviti! hvar er þin SJgur? Gudi sieu Packir, sem oss hefur Sigurin giefid fyrir Drottenn vorn Jesum Christum.

Hvad er þad Pridia Illa sem Skijrnin frelsar oss frá?

Diofullinn, hver ed tapar sinni Makt á þeim sem fyrir Skijrnina eru komnir frá Myrkrunum til Lioosins, og frá Andskotans Walldi til Guds. Post. Giornb. 26. 18. Col. 1. 13.

Hefur Christur ecki frelsad oss frá Syndinni Daudanum og Dioflinum: Hvernig tileinkast þá Skijrninni

ad hun hafi frelsad ofs fra þessu?

Vegna þess, Skijrnin er þad Medal, fyrir hvert vier komunst i Samfielag med Christo og niootum hans Velgiørninga. Rom. 6. 3. 4.

Gal. 3. 27. So margir af ydur, sem erud skijrdir uppa Christum, þier hafid Jklædst Christo.

Hvad Gott wtvegar Skijrnin ofs i Stadinn þess Jlla sem hun frijar ofs fra?

Eylijft Lijf og Sæluhialp, sem eigi kann annad enn filgiast med Fyrirgiefning Syndanna, hia þeim, sem skijrdir eru og trwa.

Marc. 16. 16. Hver hann trwir og verdur skijrdur, sa skal HOolpinn verda, enn hver eigi trwir, hann skal fordæmast.

J hveriu er Sæluhialpinn innifalinn?

J þvi ad sameinast vid Gud, og niøota Guds; Þvi hann er sa ædsti Goodi, og su verulegu Sæla. Joh. 17. 21. 27.

Verda þa allir Saluhoolpnir sem eru skijrdir?

Ney, ecki allir, helldur þeir skijrdir, sem trwa; Þvi Christur segir, ad hver sem ecki trwi, skuli verda fordæmdur, jafnvel þo hann sie skijrdur.

Er þad þa møgulegt ad Smabørnin hafi Trwna?

Ja, þvi þau gieta tekid a mooti Verkun heilags Anda, jafnvel þo þad vitist og fornemist eigi.

Luc. 1. 15. Þegar i MOodurkvidi mun hann UPpfylltur verda af Heilogum Anda. Psal. 22. 10. 11. Psal. 8. 3. Matth. 18. 6. Cap. 19. 14.

† Fordæmast þau Ungbørn sem deya ađur enn þau hliota Skijrn?

Eingvannveginn, þvi þau forakta eigi, helldur missa þad Medal Nadarinnar, sem Gud hefur ad sønnu bundid ofs vid, enn eigi sialfann sig, þvi lijka giet-

ur hann giordt eiñ Saaluhoolpinn an Skijrnar.
Matth. 18. 14. So er Ekki Vilie Födur ydar sem a Himnum er, ad eiñ af þessum Smaa-u tapist.

Med þvi þad er so stoor og mikilsverd Hlutur ad frelsa Meñ fraa Syndiñi Daudanum og Dioflinum, og giefa þeim þad eilijfa Lijf; Seig mier þa: Hvernig kañ Vatnid ad framkvæma so veglega Hluti?

Vatnid maa ecki slijks orka, helldur, etc. Les Fr.

Þvi kallast Skirnin Endurfædingarlaug?

Þvi ad Skijrniñ er Endurfædingar Medal hiaa þeim Ungu, eins og Ordid hiaa þeim Gomlu.

Eñ hvar fyrir kallast Skijrniñ: Ein Laug, edur Vatnslaug i Ordinu?

Þad er talad i Eftirlijking; Þvi so sem nijfædd Born verda laugud og þvegiñ af lijkamlegum Saurendum, so verdur Saaliñ med Skijrnar Laugiñi þvegiñ og hreinsud af vidbioodslegum Syndariñar Saurindum. 1. Pet. 3. 21. Skijrniñ er ecki Burttekt Holldsins Saurugleika, helldur Samvitsku Attmaali goodrar vid Gud.

Þvi kallast Skijrniñ i þessum Ordum; Eiñ Saattmaali?

Af þvi i heñi framsetiast Spursmaal nockur, og verdur iñgeingiñ einn viss Saattmaali, þegar Gud giorir Loford vid Mañiñ, og Maduriñ giorir aftur a moot Loford vid Gud.

Hveriu Goodu lofar Gud Mañinum i þessum Skijrnar Saattmaala?

Ollum þeim mikilsverdu Hlutum, sem vier hofum adur heyrt, sem er: Frijan fraa Syndinni, Daudanum og Dioflinum; eñ Hlutskifti i eylijfu Lijfi, edur Barna-Rietti og Arftoku i Guds Rijki.

Hveriu Goodu lofar Madur þa Gudi aftur a moot i

Skijrnar Saattmaalanum?

Þessu; Ad hann vilie afneita, affegia, og i mootstandi Dioflinum, og ollum hans Verkum; Sem er: Prælboomur Syndarinnar, og ollu hans Athæfi, nefnilega: Hoffragt þessa Heims; so og, ad hann vilie trwa a Gud Fodur, Son og Heil. Anda.

Er þad mogulegt ad hallda þenn Saattmaala goodrar Samvitsku?

Jaa fyrir Guds Naad er þad mogulegt fyrir þa trwudu, sem vaka, bidia og strijda daglega a mooti Dioflinum og hanns Athæfi.

Phil. 4.13. Eg FOrmaa alla Hluti FYrir PAnn, sem mig maattugann giorir, sem er Christur.

Enn syndga þau trwudu Guds Born eigi oftlega af Breiskleika?

Jw, þvi midur! Þo falla þau eigi þar fyrir ur Naadar Saattmaalanum vid Gud. Rom. 8. 1.

Hvernig skiedur þad þa, ad Madurinn fellur fraa sijnum Skijrnar Saattmaala?

Þad kann ad skie, annadhvert:

1.) Med þeim Hætti sem lijtid ber a, og eigi formerkist, med Andvaraleysi, þegar Skijrnar Saattmaalinn er eigi alltijd hafdur fyrir Augum sier, eftir þvi sem Arinn fiolga, Naadar-Verkunum heilags Anda er mootstadid, sonn Bænrækni, og riett Yfirvegan Guds Orda forsoomast, og þa Madur giefur tapt ad vera athugasamur um sitt Hiarta, og hættir a þvi, ad strijda vid þa andlegu Ovini, og Sinnislagid verdr so siidann hvad af hveriu eftir Verralldarinnar Hattalagi Veralldleat, Hiegoomlegt, Oandlegt og Holldlegt, hvar til Forelldrarnir eru

almennilega, og þad oft med stoorri Astundan, hin stærsta Orsøk. Ebr. 3.12.14 Rom. 12. 2. 1. Joh. a. 15.27. Jac. 1, 27. Cap. 4. 4. Ellegar: 2.) Þad skiedur, so meir ber æ, edur meir eftirtakanlega, þa Madurinn sellur i opinberar og utvortis drottnandi Syndir Illvilians, og i Skælkapør. Eph. 4.29. 30. Es. 3. 16. og so frammv.

Þegar einhver hefur nu so med Hyrduleysi edr Illrædis Syndum rofid sinn Skijrnar Sættmaala; er þa eingrar Nædar framar ad vænta fyrir hann?

Jw, æ medann enn er Kostur æ ad ydrast, med Þvi Gud æ Nædarinnar Tijma kallar alla Syndduga til Yfirbootar. Jer. 3. 1. 6. 7. Es. 55. 6. 7. Ezech. 33. 11. 2. Pet. 3. 9.

Skal sæ þa skijrast uppæ nijtt sem vill ummvenda sier?

Ney, aungvanveiginn, þvi sæ Skilmæli sem rofinn var æ Mannsins Sijdu, stendur enn þa oraskadur æ Guds Sijdu, og hanns Trygd verdur ecki ad eingu fyrir Mannanna Vantrw. Rom. 3. 3.

Hvad er þa su Ummvendan, fyrir hveria einn Syndari kiemst aftur æ nii i Guds Naad og Sættmæla goodrar Samvitsku?

Ad ydrast eda ummvendast, er ad kannast i Hiarta sijnu vid sijnar Syndir, sem Madur drijgt hefur, og alla Vanart sinnar Syndumspilltu Naatturu, laata þær gaanga sier til Hiarta, hrellast af þeim, og hata þær, og ad hafa innilega Eftirlaangan eftir Guds Naad i Christo, og setia sier alvarlega i Sinni ad betra sinn Lifnad.

Hversu margslags Ummvendun eda Idrun er til?

Tvennslags, Þeirra Follnu, og hinna er Standa.

Hvad er Idran þeirra Follnu?

Þegar su Manneskia sem fraa Guds Raad er fallinn, og i Syndinni er daud, verdur fyrir Guds Kraft aftur uppvakinn til þess andlega Lyfsins fyrir Trwna, forlijkud vid Gud, og þannig olldungis umvendud og umbreitt.

2. Tim. 2. 25. 26. Og straffid þa sem Mootmælatir eru, ef ad Gud giæfi þeim einhveriu Sinni Yfirboot, Sannleikann ad vidurkienna, og Edurvitkadir verda ur Diøfulsins Snøru, af þeirri þeir fangadir eru eftir hans Vilia. Jer. 3. 1. 5. 7. Eph. 2. 4. 5. Post. Giorng. 26. 18.

Hvad er Idran þeirra sem standa?

Þa þeir Trwudu bera daglegt Angur fyrir þeirra umlidnu Syndir, og enn þa vidlodandi Avirdingar, bidia Gud Fyrirgiefningar aa þeim i JEsu Nafni, og einsetia sier ad deyda allar vondar Gyrndir.

Gal. 5. 24. Þeir sem CHristo TIlheyra, þeir KRossfesta sitt HOLLd med Gyrndum og Tilhneigingum. 2. Cor. 7. 1. 1. Joh. 3. 3.

Eiga Menn endilega ad vita þenna Mismun?

Jaa, til ad burtdrijfa Andvaraleysid fraa Heimsins Børnum, sem meina, ad þau ydrist og umvendi sier dagloga, sierdeilis þegar þau ganga til Skriftu, þo þau sieu enn þa andlega daud, og aan Hugskotsins edur Hiartans Lagfæringar, og hafi eigi lagt riettann Grundvoll til Idrunarinnar fraa daudum Verkum. Ebr. 6. 1.

Hvær su margir eru Partar sannrar Idrunar?

Tveir, sem er, fyrst Angur og Tregi fyrir Syndirnar, þar næst, Trwin aa DRottinn JEsum, hver-

rar Avoxtur ad er su nija Hlijdni.

Gietur Madurinn eigi trwad aa, og huggad sig vid JEsum Christum, nema hann finni adur fyrri til Angurs fyrir Syndirnar?

Ney, su Trw sem skal hondla Christum, hlijtur ad uppkvekiast med þvi, ad vier finnum til vors synduga Eymdarhags, þvi annars erum vier einir af þeim, sem meina þeir sieu hraustir og heilbrygdir, er eigi þurfi Lækningar vid. Matth. 9. 12.

Hvad er sannarlegt Angur og Tregi fyrir Syndirnar?

Andleg Særing og Hrelling sem sundurkremur Hiartad, og lætur þvi so sem svijda, Jaa, kreistir stundum Taar og Graat ut af Syndarans Augum. 2. Cor. 9. 10. Su HRigd sem er af Gudi, verkar YDran TJl HJaalpræđis, hvers eingann ydrar, enn þessa Heims Hrygd verkar Dauda. Matth. 26. 75.

Hvad stoort aa soddann Angur og Tregi ad vera?

Gud sialfur hittir þann rietta Maata, eftir sierhvers Syndara andlegu og naatturlegu Tilstandi; enn ad minsta Kosti hlijtur þad alvarlega ad hrella oss, ad hofum med Syndunum tapad Guds Naad, og so eigum vier ad vera hræddir vid Syndina sem sialfann Diöfulinn, hvad siaa er af Dæmi Davids i ollum hanns Jdrunar Psalmum.

Hvar af aa ad koma soddann Angur fyrir Syndirnar?

Ecki alleina af Kvijda fyrir Syndarinnar Straffe (þvi þa er þad eins og Achabs Hræsni, 1. Kong. B. 21 27.) helldur sierdeilis af Hatri til sialfrar Syndarinnar, og af Yfirvegan Guds Elsku og Velgiorninga, þa Madur sier sitt skelfilega Oþacklæti, vid so goodann og Giædskurijkann Gud.

Hvad

